# Hid

# Nýa Testamenti

drottins vors

# Jesú Krists.



Reykjavík 1851.

Prentad í prentsmidju landsins á kostnad ens íslenzka bífliufélags.

# Hid
# Nýa Testamenti
## Drottins vors
# Jesú Krists.



# Matteusar Guðspjall.

## 1. Kapituli.

Ættartala Krists; hans getnaður af heilögum anda; nafn hans og fæðing.

1. Þetta er ættartala Jesú Krists, sem kom-
inn er af ættum þeirra Davíðs og Abrahams:
2. Abraham gat Ísaak; Ísaak gat Jakob;
Jakob gat Júdas og bræður hans; 3. Júdas
gat Fares og Sara við Tamar; Fares gat Es-
rom; Esrom gat Aram; 4. Aram gat Amina-
dab; Aminadab gat Naasson; Naasson gat
Salmón; 5. Salmón gat Bóos við Rakab; Bó-
os gat Obed við Rut; Obed gat Jessai; 6.
Jessai gat Davíð konúng; Davíð gat Saló-
mon við konu Uriasar; 7. Salómon gat Róbó-
am; Róbóam gat Abía; Abía gat Asa; 8. Asa
gat Jósafat; Jósafat gat Jóram; Jóram gat

Osías; 9. Osías gat Jóatam; Jóatam gat
Akas; Akas gat Esekías; 10. Esekías gat
Manasses; Manasses gat Amon; Amon gat
Jósías; 11. Jósías gat Jekonías og brædur
hans um þann Babýlonisku herleidingar tíma.
12. En eptir herleidinguna gat Jekonías Sa-
latíel; Salatíel gat Sóróbabel; 13. Sóróbabel
gat Abiúd; Abiúd gat Eliakeim; Eliakeim gat
Asór; 14. Asór gat Sadók; Sadók gat Akeim;
Akeim gat Eliúd; 15. Eliúd gat Eleasar; Ele-
asar gat Mattan; Mattan gat Jakob; 16. Jakob
gat Jósep, mann Maríu, sem var módir Jesú,
hver ed kallast Kristur. 17. Eru þannig alls
14 ættlidir frá Abraham til Davíds, frá Da-
víd til þeirrar Babýlonisku herleidingar 14, og
14 frá herleidingunni til Krists.

18. Fæding Jesú Krists vard med þessum
atburdum: módir hans María var föstnud Jó-
sep, en ádur en þau komu saman, fanust hún
barns hafandi af heilögum anda. 19. En fest-
armadur hennar Jósep, sem var valmenni, og
ekki vildi gjöra henni opinbera minkun, ásetti sér
ad skiljast heimuglega vid hana. 20. Þegar
hann hafdi þetta í hyggju, þá vitradist honum
eingill guds í draumi og sagdi: Jósep, ættnidji

Davíðs, vila þú ekki fyrir þér að gánga að eiga
Maríu, festarkonu þína; því sá þúngi, er hún
geingur með, er getinn af heilögum anda. 21.
Hún mun son fæða, hann skaltu láta heita Jes-
ús, því hann mun frelsa sitt fólk frá þess synd-
um. 22. En alt þetta skeði, svo að rættist það,
sem drottinn mælti fyrir spámanninn, er svo
sagði: 23. Sjá, mey mun barns hafandi verða
og son fæða, hann munu menn heita láta Em-
manúel; það þýðir: guð með oss. 24. Þegar
Jósep vaknaði, gjörði hann, sem eingill drott-
ins hafði boðið, og tók festarkonu sína til sín; 25.
en hafði þó ekki samræði við hana, uns hún ól
sinn frumgetinn son, hvern hann lét heita Jesús.

## 2. Kapituli.

Vitríngar veita Kristi lotníngu. Hann flýr til Egypta-
lands. Heródes lætur deyða sveinbörnin í Betlehem.
Jesús kemur til Nazaret.

1. Þegar nú Jesús var fæddur í Betlehem
í Júdea, á dögum Heródesar konúngs, komu
vitríngar úr austurlöndum til Jerúsalem, og
sögðu: 2. hvar er sá nýfæddi konúngur Gyð-
ínga? Vér höfum séð hans stjörnu í austurlönd-
um, og erum komnir til að veita honum lotn-

íngu. 3. En er Heródes konúngur heyrdi þetta,
vard hann skelfdur, og öll Jerúsalem med
honum, 4. og lét samankalla alla ædstu presta
og löglærda lýdsins, og spurdi þá, hvar Krist-
ur ætti ad fædast. 5. Þeir sögdu honum: í Betle-
hem í Júdea; því þannig hefdi spámadurinn
skrifad: 6. Þú Betlehem í Júdea ert eingan
veginn hin minnsta á medal merkisborga Jú-
dea; því frá þér mun koma höfdingi, er ráda
skal fyrir minum lýd Israel. 7. Þá kalladi
Heródes vitríngana til sín á laun, og spurdi
þá vandlega, nær stjarnan hefdi sézt; 8. sendi
þá sídan til Betlehem og sagdi: farid, og hald-
id vandlega spurnum fyrir um barnid, og þeg-
ar þér hafid þad fundid, kunngjörid mér þad,
ad eg einninn geti komid ad audsýna því lotn-
íngu. 9. En þá þeir höfdu heyrt konúnginn,
fóru þeir leidar sinnar. Og sjá, stjarna sú,
sem þeir höfdu séd í austurlöndum, gekk undan
þeim, þar til hana bar þar yfir, hvar barnid
var; 10. og er þeir sáu stjörnuna, glöddust þeir
harla mjög, 11. geingu inn í húsid, og fundu
þar barnid ásamt med Maríu módur þess, féllu
fram og veittu því lotníngu. Þar næst opn-
udu þeir fjárhirzlur sínar, og færdu því gjafir,

gull, reykelsi og myrru. 12. Síðan gaf guð
þeim ávísun í draumi, að þeir skyldu ekki snúa
aptur til Heródesar; fóru þeir því aðra leið
til baka til síns lands.

13. Þegar þeir voru burtu farnir, vitraðist
eingill drottins Jósep í draumi, og sagði: statt
upp, tak barnið og móður þess, og flý til E-
gyptalands, og ver þar, þángað til eg segi þér;
því Heródes mun leita barnsins að fyrirfara
því. 14. En þá hann vaknaði, tók hann barn-
ið og móður þess samnættis, og fór til Egypta-
lands, 15. og dvaldist þar, til þess Heródes
var dauður; svo að rættist það, sem drottinn
sagði fyrir spámanninn: af Egyptalandi kallaði
eg son minn.

16. En er Heródes sá, að hann var gabb-
aður af vitríngunum, varð hann afar reiður, sendi
út og lét myrða öll sveinborn í Betlehem, og
í þeim héruðum, er þar voru í grend, tvævet-
ur og þau, er yngri voru, sem svaraði þeirri
tímaleingd, er hann hafði komizt eptir af vitr-
íngunum. 17. Sannaðist það þá, sem spá-
maðurinn Jeremías segir: 18. Í Rama heyrð-
ust hljóð, kveinstafir, grátur og vein mikið;

Rakel harmar børn sín, og vill ekki huggast
láta, því þad er útgjørt um þau.
19. Þegar Heródes var daudur, vitradist eng-
ill drottins Jósep í draumi í Egyptalandi, og
sagdi: statt upp og tak barnid og módur þess,
og far til Gydingalands, því þeir eru daudir, er
setid hafa um líf barnsins. 21. Jósep stód
upp, tók barnid og módur þess, og fór til Gyd-
ingalands. 22. En er hann heyrdi, ad Arke-
laus hefdi tekid vid ríki í Júdea, í stad Heró-
desar fødur síns, bar hann ekki traust til ad
fara þángad, og veik því, eptir ávísun guds í
draumi, í Galíleuland, 23. og settist ad í borg
þeirri, er heitir Nazaret, svo ad þad rættist,
sem spámennirnir høfdu fyrirsagt, ad hann skyldi
nadverskur kallast.

## 3. Kapituli.

Jóhannes kennir, skírir, áminnir; Jesús er skírdur af Jóhannesi.

1. Á þeim tíma kom Jóhannes skírari, og
hóf þessa kenningu í óbygdum Júdealands: 2.
Bætid rád ydar, því himnaríki er nálægt. 3.
Um hann er þad, sem spámadurinn Esajas kemst
svo ad ordi: Í óbygdum er kallad: tilbúid veg

drottni, beinið brautir hans. 4. En sjálfur
bar Jóhannes klæðnað af úlfalda hárum, og
hafði leðurbelti um sínar lendar; til matar hafði
hann eingisprettur og skógarhunáng. 5. Þá
kom til hans fólk frá Jerúsalem og úr öllu
Júdea, og úr öllum héröðum við Jórdan, 6.
og hann skírði þá í ánni, þegar þeir höfðu játað
sín afbrot. 7. En sem hann sá marga Fari-
sea og Saðúsea koma til sinnar skírnar, sagði
hann svo við þá: þér, nöðrunúngar, hver hefir
kent yður, að þér þannig gætuð umflúið tilkom-
andi hegníngu? 8. Til þess verðið þér að bera
þann ávöxt, er sambjóði betruðu hugarfari. 9.
Segið ekki af sérþótta með sjálfum yður: vér
eigum Abraham fyrir föður; því trúið mér, að
máttugur er guð að vekja Abrahami börn af
steinum þessum; 10. því nú þegar liður öxin
að rótum trjánna, og mun þá hvert það tré,
sem ekki ber góðan ávöxt, upphöggvið verða og
í eld kastað. 11. Eg skíri yður einúngis í vatni
til lifnaðar bóta, en sá, sem eptir mig kemur,
er mér svo miklu meiri, að eg er ekki verður
að bera skóklæði hans; hann mun skíra yður
með heilögum anda og eldi. 12. Sína varp-
skúflu ber hann í hendi sér, með hverri hann

hreinsar sinn láfa; korninn mun hann safna í
hlöðu, en hismið mun hann brenna í óslökkv-
anda eldi.

13. Um þessar mundir kom Jesús úr Gali-
lea til Jórdanar, til Jóhannesar, þess erindis
að skírast af honum, 14. en Jóhannes skorað-
ist undan því, og sagði: mér er þörf, að eg
skírist af þér, og þú kemur til mín. 15. Jes-
ús svaraði honum og sagði: veittu mér þetta,
því þannig heyrir okkur að gjöra alt það, sem
rétt er; og þá lét Jóhannes það eptir honum.
16. Og sem Jesús var skírður, stè hann jafn-
skjótt upp úr vatninu; og sjá, þá opnuðust
himnarnir uppi yfir honum, og Jóhannes sá
guðs anda ofan stíga, eins og dúfu, og koma
yfir hann; 17. og sjá, þá heyrðist rödd af
himnum, er sagði: þessi er sonur minn elsku-
legur, á hverjum eg hefi velþóknun.

## 4. Kapituli.

Jesú er freistað af djöflinum; hann víkur burt frá Júdea og býr í Kapernaum; kennir, kveður fjóra læri-sveina sér til fylgdar, kennir síðan og læknar.

1. Eptir það var Jesús leiddur af anda á
eyðimörku, að hann freistaðist af djöflinum; 2.

og er hann hafði fastað fjörutin daga og fjöru-
tíu nætur, tók hann loks að húngra. 3. Þá
kom freistarinn til hans og sagði: ef þú ert
guðs sonur, þá bjóð þú, að steinar þessir verði
að brauðum. 4. Jesús svaraði: Skrifað stend-
ur: maðurinn lifir ekki af einu saman brauði,
heldur af sérhverju því, sem guð vill. 5. Þessu
næst tók djöfullinn hann með sér í borgina
helgu, og fór með hann upp á musteris bustina,
og sagði við hann: 6. Ef þú ert sonur guðs,
þá kasta þér hér ofan fyrir, því skrifað er: guð
mun bjóða einglum sínum að sjá þér borgið,
og þeir munu bera þig á höndum sér, að ekki
steytir þú fót þinn við steini. 7. Jesús svar-
aði honum: Aptur stendur skrifað: „ekki skaltu
freista drottins guðs þíns". 8. Enn á ný fór
djöfullinn með hann upp á ofurhátt fjall, og
sýndi honum þaðan öll ríki veraldarinnar og
þeirra dýrð, og mælti: 9. Allt þetta mun eg
gefa þér, ef þú fellur fram og tilbiður mig.
10. Þá mælti Jesús: Far frá mér, Satan;
því svo er skrifað: Drottinn guð þinn skaltu
tilbiðja og honum einum þjóna. 11. Þá yfir-
gaf djöfullinn hann, og sjá, einglar komu og
þjónuðu honum.

12. En sem Jesús heyrdi, ad Jóhannes var
settur í fángelsi, veik hann til Galilea, 13. og
fór frá Nazare, og settist ad í Kapernaum, er
liggur vid sjáfarsíduna á Sabúlons og Nepta-
leims landamærum, 14. svo ad rættist þad,
sem spámadurinn Esajas segir: 15. Land Sa-
búlons og Neptaleims vid sjóinn hinumeginn
Jórdanar, Galilea hid heidna, 16. lýdur sá, er
í myrkri sat, sá ljós mikid, og þeim, sem bjuggu
í enu dimma daudans landi, er ljós upp runn-
id. 17. Upp frá þessu hóf Jesús ad kenna,
og segja: Bætid rád ydar, himnaríki er nálægt.

18. Einhverju sinni er hann gekk med sjón-
um í Galilea, leit hann tvo brædur, Símon,
sem kalladur var Pétur, og Andrés bródur
hans, er voru ad leggja net í sjó, því þeir voru
fiskimenn; 19. og sagdi til þeirra: Fylgid mér,
og mun eg gjora ydur ad manna veidurum.
20. Þeir yfirgáfu strax netin, og fylgdu hon-
um. 21. Og sem hann gekk þadan leingra á-
fram, leit hann adra tvo brædur, Jakob Se-
bedeusson og Jóhannes, bródur hans, á skipi
med Sebedeusi, fodur þeirra, og voru þeir ad
bæta net sín; þá kvaddi hann einninn til fylgd-

ar við sig; 22. þeir yfirgáfu strax skipið og föður sinn, og réðust til fylgdar við hann.

23. Síðan fór Jesús um alt Galilea og kendi í samkundum þeirra, og flutti þeim gleðiboðskapinn um guðs ríki, og læknaði alls kyns sóttir og kránkleika meðal lýðsins; 24. og barst orðstír hans um alt Sýrland. Og færðu menn til hans alla sjúka, sem af ýmislegum kránkleikum og þúngum sjúkdómum haldnir voru, djöfulóða, túnglsjúka, máttvana, og læknaði hann þá. 25. Og fylgdi honum mikill fjöldi fólks úr Galilea og Dekapólis, Jerúsalem og Júdea, og úr landinu fyrir handan Jórdan.

## 5. Kapituli.

Kenning Jesú á fjallinu; hans áminning til postulanna; hans útskýring yfir lögmálið og boðorðin.

1. En er hann sá mannfjöldann, gekk hann upp á fjall eitt og settist þar; þá komu lærisveinarnir til hans; 2. hóf hann þá kenningu sína til þeirra á þenna hátt: 3. Sælir eru andlega lítillátir, því þeir munu eignast himnaríki. 4. Sælir eru sorgbitnir, því þeir munu huggun hljóta. 5. Sælir eru hógværir, því

þeir munu landid eignast. 6. Sælir eru þeir,
sem húngrar og þyrstir eptir réttlætinu, þvi
þeir munu saddir verda. 7. Sælir eru misk-
unsamir, þvi þeir munu miskun hljóta. 8. Sæl-
ir eru hreinhjartadir, þvi þeir munu gud sjá.
9. Sælir eru fridsamir, þvi þeir munu guds
born kalladir verda. 10. Sælir eru þeir, sem
sakir sinnar rádvendni ofsóktir verda, þvi þeir
munu hlutdeild fá i himnariki. 11. Sælir erud
þér, þegar menn atyrda ydur, ofsækja og tala
gegn ydur alls konar illyrdi min vegna, en þó
ljúgandi. 12. Fagnid þá og gledjist, þvi ydar
verdkaup er mikid á himnum; þannig ofsóktu
þeir spámennina, sem fyrir ydur voru.

13. Þér erud salt jardar; nú, ef saltid dofn-
ar, med hverju skal þá selta þad? þad er þá
til einskis nýtt, nema ad útkastast og fótum trod-
ast af monnum. 14. Þér erud ljós heimsins;
sú borg, sem á fjalli er bygd, fær ekki dulizt.
15. Menn kveykja ekki ljós til ad setja þad und-
ir mæliker, heldur setja menn þad i ljósastiku,
ad þad lýsi þeim, sem inni eru; 16. svo lýsi
og ydvart ljós odrum monnum, ad þeir sjái ydar
góda framferdi, og dýrki ydar himneska fodur.

17. Ætlid ekki, ad eg sé kominn til ad af-

taka lögmálið og spámennina; til þess er eg ekki
kominn, heldur til þess að fullkomna það. 18.
Sannlega segi eg yður: fyrr mun himin og jörð
forgánga, en víkja megi frá hinum minnsta bók-
staf eða titli í lögmálinu, og það svo grandvar-
lega, að því sé að öllu leyti fullnægt. 19.
Hver hann brýtur eitt af þessum boðum, er
minnst sýnist um varða, og hvetur aðra til þess,
hann mun minnstur kallast í himnaríki; en hver
sem hlýðir þeim, og ræður (öðrum til hins
sama), hann mun mikill kallast í himnaríki; 20.
því eg segi yður, að nema yðar ráðvendni taki
fram Fariseanna og þeirra löglærðu, munuð þér
ekki koma í himnaríki. 21. Þér hafið heyrt,
að það var bannað í fornöld mann að vega,
en ef einhver vægi mann, skyldi hann dóms sek-
ur; 22. en eg segi yður, að hver hann reið-
ist bróður sínum, er dóms sekur; og hver, sem
segir við bróður sinn, þú heimskingi, skal af
dómsatkvæði þess mikla ráðs sekjast; en hver,
sem segir, þú guðleysingur, vinnur til helvítis
elds. 23. Þar fyrir, þegar þú færir gáfu þína
til altarisins, og þér kemur þar í hug, að þú
hafir eitthvað gjört á annars hluta, 24. þá skil
þar eptir gáfu þína við altarið, far burt og

sætzt ádur vid bródur þinn, kom sídan og offra
gáfu þinni. 25. Vertu skjótur til sætta vid
mótstødumann þinn, ádur en þid mætid bádir
fyrir dómaranum, svo ad eigi afhendi hann þig
dómaranum, en hann fángaverdinum, og verdi
þér sídan í dýflissu kastad. 26. Sannlega segi
eg þér, ad þú munt þadan ekki út komast, fyrr
en þú hefir borgad hinn sídasta pening. 27.
Þér hafid heyrt bodid: þú skalt eigi hórdóm
drýgja; 28. en eg segi ydur, ad hver hann
lítur konu girndar auga, hefir þegar drýgt hór
med henni í huga sínum. 29. Ef auga þitt
hid hægra hneykslar þig, þá sting þad út, og
kasta því á burt; því betra er þér ad missa
einn lima þinna, en øllum þínum líkama verdi
kastad í helvíti. 30. Eins ef þín hægri hønd
lokkar þig til syndar, þá snid hana af og kasta
á burt; betra er þér ad missa einn lima þinna,
en ad øllum þínum líkama verdi kastad í hel-
víti. 31. Þad er bodid, ad hver, sem segir
skilid vid konu sína, skuli gefa henni skilnadar-
skrá; 32. en eg segi ydur, ad hver hann læt-
ur skilid vid konu sína, án þess hún sé um hór
sek, er skuld í, ad hún verdur hórkona, og hver,
sem geingur ad eiga þá konu, sem vid mann

sinn hefur skilid, drýgir hór. 33. Þér hafid
einnig heyrt, ad forfedrunum var gefid þad
bodord: þú skalt ekki sverja rángan eid, heldur
efna svardaga þina vid gud; 34. en eg segi
ydur, ad þér eigid öldúngis ekki ad sverja, hvorki
vid himininn, því hann er hásæti guds; 35.
né vid jordina, því hún er hans fótskör; ekki
heldur vid Jerúsalem, því hún er borg þess
mikla konúngs; 36. ekki heldur vid höfud þitt,
því ekki getur þú gjort eitt einasta hár svart
eda hvítt á því; 37. en játid því, sem satt er,
og neitid því, sem ósatt er; hvad þér segid fram-
ar þessu, þad kemur frá hinum vonda. 38.
Þér hafid heyrt, ad bodid er: Auga fyrir auga,
tönn fyrir tönn; 39. en eg segi ydur: Rísid
ekki öndverdir móti meingjördum annara, held-
ur slái nokkur þig á hægri kinn þína, þá bjód
honum einnig hina. 40. Vilji nokkur hafa laga-
deilur vid þig um kyrtil þinn, þá lát honum
og yfirhöfn þína lausa. 41. Neydi nokkur þig
um einnar mílu fylgd, þá far med honum tvær;
42. gef þeim, sem bidur, og vert ekki afund-
inn vid þann, sem af þér vill lán taka. 43.
Þér hafid heyrt, ad bodid er: þú átt ad elska
náúnga þinn, og hata óvin þinn; 44. en eg

býd, ad þér elskid óvini ydar, blessid þá, sem ydur bölva; gjörid þeim gott, sem hata ydur, og bidjid fyrir þeim, sem rógbera ydur og ofsækja; 45. svo þér séud börn födurs ydar á himnum, hver ed lætur sína sól upp renna yfir vonda og góda, og rigna yfir rádvanda og órádvanda. 46. Því þótt þér elskid þá, sem ydur elska, hver laun eigid þér skilid fyrir þad? Gjöra ekki tollheimtumenn hid sama? 47. Og þótt þér látid ad eins kært vid landa ydar, hvad gjörid þér í því, sem hrósvert sé? Gjöra ekki heidnir menn hid sama? 48. Verid þar fyrir fullkomnir, eins og ydar fadir á himnum er fullkominn.

## 6. Kapituli.

Jesús talar um ölmusur, bænir, föstu, himneskan aud; varar vid áhyggju.

1. Varizt ad fremja gódverk ydar í annara manna augsýn, til þess ad þeir sjái þau; annars hafid þér eingra launa ad vænta af ydar himneska födur. 2. Þegar þú þar fyrir ætlar ad gefa ölmusu, þá lát ekki blása í lúdur fyrir þér, eins og hræsnarar gjöra á samkomum og strætum, ad þeim verdi hrósad af mönnum;

því trúid mér, þeir hafa úttekid laun sín. 3. En
nær þú vilt gefa olmusu, þá viti ekki hønd þín
hin vinstri, hvad sú hægri gjørir; 4. svo þín
góðgjørd sé hulin, og fadir þinn, sem sér þad,
sem í leyni er gjørt, mun þér þad opinberlega
endurgjalda. 5. Eins, nær þú bidst fyrir, þá
hegda þér ekki sem hræsnarar, sem vanir eru
ad standa og bidjast fyrir á strætum og gatnamót-
um, til þess ad þeir verdi sénir af ødrum; sann-
lega segi eg ydur, þeir hafa úttekid sín laun. 6.
En nær þú vilt bidjast fyrir, þá far þú í svefnhús
þitt, og loka dyrunum; bid svo fødur þinn í
einrúmi, og hann, sem sér hvad í einrúmi
rúmi skedur, mun veita þér þad opinberlega. 7.
Varizt í bænum ydrum ónytju mælgi, eins og
heidingja er sidur, fyrir hverja þeir hyggja ad
verda bænheyrdir; 8. varizt því ad líkjast þeim;
fadir ydar veit, hvers þér vid þurfid, ádur en
þér bidjid hann. 9. Bidjid þar fyrir á þessa
leid: Fadir vor, þú sem ert á himnum, helg-
ist þitt nafn; 10. tilkomi þitt ríki; verdi þinn
vilji, svo á jørdu, sem á himni; 11. gef oss
í dag vort daglegt braud; 12. og fyrirgef oss
vorar skuldir, svo sem vér fyrirgefum vor-
um skuldunautum; 13. og leid oss ekki í freistni,

heldur frelsa oss frá illu. 14. Því ef þér for-
látid ødrum þeirra yfirsjónir, þá mun ydar him-
neski fadir forláta ydur; 15. en ef þér ekki
fyrirgefid ødrum, mun fadir ydar himneskur
ekki heldur fyrirgefa ydur ydar misgjørdir. 16.
Nær þér fastid, þá verid ekki med hryggu yfir-
bragdi, sem hræsnarar, hverjir er afmynda á-
sjónur sínar, svo adrir sjái, ad þeir fasti; sann-
lega segi eg ydur, þeir hafa sín laun úttekid.
17. En nær þú fastar, þá smyr høfud þitt, og
þvo þitt audlit, 18. svo adrir verdi ekki var-
ir vid, ad þú fastir, nema fadir þinn, sem er
ósýnilegur; og fadir þinn, sem sér hvad í ein-
rúmi skedur, mun þér þad endurgjalda.

19. Safnid ydur ekki audæfum í heimi þess-
um, hvar mølur og ryd eta þau, og hvar þjóf-
ar grafa til og stela; 20. safnid ydur heldur
audæfum á himnum, hvar þeim hvorki grand-
ar mølur eda ryd, né þjófar grafast til þeirra,
og stela þeim; 21. því hvar sem audæfi ydar
eru, þar er og ydvart hjarta. 22. Augad er
ljós líkamans; nú ef auga þitt er heilskygnt,
þá nýtur allur líkami þinn birtu; 23. en sé
auga þitt gallad, þá er allur líkami þinn í
myrkri. Nú ef þad ljós, sem í þér er, er

myrkur, hve svart mun ekki þad myrkur vera?
24. Einginn kann tveimur herrum ad þjóna,
því annadhvort hlýtur hann ad meta þann eina
midur og hinn annan meira, eda hann hlýdir
þeim odrum, og afrækir hinn. Þannig getid
þér ekki verid bædi þjónar guds og Mammons.
25. Eg segi ydur því: Verid ekki hugsjúkir
fyrir ydru lífi, hvad þér skulud eta og drekka,
ekki heldur fyrir ydrum líkama, hverju þér skul-
ud klædast. Er ekki lífid meira vert en fædan,
og líkaminn meir en klædnadurinn? 26. Litid
til fuglanna í loptinu, hvorki sá þeir né upp-
skera, og ekki heldur safna þeir í kornhlødur,
þó fædir ydar himneski fadir þá; erud þér ekki
miklu ágætari þeim? 27. Hver af ydur getur,
med allri sinni áhyggju, aukid einni alin vid
hæd sína? 28. Eda, hví erud þér áhyggjufull-
ir fyrir fatnadinum? Skodid akursins lilju-
gros, hversu þau vara; hvorki vinna þau né
spinna; 29. en trúid mér, ad Salómon í ollu
sínu skrauti var ekki svo fagurlega búinn, sem
eitt af þeim. 30. Ef ad gud nú skrýdir svo
grasid á jordunni, þad í dag stendur, en á
morgun verdur í ofn kastad, hversu miklu fram-
ar mun hann ekki klæda ydur, þér trúarveikir?

31. Spyrjid því ekki hugsjúkir: hvad fáum vér
til matar? hvad fáum vér ad drekka? og hvad
fáum vér til fata? 32. Slíka áhyggju hafa
heidnir menn; en ydar himneskur fadir veit, ad
þér þurfid alls þessa vid. 33. Leitid um fram
alt guds ríkis, og þeirrar rádvendni, sem hon-
um líkar, þá munud þér fá alt þetta í vidbót;
34. verid því ekki hugsjúkir fyrir morgundegin-
um, hann mun sjálfur bera umhyggju fyrir sér;
hverjum degi nægir sín mæda.

## 7. Kapituli.

Jesús varar vid ómildum dómum; talar um bæn; um kjarna lögmálsins, um veginn til lífsins, um falsspámenn og hræsnara.

1. Verid ekki ómildir í dómum ydar um
adra, ad ei dæmi þeir eins um ydur; 2. því
líkur dómur og þér fellid yfir ödrum, mun yfir
ydur feldur verda, og eins og þér mælid ödr-
um, munu þeir aptur mæla ydur. 3. Hvernig
sér þú flísina í þíns bródurs auga, en gætir
ekki þess bjálkans, sem er í þínu eigin auga?
4. Eda hvernig fær þú sagt vid hann: láttu
mig taka flísina úr auga þér, medan bjálki er
í þínu eigin auga? 5. Þú hræsnari, drag fyrst

bjálkann úr þínu eigin auga, og sjáðu síðan til, að þú fáir dregið flísina úr þíns bróðurs auga.

6. Kastið ekki helgidómum fyrir hunda, né perlum yðrum fyrir svín, að þau ekki troði þær fótum, snúist síðan að sjálfum yður, og rífi yður í sundur.

7. Biðjið, þá mun yður gefast; leitið, þá munuð þér finna; knýið á, og þá mun fyrir
yður upp lokið verða; 8. því hver sem biður,
hann öðlast; hver er leitar, hann finnur; og hver er á knýr, fyrir honum mun upp lokið
verða. 9. Eður er nokkur sá af yður, sem gæfi syni sínum stein, ef hann bæði um brauð;
10. eða höggorm, ef hann bæði um fisk? 11.
Ef nú þér, sem vondir eruð, tímið að gefa börnum yðar góðar gjafir, hversu miklu framar mun þá ekki yðar himneskur faðir gefa þeim góða hluti, sem biðja hann þess? 12. Allt hvað
þér viljið að mennirnir gjöri yður, það skuluð þér og þeim gjöra; þetta er kjarni lögmálsins og spámannanna.

13. Gángið um hið þraungva hlið; því það hlið er vítt, og sá vegur er breiður, sem liggur til glötunar, og margir eru þeir, sem hann

gánga. 14. Hversu er þad hlid þraungt og
mjór sá vegur, er til lífsins leidir, og fáir
þeir, er hann rata? 15. Gætid ydar fyrir
falskennendum, sem koma til ydar í sauda ham,
en hid innra eru þeir grádugir vargar; 16.
af þeirra ávøxtum skulud þér þekkja þá. Hvort
geta menn lesid vínber af þyrnum, eda fíkjur
af þistlum? 17. Þannig ber hvert gott tré
gódan ávøxt, en slæmt tré slæman ávøxt. 18.
Gott tré getur ekki borid slæman ávøxt, ekki
heldur slæmt tré gódan ávøxt. 19. En hvert
þad tré, sem ekki ber gódan ávøxt, skal verda
upp høggvid og í eld kastad; 20. þar fyrir
kunnid þér af ávøxtum þeirra ad þekkja þá. 21.
Ekki munu allir þeir, sem til mín segja, herra,
herra, koma í himnaríki, heldur þeir einir, sem
gjøra vilja míns himneska fødurs. 22. Á þeim
degi munu margir segja til mín: herra, herra,
høfum vér ekki í þínu umbodi kent, rekid djøfla
út og gjørt mørg kraptaverk? 23. En eg mun
segja þeim berlega: aldrei þekta eg ydur fyrir
mína; farid frá mér, þér illgjørdamenn. 24.
Hver hann heyrir þessa mína kenníngu og
breytir eptir henni, honum vil eg líkja vid for-
sjálan mann, er bygdi hús sitt á bjargi; 25.

nú kom steypiregn og vatnsflóð, stormar risu
og buldu á því húsi, en það féll samt ekki,
því það var grundvallað á bjargi. 26. Þar á
mót er sá, sem heyrir þessa mína kenníngu og
breytir ekki eptir henni, líkur heimskum manni,
er bygði hús sitt á sandi; 27. nú kom steypi-
regn og vatnsflóð, stormar risu og dundu á
því húsi, þá féll það, og þess hrun varð mikið.
28. Þegar Jesús hafði lokið þessari ræðu,
undraðist lýðurinn mjög yfir kenníngu hans;
29. því hann kendi svo sem sá, er hafði guðs
umboð á hendi, en ekki sem hinir skriptlærðu.

## 8. Kapituli.

Jesús læknar líkþráan mann, þjón hundraðshöfðingjans, móður konu Péturs og fleiri sjúka; talar um örðugleika við það, að fylgja sér; kyrrir vind og sjó, útrekur djöfla.

1. En er hann gekk niður af fjallinu, fylgdi
honum mikill fjöldi fólks; 2. þá kom til hans
líkþrár maður, tilbað hann og mælti: herra, ef
þú vilt, getur þú hreinsað mig. 3. Þá rétti
Jesús út höndina, snerti hann og sagði: Eg
vil, vertu hreinn; 4. og strax varð hann hreinn
af líkþrá sinni. 5. Þá sagði Jesús við hann:
varastu að segja þetta nokkrum, heldur far og

sýn þig prestinum, og offra þeirri gáfu, sem
Móses baud, ødrum til sanninda merkis.
6. Þegar hann kom inn í Kapernaum, kom
til hans hundradshøfdingi nokkur, og tók svo
til orda: þjón minn liggur heima visinn, og
er mjog þúngt haldinn. 7. Jesús sagdi: eg
skal koma og lækna hann. 8. Þá svaradi
hundradshofdinginn: herra, ekki er eg verdur
þess, ad þú gángir inn undir mitt þak. Bjód
þú ad eins med einu ordi, og mun minn þjón
heill verda. 9. Því nær eg, sem er yfirvaldi
undirgefinn og hefi ad ráda yfir stridsmonnum,
býd einum þeirra ad fara, þá fer hann, og
ødrum ad koma, þá kemur hann, eda þræli
mínum ad gjora eitthvad, þá gjørir hann þad.
10. Þegar Jesús heyrdi þetta, undradist hann
og mælti vid þá, sem fylgdu honum: sannlega
segi eg ydur, ad slíka trú hefi eg ekki fundid
medal Gydínga; 11. en þér skulud vita, ad
margir munu koma ad austan og vestan, og
sitja til bords med Abraham, Isaak og Jakob
í ríki himnanna; 12. en þeir, sem þetta ríki
var ætlad, munu verda reknir í myrkrid fyrir
utan, hvar vera mun grátur og gnistur tanna.
13. Sídan sagdi Jesús vid hundradshøfdingj-

ann: far þú heim, verði þér eptir trú þinni,
og samstundis varð þjón hans heilbrigður.
14. Síðan kom Jesús í hús Péturs, og sá
þar móður konu hans; hún lá sjúk af köldu;
15. tók hann þá í hönd henni, og þá yfirgaf
kaldan hana, en hún fór á fætur og bar þeim
mat. 16. Um kvöldið færðu þeir til hans marga
djöfulóða, og rak hann andana út með orði
einu, og alla þá, sem sjúkir voru, læknaði hann;
17. sannaðist þá það, sem spámaðurinn Esajas
sagði: hann burt tók vor kránkdæmi, og bar vorn
sjúkleika.
18. En þegar Jesús sá fjölda fólks hjá sér,
bauð hann að fara yfir um sjóinn; 19. þá
kom einn skriptlærður til hans og sagði við
hann: Meistari, eg vil fylgja þér, hvert sem
þú fer. 20. Jesús mælti: refar hafa holur og
fuglar himins skýli, en mannsins sonur hefir
hvergi höfði sínu að að halla. 21. Annar mað-
ur, sem var einn af lærisveinum hans, sagði til
hans: herra, leyf mér fyrst að fara og grafa
föður minn. 22. Jesús mælti: fylg þú mér,
og lát þá dauðu grafa sína dauðu.
23. Síðan steig hann á skip og lærisveinar
hans með honum; 24. gjörði þá svo mikinn

storm, ad skipid huldi af bylgjunum, en hann svaf. 25. Þá geingu lærisveinarnir til hans og voktu hann og sögdu: hjálpa þú oss, herra, vér forgaungum. 26. En hann svaradi: hvi erud þér svo hræddir, þér trúarveikir? Því næst stód hann upp og hastadi á vindinn og sjóinn; vard þá blída logn. 27. Þetta undrudust menn mjög og sögdu: hvílíkur er þessi, ad bædi vedur og sjór hlýda honum?

28. Þegar hann kom yfir um í hérad Gergesumanna, hlupu í móti honum tveir menn djöfulódir, sem komu úr gröfum daudra manna, svo ólmir, ad eingum var fært ad fara þann veg. 29. Og sjá, þeir hrinu upp og sögdu: hvad höfum vér og þú, guds son, saman ad sælda? Ertú kominn hingad, ádur en tími er til, ad kvelja okkur? 30. En svo stód á, ad stór hjörd svína var á beit lángt þadan. 31. Djöflarnir bádu hann þá: ef þú ætlar ad reka oss út, þá leyf oss ad fara í svínahjördina. 32. Hann segir: farid þid. Þeir fóru út, og í svínin; ærdist þá hjördin og steypti sér ofan fyrir heingiflug í sjóinn, og týndist þar. 33. En þeir, er svínanna gættu, flýdu til borgarinnar, og sögdu þar alt, sem farid hafdi, eins

um þá djøfulódu. 34. Þá fóru allir borgar-
menn til móts vid Jesúm, og þegar þeir fundu
hann, bádu þeir hann ad fara á burt úr þeirra
landareign.

## 9. Kapituli.

Jesús læknar visinn mann; kvedur Matteus til fylgd-
ar, og forsvarar sig og lærisveinana; læknar blódfalls-
sjúka kvinnu, og uppvekur dóttur Jairusar; læknar tvo
blinda, og einn djøfulódan; aumkast yfir lýdinn.

1. Hann steig þá á skip, fór yfir um og kom
í sína borg. Þá var færdur til hans visinn
madur, sem lá í rekkju; og er Jesús sá trú
þeirra, sagdi hann til hins visna: vertu hug-
hraustur, sonur, þínar syndir eru þér fyrir-
gefnar. 3. Þetta álitu nokkrir skriptlærdir ad
vera gudløstun; 4. og er Jesús vard var vid,
hvad þeir hugsudu, sagdi hann: því hugsid þér
svo illt? 5. Hvort er audveldara ad segja:
syndir þínar eru þér fyrirgefnar; edur ad segja:
statt upp og gakk? 6. En til þess ad þér skul-
id vita, ad mannsins sonur hefir vald til ad
fyrirgefa syndir á jördunni, þá segir hann til
hins visna, statt upp, tak sæng þína og gakk
heim til þín; 7. og hann stód upp og fór heim

til sín. 8. Þegar fólkid sá þetta, undradist það
og lofadi gud, ad hann hefdi gefid mönnun-
um slíkt vald.

9. Þegar Jesús fór þadan, sá hann mann
sitja hjá tollbúdinni, Matteus ad nafni; þenna
kvaddi hann til fylgdar vid sig; hann stód upp
og fylgdi honum. 10. En svo bar til, er Jes-
ús var ad mat í húsi hans, ad margir toll-
heimtarar og bersyndugir komu þángad, og möt-
udust þar med Jesú og lærisveinum hans; 11.
og er Fariseár sáu þad, sögdu þeir til læri-
sveina hans: því matast lærimeistari ydar med
tollheimturum og bersyndugum? 12. Þegar
Jesús heyrdi þad, mælti hann til þeirra: ekki
þurfa heilbrigdir læknis vid, heldur þeir, sem
vanheilir eru; 13. en farid þér og nemid hvad
þad þýdir: þekkari er mér mannelska, en offur;
því ekki er eg kominn til ad kalla réttláta,
heldur syndugа til sidbóta.

14. Þá komu til hans lærisveinar Jóhann-
esar, og spurdu: því föstum vér og Fariseár-
nir svo opt, en þínir lærisveinar fasta ekki? 15.
Jesús svaradi: þad sæmir ekki, ad brúdmenn-
irnir séu med hryggu bragdi, medan brúdguminn
er med þeim. En sá tími mun koma, ad brúd-

guminn verður numinn frá þeim, og þá munu
þeir fasta. 16. Einginn leggur nýa bót á
gamalt fat, því bótin rífur fatið og spjöllin
verða verri 17. Ekki eru menn heldur vanir
að koma nýu víni í gamla belgi, því annars
springa belgirnir, vínið spillist, og belgirnir ó-
nýtast; heldur er nýtt vín látið í nýa belgi,
og er þá hvortveggja vel geymt.

18. En er hann var þetta að tala, kom inn
til hans höfðingi nokkur, tilbað hann og sagði:
dóttir min er nýdauð, kom þú og legg hönd
yfir hana, þá mun hún lifna. 19. Jesús fór
með honum og lærisveinar hans; 20. og sjá,
þá kom kona nokkur, sem haft hafði blóðfall i
tólf ár, að baki honum og snart fald hans klæða;
21. því hún sagði með sjálfri sér: ef eg að
eins fæ snortið yfirhöfn hans, þá mun mér
batna; 22. en Jesús snérist við, og þá hann
leit hana, sagði hann: vertu hughraust, dóttir,
þín trú hefir hjálpað þér; og varð hún strax
heilbrigð. 23. Nú er hann kom í hús höfð-
ingjans, og sá þar pípara, og þys fólksins,
24. sagði hann til þeirra: Farið þér í burtu,
ekki er stúlkan dauð, heldur sefur hún; en þeir
hlóu að honum. 25. En þá búið var að rýma

fólkinu út, gekk hann inn, og tók í hönd henni,
og reis þá stúlkan upp; 26. og barst fregnin
um þetta út um alt það hérað.

27. Þegar Jesús fór þaðan, fylgdu honum
tveir menn blindir: þeir kölluðu þannig: Jesú,
niðji Davíðs, miskunna þú okkur. 28. En er
hann var kominn til húss, komu þeir blindu til
hans. Jesús sagði til þeirra: trúið þér, að
eg geti þetta gjört? Þeir sögðu: já, herra. 29.
Þá snart hann augu þeirra og mælti: verði
ykkur að trú ykkar. 30. Og augu þeirra opn-
uðust; þá lagði Jesús ríkt á við þá, að segja
eingum manni frá þessu. 31. En strax sem
þeir voru komnir út, báru þeir hans orðstír út
um alt það hérað.

32. Þegar þeir voru í burt farnir, var færð-
ur til hans maður nokkur mállaus, djöfulóður;
33. og er djöfullinn var útrekinn, fékk sá mál-
ið, er mállaus var. Þetta undraðist fólkið og
mælti: aldrei hefir þvílíkt sést meðal Israels
manna. 34. En Fariseár sögðu, að hann ræki
djöfla út með hjálp djöflahöfðingjans.

35. Síðan fór Jesús um allar borgir og þorp,
kendi í samkundum þeirra, og flutti gleðiboð-
skapinn um guðs ríki; hann læknaði alls kyns

sjúkdóma og kránkleika; 36. en er hann sá fólk-
id, kendi hann í brjósti um þad, því þad var
þjád og hirdingarlaust, sem sú hjørd, er eing-
an hirdir hefir. 37. Þá sagdi hann vid lærisveina
sína: kornskeran er ad sønnu mikil, en verka-
mennirnir fáir; 38. bidjid því herrann korn-
skerunnar, ad hann vilji senda verkamenn til
sinnar kornskeru.

## 10. Kapituli.

Jesús útsendir þá tólf postula til ad kenna og gjøra kraptaverk; hughreystir þá á móti ofsóknum og lífláti; lofar þeim umbun, er veita þeim móttøku.

1. Sídan kalladi hann til sín sína tólf læri-
sveina, og gaf þeim vald ad reka út óhreina anda,
og lækna alls kyns sjúkdóma og kránkleika. 2.
Nøfn þessara tólf postula voru þessi: fyrst var
Símon, sem kallast Pétur, og Andrés bródir
hans, Jakob Sebedeusson, og Jóhannes bród-
ir hans, 3. Filippus og Bartólómeus, Tóm-
ás og Matteus tollheimtari, Jakob Alfeus-
son og Lebbeus, er kallast Taddeus, 4. Sí-
mon vandlætari og Júdas frá Kariot, sem síd-
an sveik hann.

5. Þessa tólf sendi Jesús frá sér, og gaf
þeim ádur þessa skipun; farid þér eigi til heid-
inna þjóda, og gángid eigi inn í neina samverska
borg; 6. heldur farid til týndra sauda af Is-
raels ætt; 7. og kunngjorid, ad guds ríki sé
nálægt; 8. læknid sjúka, lifgid dauda, hreinsid
líkþráa, rekid djøfla út; þér hafid feingid þetta
kauplaust, gjorid þad og kauplaust. 9. Eigi
skulud þér hafa gull, silfur edur eir í beltum
ydrum, 10. né taka med ydur á veginn nestis-
mal; eigi hafa tvo kyrtla, ekki skó edur staf,
því verdur er verkamadurinn fædisins. 11. En
í hverja þá borg edur þorp er þér komid, þá
spyrjist fyrir, hver þar sé (ydar gistingar) verd-
ur; hjá honum skulud þér gista, til þess þér
farid þadan. 12. Þegar þér gángid inn í hús-
id, þá árnid þeim góds, sem þar eru, 13. og
séu þeir þess verdir, munu óskir ydar hrína á
þeim, en ef ekki, munu þær hverfa aptur til yd-
ar. 14. Sé sá nokkur, sem ekki vill veita yd-
ur vidurtøku, eda hlýda ydar kenningu, þá far-
id burt af því heimili edur þeim stad, og hrist-
id dupt af fótum ydrum; 15. trúid mér, bæri-
legra mun verda straff Sódómu og Gómorru
á degi dómsins, en þeirrar borgar.

16. Sjá, eg sendi ydur, sem saudi medal
úlfa; verid því varir um ydur, sem høggorm-
ar, og meinlausir, sem dúfur. 17. Gætid yd-
ar fyrir mønnum, því þeir munu færa ydur á
þing og húdstrýkja ydur í samkunduhúsum sín-
um, 18. og fyrir landstjórnara og konúnga mun-
ud þér færdir verda fyrir mínar sakir, svo bædi
þeim og heidingjum verdi minn lærdómur kunn-
ur. 19. En nær þeir framselja ydur, þá ver-
id ekki hugsjúkir um, hvernin ednr hvad þér
skulud tala; því í sama bragdi mun því verda
skotid ydur í brjóst; 20. því þad er ekki þér, sem
talid, heldur andi fødurs ydar, sem í ydur tal-
ar. 21. Bródir mun framselja bródur til líf-
láts, og fadir barn sitt; þá munu og børnin
hefjast gegn foreldrunum, og firra þá lífi; 22.
og ydur munu allir fyrir mínar sakir ad hatri
hafa. En sá, sem stødugur stendur til enda,
hann mun hólpinn verda. 23. Nær þeir of-
sækja ydur í einni borg, þá flýid í hina, og nær
þeir ofsækja ydur í henni, þá flýid í þá þridju.
Trúid mér, þér munud ekki hafa lokid umferd
ydvarri um allar Israels borgir, ádur manns-
ins son kemur. 24. Lærisveinninn er eigi fyrir
sínum meistara, ekki heldur þjóninn fyrir sín-

um húsbónda; 25. lynda má lærisveininum, ad hann hafi sömu kjör, sem meistarinn, og þrælnum, sem húsbóndi hans; en hafi þeir kallad húsföðurinn Belsebúl, hversu miklu heldur munu þeir kalla þjóna hans það? 26. En hræðist þá samt ekki; því ekkert er svo hulid, ad ei muni opinbert verda, og ekkert svo fólgid, ad ei verdi augljóst; 27. hvad eg segi ydur heimuglega, þad skulud þér opinberlega ödrum kenna, og þad, sem ydur er sagt hljódlega, skulud þér í fjölmenni flytja. 28. Hrædist ekki þá, sem líkamann deyda, en geta ekki líflátid sálina; hrædist heldur þann, sem vald hefir ad tortýna bædi sálu og líkama í helviti. 29. Selja menn ekki tvo titlinga fyrir einn pening, þó deyr enginn þeirra án vilja födurs ydar; 30. jafnvel ydar höfudhár eru talin; 31. hrædist því ekki, þér erud meira verdir, en margir titlingar. 32. Hver hann kannast vid mig fyrir mönnum, vid þann mun eg einninn kannast fyrir mínum födur á himnum. 33. En hver sem ekki vill kannast vid mig fyrir mönnum, vid þann mun eg ekki heldur kannast fyrir mínum födur á himnum. 34. Ætlid ekki, ad af minni komu muni fridur standa; ekki mun hún fridi valda,

heldur styrjöldum. 35. Af henni mun koma ósamlyndi milli föðurs og sonar, dóttur og móður, sonarkonu og móður manns hennar; 36. og húsbóndans heimamenn munu hans óvinir vera. 37. Hver hann elskar föður eða móður meir en mig, hann er mín ekki verður, og hver hann elskar son eða dóttur meir en mig, sá er mín ekki verður; 38. og hver sem ekki tekur sinn kross og fylgir mér eptir, hann er mín ekki verður. 39. Hver hann hyggst að forða lífi sínu, mun því týna, en hver hann vogar því í hættu, fyrir mína skuld, mun fá því borgið. 40. Hverr hann veitir yður viðurtöku, er sem hann veiti mér viðurtöku, og er sem hann veitti þeim viðurtöku, er mig sendi. 41. Hver hann veitir einum spámanni viðurtöku, vegna þess hann er spámaður, mun spámannslaun öðlast; hver hann tekur við ráðvöndum, fyrir það að hann er ráðvandur, mun hljóta hins ráðvanda umbun; 42. og hver hann gefur einum af þessum umkomulausu kaldan vatnsdrykk, vegna þess að hann er minn lærisveinn, trúið mér, hann mun ekki fara á mis við sín laun.

# 11. Kapituli.

Jóhannes lætur spyrja Jesú, hvert hann sé Messías; Jesús talar um Jóhannes, kvartar yfir lýdsins einþykkni, ávítar borgir, vegsamar rád guds, og býdur voludum til sín.

1. Þegar Jesús hafdi lokid þessari skipun
sinni til þeirra tólf lærisveina sinna, fór hann
þadan ad kenna og prédika í Gydinganna borg-
um.

2. Nú er Jóhannes heyrdi í fángelsinu verk-
in Krists, sendi hann til hans tvo lærisveina
sína, er spyrja skyldu, 3. hvert hann væri sá,
er koma skyldi, eda ættu þeir ad vænta ann-
ars. 4. Jesús sagdi vid þá: farid þid og seg-
id Jóhannesi, hvad þér heyrid og sjáid: 5.
blindir fá sýn, haltir gánga, líkþráir hreinsast,
heyrnarlausir heyra, daudir endurlifa, og um-
komulausum bodast gledi = bodskapurinn; 6. og
sæll er sá, sem ekki hneykslast á mér.

7. Þegar þeir voru burtu farnir, hóf Jes-
ús rædu sína til fólksins um Jóhannes á þessa
leid: Hvad fórud þér ad sjá á eydimörkum?
Hvort reyr þann, er vindurinn skekur? 8. Ed-
ur hvad fórud þér ad sjá? Hvort mann skraut-
búinn? Gætid ad: þeir, sem í skraut eru bún-

ir, eru í konúnganna höllum. 9. Hvað fóruð
þér þá að sjá? Hvort einn spámann? Já, í
sannleika þann, sem meiri er en nokkur spámað-
ur; 10. því hann er sá, um hvern ritað er:
minn sendiboða sendi eg undan þér, er greiða
skuli þér veg. 11. Trúið mér: einginn er af
konu fæddur, er meiri sé en Jóhannes skírari;
þó er sá minnsti í himnaríki honum meiri. 12.
Frá dögum Jóhannesar skírara, og til þessa,
leita menn himnaríkis kappsamlega, og þeir,
sem keppast eptir því, hrifsa það til sín; 13.
því alt þángað til Jóhannes kom, hafa allir
spámenn og lögmálið sagt þetta fyrir; 14. og
ef þér viljið fallast á það, þá er hann sá Eli-
as, er koma skal. 15. Hver hann hefir eyru
til að heyra, sá heyri. 16. Við hvað skal eg
líkja þessara tíða mönnum? Þeim fer eins og
börnum, sem á torgi eru, og kalla þannig til
leiksbræðra sinna: 17. vér höfum kveðið yð-
ur gleðikvæði, en þér hafið ekki viljað dansa;
vér höfum súngið yður harmasaungva, og þó
vilduð þér einginn sorgarmerki sýna. 18. Jó-
hannes kom, og lifði við harða kosti, og sögðu
menn, að hann væri vitstola. 19. Mannsins son-
ur kom og neytti alls frjálslega; hann kallið þér

mathák og vínsvelg, vin tollheimtara og ber-
syndugra. En spekin verdur réttlætt fyrir sín
børn.

20. Sídan tók hann ad ávíta þær borgir, í
hverjum hann hafdi flest kraptaverk framid, ad
þær hefdu aungva umbót gjørt, og tók svo til
orda: 21. vei þér, Korazin; vei þér, Betsaida;
ef þau kraptaverk, sem í ykkur hafa framin
verid, hefdu verid gjørd í Týrus eda Sídon,
þá mundu þeir fyrir laungu hafa ídrun gjørt,
klæddir sorgarbúningi og ádreifdir ösku. 22.
En, trúid mér, bærilegra mun verda straff Týr-
us og Sídonar á degi dómsins, en ykkar. 23.
Og þú, Kapernaum, sem nú mænir svo hátt í
lopt, þér mun í grunn nidursøkt verda; því hefdu
þau kraptaverk verid framin í Sódómu, sem
í þér hafa gjord verid, þá stædi hún enn í dag.
24. Og það er víst, ad bærilegra mun verda
straff Sódómu á degi dómsins, en þitt.

25. Um sama leiti tók Jesús svo til orda:
eg þakka þér, fadir, drottinn himins og jardar,
ad þú hefir látid þessa hluti vera hulda fyrir
fródum mønnum og spekingum, en auglýst þá
fáfródum. 26. Sannarlega hefir þér, fadir,
þóknazt, ad svo skyldi vera. 27. Alt er mér

af minum fødur i vald gefid, og einginn þekk-
ir soninn nema fadirinn, og einginn fødurinn
nema sonurinn, og sá, sem sonurinn vill þad
auglýsa. 28. Komid til min allir þreyttir, og
þér, sem mædizt undir þúngum byrdum, eg vil
gefa ydur hvild; 29. gángid undir mitt ok,
og lærid af mér, þvi eg er vægur og af hjarta
litillátur, og munud þér hugsvølun finna; 30.
þvi mitt ok er inndælt og min byrdi létt.

## 12. Kapituli.

Lærisveinar Jesú tina kornøx á hvildardegi, Jesús læknar visna hønd, læknar djøfulódan, sem var blindur og mállaus, og forsvarar sig fyrir álasi Farisea; þeir krefja hann teikns. Módir hans og ættingjar vilja tala vid hann.

1. Einhverju sinni fór Jesús á hvildardegi
med sinum lærisveinum yfir sádlønd nokkur; en
er lærisveina hans sveingdi, tóku þeir til ad
tina kornøxin og eta. 2. Þegar Fariseear sáu
þad, søgdu þeir til hans: sjá, lærisveinar þinir
gjøra þad, sem ekki leyfist á hvildardegi. 3.
Jesús mælti: hafid þér ekki lesid, hvad Davíd
gjørdi, þegar hann var matþurfi og menn hans,
4. ad hann gekk inn i guds hús og neytti

braudauna helgu, sem hvorki hann né fylgdar-
menn hans, og eingir, nema prestarnir einir,
máttu eta? 5. Edur hafid þér ekki lesid í log-
máls bókinni, ad prestarnir vanhelga hvíldar-
daginn í musterinu á hvíldardøgunum, og eru
þó sýknir saka? 6. En eg segi ydur fyrir sann,
ad hér er sá, sem meiri er en musterid. 7.
Ef þér hefdud skilid, hvad þad þýdir: mér er
mannelska þekkari en offur, mundud þér ekki
hafa sakfelt þessa, sem saklausir eru; 8. því
mannsins sonur er herra hvíldardagsins.

9. Þadan fór hann til samkundu þeirra; 10.
hér var madur nokkur, er hafdi visna hønd;
þá spurdu þeir hann, hvort leyfilegt væri ad
lækna á hvíldardøgum; til þess þeir gætu feing-
id tilefni til ad ásaka hann. 11. Hann svar-
adi þeim: ef sá er nokkur ydar á medal, sem
á einn saud, og falli saudurinn í pytt á hvíld-
ardegi, tekur ekki eigandinn hann strax, og dreg-
ur hann upp? 12. Hvad miklu er þó ekki
madurinn ædri, en saudurinn? Þess vegna er
leyfilegt ad gjøra þad, sem gott er, á hvíldar-
døgum. 13. Sidan sagdi hann vid manninn:
réttu fram hønd þína. Hann gjordi svo, og
vard hún þá heil, sem hin. 14. En Farise-

arnir geingu út og báru saman ráð sín í gegn
honum um það, hvernig þeir feingju ráðið hann
af dögum. 15. Þegar Jesús varð þess vís,
veik hann þaðan, og fylgdi honum þá mikill
fjöldi fólks, og hann læknaði þá alla, 16. og
bannaði þeim streingilega að gjøra sig uppvís-
an. 17. Samaðist þá það, sem spámaðurinn
Esajas sagði: 18. Sjá þjón minn, hvern eg
hefi útvalið, minn ástfólgna, sem mér er þókn-
anlegur, honum vil eg gefa minn andakrapt,
að hann kenni heiðnum þjóðum, hvað rétt er;
19. hann mun eigi þrátta, og eigi háreysti
gjöra, og hans kall mun eigi á strætum heyr-
ast. 20. Hinn brákaða reyrinn mun hann eigi
í sundur brjóta, og hið dapra ljós ekki slokkva,
þángað til sannleikurinn hefir sigur unnið; 21.
á hann munu þjóðirnar treysta.

22. Þá var færður til hans maður djøful-
óður, blindur og mállaus, þenna læknaði hann,
svo sá hinn blindi og mállausi fékk bæði mál
sitt og sýn. 23. Þetta undraðist alt fólkið og
sagði: mun ekki þessi maður vera niðji Davíðs?
24. En er Fariséar heyrðu það, sögðu þeir:
ekki rekur þessi djöfla út, nema með fulltingi
djöflahöfðingjans Belsebúls. 25. Nú er Jes-

ús sá þeirra hugrenningar, sagdi hann til þeirra:
hvert þad ríki, hvar innbyrdis sundurþykki er,
mun eydileggjast, og hver sá stadur edur heim-
ili, hvar innbyrdis sundurþykki er, fær ekki stad-
izt. 26. Ef nú einn djöfull rekur annan út,
þá eru þeir innbyrdis sundurþykkir, og hvernin
skyldi djöfulsins ríki þá standast? 27. Og ef
eg rek djöfla út med Belsebúls fulltingi, fyrir
hvers adstod útreka þá ydar lærisveinar þá?
Þeir skulu því vera ydrir dómendur. 28. En
ef eg rek djöfla út fyrir guds anda, þá er guds
ríki komid til ydar. 29. Hver fær brotizt inn
í hús ens sterka og rænt húsbúnadi hans,
nema hann bindi hinn sterka ádur? þá fyrst
getur hann rænt hús hans. 30. Hver sem
ekki er med mér, hann er móti mér, og hver
sem ekki samansafnar med mér, sá sundurdreifir.
31. Þess vegna segi eg ydur, ad hvers kyns
synd og gudlastan kann mönnum fyrirgefin ad
verda, en smánarleg ord gegn andanum munu
mönnum ekki fyrirgefast. 32. Þótt einhver lasti
mannsins son, kann þad honum forlátid ad
verda, en ef nokkur talar gegn heilögum anda,
þá mun honum þad ekki fyrirgefast, hvorki í
þessu né komanda lífi. 33. Ef tréd er gott,

eru og ávextirnir gódir, en sé þad slæmt, eru
ávextirnir slæmir; því af ávextinum þekkist tréd.
34. Þér, nødru-kyn, hverninn skyldud þér kunna
gott ad mæla, þar þér sjálfir erud vondir? því
þad mælir munnurinn, sem hjartad hefir nægst
af. 35. Gódur madur framber gott úr góð-
um sjódi, en vondur madur, hann ber ilt úr vond-
um sjódi. 36. Eg segi ydur satt: fyrir hvert
þad illyrdi, er menn mæla, skulu þeir á dóms-
ins degi reikingsskap lúka; 37. því af þínum
ordum muntu sýkn edur sakfeldur verda.
38. Þá søgdu nokkrir skriptlærdir og Farí-
sear til hans: Meistari, vér viljum gjarna sjá
teikn af þér. 39. Hann mælti: þessi vonda
og hórsama þjód beidist teikns, en henni skal
ekki teikn gefast, nema teikn Jónasar spámanns;
40. því eins og Jónas var í hvalfiskjarins
kvidi í þrjá daga og þrjár nætur, svo mun og
mannsins son vera í þrjá daga og þrjár næt-
ur í fylgsnum jardar. 41. Niníve borgar menn
munu fram koma á degi dómsins med þjód
þessari, og sýna, ad hún sé straffs sek, því þeir
gjordu umbót vid kenningu Jónasar; og sjáid,
hér er sá, sem honum er meiri. 42. Drottn-
ingin úr sudurátt mun fram koma á dómsins

degi gegn þjód þessari og auglýsa hana straffs
seka ad vera; því hún kom af fjarlægu landi
ad heyra speki Salómons; en sjáid, hér er sá,
sem honum er meiri. 43. Nær óhreinn andi
fer út af nokkrum, þá ráfar hann um eydi-
merkur, leitar hýbýlis og finnur ekki; 44. þá
segir hann med sér: eg vil aptur snúa til húss
míns, hvadan eg fór, og er hann kemur apt-
ur, finnur hann þad tómt, sópad og prýdt;
45. þá fer hann sídan og tekur med sér sjö
adra anda sér skadlegri, og er þeir eru þáng-
ad innkomnir, byggja þeir þar; verdur svo þad
sídara ásigkomulag mannsins verra, en hid fyrra.
Eins mun fara fyrir þessari vondu þjód.

46. Þá er hann enn nú var ad tala til lýds-
ins, stódu módir hans og brædur fyrir dyrum
úti, og vildu mæla vid hann. 47. Þá sagdi
einhver honum: módir þín og brædur þínir eru
úti, og vilja tala vid þig. 48. En hann sagdi
vid þann, er þetta mælti: hver er módir mín
og brædur mínir? 49. og vísadi med hendinni
til lærisveina sinna, og sagdi: þessir eru mód-
ir mín og brædur mínir; 50. því hver hann
gjörir vilja míns himneska födurs, hann er
minn bródir, systir og módir.

## 13. Kapituli.

Dæmisøgur um sædid, illgresid, mustardskornid, súrdeig-
id. Útlegging þeirrar um illgresid; fjársjódurinn; perl-
an; netid. Kristur er fyrirlitinn í sínu fødurlandi.

1. Þenna dag gekk Jesús heiman og sett-
ist vid sjóinn. 2. Þá dreif til hans svo mikill
fjøldi fólks, ad hann hlaut ad stíga á skip og
setjast þar, en allur fólksfjøldinn stód í fjør-
unni; 3. þá kendi hann þeim margt í dæmi-
søgum, og hóf svo rædu sína: Sádmadur nokk-
ur gekk út ad sá; 4. en er hann var ad sá,
féll sumt sædid vid veginn, og fuglar átu þad.
5. Sumt féll í grýtta jord, hvar þad hafdi ekki
nógan jardveg; þad vóx ad sønnu skjótt, þvi
þad hafdi litla jord, 6. en er sól hækkadi (á
lopti), skrælnadi þad og visnadi, sokum þess þad
hafdi ekki nægar rætur. 7. Sumt féll medal
þyrna, og þyrnarnir uxu upp og kæfdu þad.
8. En sumt féll í góda jord og bar ávoxt,
sumt hundradfaldan, sumt sextugfaldan og sumt
þrítugfaldan. 9. Hver hann hefir eyru til ad
heyra, hann heyri. 10. Þá komu til hans læri-
sveinar hans og spurdu hann, þvi hann kendi
fólkinu í dæmisøgum; 11. en hann svaradi
þeim: af þvi ydur er unt ad skilja leynda dóma

guds ríkis, en hinum er þess ekki unt; 12.
því þeim, er hefir, mun veitast, svo hann yfir-
fljótanlega hafi, en frá hinum, er ekki hefir,
mun takast, jafnvel það hann hefir; 13. en þess
vegna kenni eg þeim í dæmisögum, að þó þeir
sjái, er það sem sæu þeir ekki, og þótt þeir
heyri, er það sem heyrðu þeir ekki eða
skildu. 14. Sannast því á þeim spádómur
Esajasar, er svo segir: Þér munuð heyra,
en þó ekki skilja; þér munuð sjá, en þó ekki
þekkja; 15. því lýður þessi er heimskur, hann
heyrir dauflega, og lykur augum sínum, að hann
ekki skuli sjá, heyra eður skilja, og snúa til mín,
svo eg lækni hann. 16. En sæl eru yðar augu,
sem sjá, og eyru yðar, sem heyra; 17. því eg
segi yður satt, að margir spámenn og guðs
vinir fýstust að sjá það, sem þér sjáið, og heyra
það, sem þér heyrið, en heppnaðist það ekki.
18. Heyrið nú útskýringu dæmisögunnar um
sáðmanninn: 19. nær nokkur heyrir lærdóm-
inn um guðs ríki og skilur hann ekki, þá kem-
ur hinn vondi og tekur burt það, sem sáð var,
úr hjarta hans. Þetta merkir sæðið, sem hjá
veginum var sáð. 20. En það, sem í grýtta
jörð féll, merkir þann, er heyrir mína kenn-

og allar þjóðir munu yður hata fyrir mínar
sakir. 10. Margir munu þá kasta trú sinni,
hver annan framselja og að hatri hafa; 11. þá
munu og upp koma margir falskennendur, þeir
er marga munu afvega leiða, 12. og sakir var-
andi rángsleitni mun kærleiki margra kólna. 13.
En hver sem stöðugur stendur alt til enda, hann
mun hólpinn verða. 14. En kenníngin um guðs
ríki mun um gjörvallan heim boðuð verða, svo
fyrir öllum þjóðum vitnist þar um; og þá mun
endirinn koma. 15. En nær þér sjáið viður-
stygð eyðileggíngarinnar í þeim helga stað, um
hverja Daníel spáð hefir (hann sem les það, gefi
gaum að því), 16. þá flýi hver sá, sem í Jú-
dea er, til fjalla; 17. hver sá sem er á hús-
þaki, varist hann af fara ofan í hús sitt til að
taka nokkuð þaðan. 18. Hver hann er á akri,
snúi hann ekki til baka að taka klæði sín. 19.
Æ, vesælar eru á þeim tíma konur þúngaðar,
og þær, er börn hafa á brjósti. 20. En biðj-
ið þér, að yðar flótti verði ekki um vetur, eð-
ur á hvíldardegi; 21. því þá mun vera svo stór
hörmúng, að eingin hefir þvílík verið frá byrj-
un heims til þessarar tíðar, og ekki heldur mun
síðar verða; 22. og nema þessir dagar stytt-

ist, mundi einginn lifi halda, en fyrir útvaldra
sakir mun þessi tími styttast. 23. Þó nokk-
ur segi ydur þá, ad Kristur sé hér edur þar,
þá skulud þér ekki trúa; 24. því ad marg-
ir falskristar og falskennendur munn þá upp
koma, og gjøra stór undur og tákn, svo ad í
villu munu leidast, ef þad ske kynni, jafnvel út-
valdir. 25. Gætid nú þess, ad eg hefi sagt
ydur þetta fyrir. 26. Þegar þeir nú segja ydur,
ad hann sé í eydimørku, þá farid ekki út þáng-
ad; og þegar þeir segja, ad hann sé í leyni-
húsum, þá trúid því ekki. 27. Því, eins og eld-
ingin útgeingur frá austri og skín alt til vest-
urs, eins mun verda tilkoma mannsins son-
ar; 28. því þar sem hræid er, þángad munu
ernirnir safnast. 29. En strax eptir þessa hørm-
úng mun sól sortna, og túngl missa birtu sinnar, en
stjørnur munu hrapa af himni, og kraptar himn-
anna hrærast. 30. Þá mun teikn mannsins
sonar birtast á himni, og allar þjódir munu ótt-
ast, nær þær sjá hann komanda í skýum med
veldi og vegsemd mikilli. 31. Þá mun hann
senda eingla sína med hvellum lúdri til ad sam-
ansafna hans útvøldum úr øllum áttum, frá
einu heims skauti til annars. 32. Takid ydur

dæmi af fíkjutré þessu: nær greinir þess eru
þvalar ordnar, og blødin taka út ad springa,
þá vitid þér, ad sumarid er í nánd; 33. svo
ser og, nær þér sjáid alt þetta, þá megid þér vita,
ad þetta mun vera nærri og fyrir dyrum.
34. Sannlega segi eg ydur, ad þessi kynslód
mun ekki undir lok lídin, ádur en alt þetta kem-
ur fram. 35. Fyrr mun himin og jord for-
gánga, en mín ord rætist ekki. 36. En þann
dag og tíma veit einginn fyrir, og ekki einglar
á himnum, nema fadirinn einn. 37. En eins
og dagar Nóa voru, eins mun tilkoma manns-
ins sonar verda. 38. Því eins og menn fyr-
ir flódid héldu sig vel ad mat og drykk, karl-
ar og konur giptust, alt til þess dags, á hverj-
um Nói gekk í ørkina, 39. og vissu ekki fyrr
af, en flódid kom og tók þá alla: eins mun
og verda tilkoma mannsins sonar. 40. Tveir
munu þá á akri vera, sá annar mun medtek-
inn verda, hinn eptir skilinn; 41. tvær konur
munu þá mala í kvernhúsi, ønnur þeirra mun
verda medtekin, hin eptirskilin. 42. Verid því
vakandi, þar þér vitid ekki, nær herra ydar muni
koma; 43. en þad vitid þér, ad ef húsbóndinn
vissi, um hverja stund nætur ad þjófurinn kæmi,

þá mundi hann vaka, og ekki leyfa, ad brotin
væru upp hús sín. 44. Verid þér því vidbún-
ir, því mannsins sonur mun koma, þegar þér
sízt ætlid. 45. Sæll er þjón sá, sem sakir trú-
mennsku sinnar og forsjálni er settur af húss-
bónda sínum yfir skuldalid hans, ad gefa því
mat í réttan tíma, 46. ef ad húsbóndinn, nær
hann kemur, finnur, ad hann gjørir þetta verk
sitt dyggilega; 47. því, trúid mér, hann mun
setja hann yfir allar eigur sínar. 48. En sé
nú þjón þessi ótrúr, og hugsi, ad húsbóndi sinn
muni ekki svo brádum koma, 49. taki sídan ad
berja á samþjónum sínum og hafa samneyti vid
ofdrykkjumenn, 50. þá mun húsbóndi hans
koma, þegar hann varir sem minnst, og á þeirri
stund, er hann ætladi sízt, 51. og láta hann
mæta hordum refsingum og gjøra hlut hans
jafnan auguaþjónum, medal hverra vera mun
grátur og gnistran tanna.

## 25. Kapituli.

Dæmisaga um þær forsjálu og óforsjálu meyar; um húsbóndann, er fékk þjónum sínum fé í hendur; um dómadag.

1. Eins er því varid med guds ríki og med
tíu meyar, sem tóku lampa sína og fóru á móti

brúdgumanum: 2. fimm af þeim voru for-
sjálar, en fimm óforsjálar. 3. Þær óforsjálu
tóku ad sönnu lampa sína, en ekki tóku þær
vidsmjør med sér. 4. En þær forsjálu tóku
vidsmjør med í kerum sínum. 5. En er frest-
adist koma brúdgumans, syfjadi þær allar, og
fóru ad sofa; 6. en um midnætti var kallad
og sagt, ad brúdguminn kæmi og ad þær skyldu
fara út á móti honum. 7. Þá vöknudu allar
meyarnar, og tóku ad búa lampa sína. 8. Þá
sögdu þær óforsjálu til hinna forsjálu: gefid oss
nokkud af ydar vidsmjøri, því annars munu
ljós vor slokkna. 9. Hinar forsjálu svörudu:
vér erum hræddar um, ad þad muni ekki endast
handa oss og ydur; farid heldur til þeirra, er
vidsmjør selja, og kaupid þar vidsmjør handa
ydur. 10. En er þær voru burtfarnar til kaupa
þessara, þá kom brúdguminn; og þær, sem til-
búnar voru, fylgdu honum í brúdkaupsstofuna;
sídan var dyrunum lokad. 11. Um sídir komu
og hinar meyarnar, og sögdu: herra, herra,
ljúk upp fyrir oss. 12. En hann mælti: eg
kannast öldúngis ekki vid ydur. 13. Verid þar
fyrir vakandi, því þér vitid ekki daginn né stund-
ina. 14. Því þessu er eins háttad og manni

þeim, er ferðaðist utanlands, og kallaði áður til sín þjóna sína, og seldi þeim í hendur fé sitt. 15. Einum fékk hann fimm pund, öðrum tvö og einum þriðja eitt, eptir sérhvers þeirra dugnaði, og að svo gjörðu fór hann strax leiðar sinnar. 16. Þá fór sá, er við fimm pundum tekið hafði, varði þeim til kaupeyris, og ávaxtaði þau um helming. 17. Eins gjörði sá, er við tveim pundum hafði tekið, að hann græddi á þeim önnur tvö. 18. En sá, er við því eina hafði tekið, fór og fól fé húsbónda síns í jörðu. 19. En er lángur tími var liðinn, kom húsbóndinn heim, og krafðist, að þeir skyldu gjöra skil á fénu. 20. Þá kom sá, er við fimm pundum hafði tekið, og bar fram önnur fimm pund og mælti: herra, þú seldir mér í hendur fimm pund; á þeim hefi eg unnið önnur fimm pund. 21. Herrann mælti: vel hefir þú gjört, þú góði þjón, þú varst trúr yfir litlu, eg mun setja þig yfir mikið; gakk inn í fögnuð þíns herra. 22. Nú kom sá, er hafði feingið tvö pund, og mælti: herra, tvö pund fékkstu mér í hendur, á þeim hefi eg grædt önnur tvö pund. 23. Þá mælti herrann: vel líkar mér við þig, þú trúi og góði þjón, þú varst trúr yfir litlu, nú mun eg setja

þig yfir mikid; gakk inn í þíns herra fögnud.
23. Sídan kom sá fram, sem tekid hafdi vid
einu pundi, og mælti: eg vissi, herra, ad þú
varst hardur madur, sem uppsker, hvar þú ekki
sáir, og tinir saman, hvar þú strádir ekki; 25.
þetta hræddumst eg, og fór því og fól þitt pund
í jordu; lit nú á, þar hefir þú þitt. 26. Þá
svaradi herrann: þú ótrúi og lati þjón, þar ed
þú vissir, ad eg uppsker, hvar eg ekki sái, og
tíni saman, þar eg ekki strái, 27. þá áttir þú
ad fá fé mitt í hendur verzlunarmonnum, svo
ad, nær eg kæmi, kynni eg ad taka vid því med
ávexti. 28. Takid því af honum hans pund,
og seljid þeim í hendur, sem hefir tíu pund;
29. sérhverjum, sem hefir, honum mun veitt
verda, svo hann hafi yfirfljótanlegt; en frá þeim,
sem ekki hefir, mun og þad litla takast, er hann
á; 30. en þessum vonda þjóni skulud þér
varpa í myrkrid fyrir utan, hvar ed vera mun
grátur og gnistur tanna.

31. Þegar mannsins sonur kemur í dýrd
sinni og allir einglar med honum, þá mun hann
sitja í sínu dýrdar hásæti, 32. og allar þjódir
munu safnast til hans; hann mun adskilja þá,
eins og þegar hirdir skilur sandi frá hofrum,

33. og skipa sauðunum sér til hægri, en hafrunum til vinstri hliðar; 34. þá mun konúngurinn segja við þá, sem eru honum til hægri hliðar: komið, þér ástvinir míns föðurs, og eignist það ríki, sem yður var fyrirbúið frá upphafi heimsins. 35. Matþurfi var eg, og þér veittuð mér fæðu; þyrstur var eg, og þér gáfuð mér að drekka; gestur var eg, og þér hýstuð mig; 36. klæðfár, og þér gáfuð mér föt; sjúkur, og þér hjúkruðuð mér; í dýflissu, og þér vitjuðuð mín. 37. Þá munu guðs vinir svara: herra, nær sáum vér þig matþurfa, og veittum þér fæðu? þyrstan, og gáfum þér að drekka? 38. gest, og hýstum þig? klæðfáan, og gáfum þér föt? 39. Nær sáum vér þig sjúkan eður í myrkvastofu, og vitjuðum þín? 40. Þá mun konúngurinn svara: eg segi yður það satt, að hvað þér gjörðuð við einn af þessum minnstu bræðrum mínum, það hafið þér mér gjört. 41. Síðan mun hann segja við þá, sem eru honum til vinstri hliðar: farið frá mér bölvaðir í þann eilífa eld, sem búinn er djöflinum og árum hans; 42. því ekki gáfuð þér mér fæðu, þá eg var matþurfi; ekki þyrstum að drekka; 43. ekki hýstuð þér mig hælislaus-

an; ekki gáfud þér mér klædfáum føt, og ekki
vitjudud þér mín í fángelsi. 44. Þá munu
þeir svara: herra, nær sáum vér þig matþurfa
edur þyrstan, hælislausan edur klædfáan, sjúk-
an edur í fángelsi, ad vér ekki hjálpudum þér.
45. En hann mun svara: sannlega segi eg ydur,
ur, þad sem þér ekki gjørdud einum af þessum
mínum minnstu brædrum, þad gjørdud þér ekki
heldur mér. 46. Þá munu þessir fara til
ævarandi kvala, en þeir gódu til eilífrar sælu.

## 26. Kapituli.

Jesús fyrirsegir sína pínu; rádagjørd Gydinga um ad deyda hann. Hann er smurdur í Betanía; Júdas býdst til ad svíkja Jesúm. Jesús etur páskalambid, innsetur kvøldmáltídina. Hans gángur til vidsmjørsvidar fjallsins og pína í grasgardinum. Hann er tekinn høndum, Pétur synir vorn, lærisveinarnir flýa. Jesús er færdur fyrir hinn andlega rétt. Afneitun Péturs.

1. Nú er Jesús hafdi lokid þessari rædu,
mælti hann vid lærisveina sína: 2. þér vitid,
ad eptir tvo daga eru páskar; þá mun manns-
ins sonur ofurseldur verda, ad hann krossfestist.
3. Um þetta bil komu saman þeir ædstu
prestar og skriptlærdir og oldúngar lýdsins í
gardi høfudprestsins, er Kaifas hét, 4. og

gjørdu ráð sitt, hvernig þeir gætu feingið Jes-
úm høndlaðan með svikum og tekið hann af lifi;
5. og sýndist þeim, að ekki mundi ráð að gjøra
þetta á hátíðinni, að ekki yrði upphlaup með-
al fólksins.

5. Þegar Jesús var í Betanía í húsi Sí-
monar líkþráa, 7. kom til hans kona nokkur,
hún hafði flösku með dýrmætum smyrslum í;
þeim helti hún yfir høfuð hans, er hann var
að mat. 8. En er lærisveinar hans sáu þetta,
mislíkaði þeim það, og mæltu: hvar til skal
þessi kostnaður? 9. Þessi smyrsl hefðu kunn-
að að seljast miklu verði, og gefast svo fátæk-
um. 10. En er Jesús varð þessa var, mælti
hann: því amizt þér við konu þessari? vel
gjørði hún til mín; 11. því fátæka munuð
þér ætíð hjá yður hafa, en mig ekki; 12. með
þessum smyrslum smurði hún mig til minnar
greptrunar; 13. trúið mér, að hvar um heim
sem þessi náðarboðskapur verður kunngjørður,
mun og þess, er hún gjørði, henni til sæmdar
getið verða.

14. Um þetta bil fór einn af þeim tólf, er
Júdas hét frá Kariot, til enna æðstu presta,
15. og spurði þá, hvað þeir vildu gefa sér til

ad koma honum á þeirra vald; en þeir greiddu
honum þrjátíu silfurpeninga, 16. og upp frá
þessu leitadi hann lags ad svíkja Jesúm.
17. En fyrsta hátídardag enna ósýrdu brand-
anna geingu lærisveinarnir til Jesú og spurdu:
hvar viltu ad vér matbúum þér páskalambid?
18. Hann mælti: farid þér í borgina til manns
nokkurs, og segid honum: Svo segir meistar-
inn: minn tími er nálægur, hjá þér vil eg
halda páska med lærisveinum mínum. 19. Læri-
sveinarnir gjørdu, sem hann baud þeim, og efn-
udu þar til páskaveizlu. 20. Og er kvøld var
komid, settist hann til bords ásamt þeim tólf
lærisveinum sínum. 21. Nú er þeir voru
undir bord komnir, tók hann svo til orda: trú-
id mér, ad einn af ydur mun svíkja mig. 22.
Og er þeir heyrdu þad, urdu þeir mjøg hryggv-
ir, og spurdu hann, hver fyrir sig, med svo-
feldum ordum: hvort mun eg verda til þess,
herra? 23. Hann svaradi: sá sem réttir hønd-
ina í fatid med mér, hann mun svíkja mig. 24.
Mannsins sonur mun ad sønnu láta líf sitt,
eins og því er spád fyrir honum, en vei þeim
manni, er svíkur hann; betra væri honum, ad
hann aldrei væri fæddur. 25. Þá spurdi Jú-

das einninn, sá er sveik hann: hvort er eg þad,
herra? en Jesús játti því. 26. Þegar þeir
nú sátu undir bordum, þá tók Jesús braudid,
gjørdi gudi þakkir, braut þad, og gaf sinum
lærisveinum og mælti: takid og etid, þetta er
minn líkami. 27. Sídan tók hann bikarinn,
gjørdi gudi þakkir, gaf þeim hann og mælti:
drekkid hér af allir; 28. þetta er mitt blód,
med hverju hinn nýi sáttmálinn verdur stadfest-
ur, og sem fyrir marga mun úthellast til fyrir-
gefningar syndanna. 29. En eg segi ydur þad
satt, ad eg mun ekki hédan i frá drekka af þess-
um vínvidar ávexti, til þess er eg drekk med
ydur af annars konar ávexti í ríki míns fødurs.

30. Þegar þeir høfdu lofsaunginn súngid,
fóru þeir til vidsmjørsvidar fjallsins. 31. Þá
mælti Jesús: á þessari nóttu munud þér allir
yfirgefa mig, eins og sagt er í ritningunni:
nær eg deydi hirdirinn, mun hjørdin tvístrast;
32. en eptir þad ad eg er upprisinn, mun eg
verda kominn á undan ydur til Galílea. 33.
Þá svaradi Pétur honum: þótt allir yfirgefi
þig, skal eg samt aldrei yfirgefa þig. 34. Jes-
ús svaradi: eg segi þér þad satt, ad á þessari
nóttu, ádur enn haninn gelur, muntu þrisvar

afneita mér. 35. Þá mælti Pétur: þótt eg
ætti að láta lífið með þér, vil eg þó ekki yfir-
gefa þig. Hið sama sögðu og allir lærisvein-
arnir.
36. Síðan kom Jesús með þeim til þess
staðar, er hét Getsemane, þá mælti hann til
lærisveina sinna: bíðið þér hér, á meðan eg fer
og gjöri bæn mína; 37. en Pétur og þá tvo
sonu Sebedeusar tók hann með sér; þá tók hann
að hryggjast og mjög harmþrúnginn að verða,
38. og sagði: eg er í dauðans ángist, bíðið hér
og vakið með mér. 39. Þá gekk hann litlu
leingra fram, féll fram á sína ásjónu, og bað
á þenna hátt: Faðir minn, ef sked getur, þá
víki frá mér þessi kaleikur, þó ekki sem eg vil,
heldur sem þú vilt. 40. Síðan kom hann aptur
til lærisveina sinna, og fann þá sofandi; þá
talaði hann til Péturs á þessa leið: gátuð þér
þá ekki vakað með mér eina stund? 41. vakið
og biðjið, að þér fallið ekki í freistni, andinn er
að sönnu reiðubúinn, en holdið er veikt. 42.
Þá fór hann í öðru sinni, og gjörði bæn sína
á þessa leið: Faðir minn, ef það er ekki mögu-
legt, að þessi kaleikur víki frá mér, án þess eg
drekki hann, þá verði þinn vilji. 43. Síðan

kom hann aptur, og fann þá i ødru sinni sof-
andi; því svefnþúngi mikill var fallinn á augu
þeirra; 44. þá fór hann enn frá þeim, og gjørdi
bæn sína i þridja sinni med sømu ordum og
fyrr. 45. Þá kom hann enn til lærisveina
sinna og mælti: sofid þad sem eptir er, og hvíl-
ist! Sjáid, stundin nálgast, ad mannsins sonur
verdur framseldur á vald vondra manna; 47.
standid upp og førum hédan, sá er í nánd, er
mig svíkur.

47. Medan hann var nú þetta ad mæla, kom
Júdas, einn af þeim tólf, og med honum flokkur
mikill, búinn med sverdum og forkum. Þetta
lid høfdu sent þeir ædstu prestar og øldúngar
lýdsins; 48. en sá, er sveik hann, bad þá hafa
þad til marks, ad sá er hann kysti, hann væri
Jesús, hann skyldu þeir høndla; 49. og strax
gekk hann ad Jesú og mælti: heill, meistari,
og minntist vid hann. 50. Jesús svaradi: vin-
ur, því ertú hér kominn? Þá geingu þeir til
Jesú, løgdu hendur á hann og gripu hann.
51. En einn af fylgdarmønnum Jesú greip til
sverdsins, brá því, og hjó eyrad af þjónustu-
manni ens ædsta prests. 52. Þá sagdi Jesús
til hans: slídra þú sverd þitt; þeir er med

vopnum vega, munu og fyrir vopnum falla.
53. Eda meinar þú ekki, ad ef eg bædi fødur-
minn, mundi hann senda mér meir en tólf fylk-
íngar eingla; 54. en þetta hlýtur ad ské, svo þad
komi fram, sem um mig hefir spád verid. 55.
Um þetta sama bil mælti Jesús vid flokkinn:
þér erud farnir út ad höndla mig med sverd-
um og korkum, eins og ræningja; en á hverjum
degi hefi eg þó hjá ydur verid, setid og kent í
musterinu, og þó hafid þér ekki vogad ad grípa
mig. 56. En þetta alt er skéd, svo þad rætist,
er spámennirnir hafa sagt. Þá yfirgáfu hann
allir lærisveinar hans og flýdu.

57. En þeir, sem höndludu Jesúm, leiddu
hann til Kaifasar ædsta prests, hvar skriptlærd-
ir og øldúngarnir voru saman komnir; 58. en
Pétur fylgdi áleingdar á eptir, alt ad gardi ens
ædsta prests. Þar gekk hann inn og settist
medal þjónustumannanna, til þess hann sæi,
hver endir þar á yrdi. 59. En þeir ædstu prest-
ar, øldúngarnir og alt hid mikla rád, leitudu
ljúgvitna gegn Jesú, ad þeir kynnu ad dæma
hann til dauda, 60. en fundu ekkert saknæmt
um hann, jafnvel þó margir ljúgvottar kæmu
fram. Sídast komu fram tveir ljúgvottar, 61.

þeir er sögðust hafa heyrt hann segja: eg get brotið musteri guðs og bygt það aptur innan þriggja daga. 62. Þá stóð upp sá æðsti prestur og mælti: svarar þú eingu til þess, sem þessir ásaka þig um? 63. En Jesús þagði. Þá mælti hinn æðsti prestur: eg særi þig við enn lifanda guð, að þú segir oss það, ef þú ert Kristur, sonur guðs. 64. Jesús svaraði: Svo er, sem þú sagðir, en trúið mér, að eptir þetta munuð þér sjá mannsins son sitjanda til hægri handar ens alvalda guðs, og komanda í skýum himins. 65. Þá reif hinn æðsti prestur sín klæði og mælti: Hann guðlastar; hvað þurfum vér nú framar vitnanna við? nú heyrðuð þér sjálfir hans guðlöstun. 66. Hvað lízt yður? En þeir kváðu hann allir dauða sekan. 67. Þá hræktu þeir í andlit honum og slógu hann, sumir með knefum og sumir með lófum, 68. og mæltu: spáðu nú, Kristur, hver var það, sem sló þig?

69. Nú er Pétur sat utarlega í garðinum, kom til hans ambátt nokkur, og mælti: þú varst með Jesú enum galverska. 70. En hann neitaði því, svo allir heyrðu, og mælti: ekki veit eg, hvað það er, sem þú talar um. 71. En er hann gekk út í fordyrið, þá leit hann

vunnur ambátt og mælti við þá, sem hjá voru:
þessi madur var med Jesú enum nadverska.
72. En hann neitadi aptur med eidi, og kvadst
ekki þekkja þann mann. 73. Skömmu sidar
tóku þeir til orda, er hjá voru, og sögdu vid
Pétur: víst ertu af hans mönnum; þad aug-
lýsir mál þitt. 74. Þá tók hann ad sverja og
formæla sér, ad hann ekki þekti þenna mann,
og í því sama gól haninn; 75. þá minntist
Pétur þess, er Jesús hafdi mælt, ad ádur en
haninn galadi, mundi hann þrisvar afneita sér;
gekk sídan út og grét sáran.

## 27. Kapituli.

Jesús afhentur Pilatusi; örvænting og dauddagi Jú-
dasar; Jesú játning og þögn; Barabbas er laus lát-
inn, en Jesús afhentur til húdstroku og krossfestingar,
spottadur, þyrnikrýndur og færdur út til aftökustadar-
ins, krossfestur og hæddur. Teiknin vid Jesú dauda;
Jesús greftradur. Vid legstadinn setjast verdir.

1. Ad morgni næsta dags tóku allir hinir
ædstu prestar og öldúngar lýdsins rád sín sam-
an gegn Jesú, svo þeir gæti rádid hann af
dögum, 2. bundu hann sídan, færdu hann
þadan og seldu í hendur landstjórnaranum
Pontsíus Pilatus.

3. En er Júdas, sá er sveik hann, sá, að
hann var til dauða dæmdur, iðraðist hann, og
skilaði hinum æðstu prestum og öldúngunum
aptur þeim þrjátíu silfurpeníngum, og mælti:
4. illa gjörði eg, er eg sveik saklausan mann;
en þeir sögðu, það kæmi sér ekki við, og báðu
hann sjálfan fyrirsjá. 5. Þá kastaði hann
silfrinu á musteris gólfið, skundaði þaðan og
hengdi sig. 6. En hinir æðstu prestar tóku
silfrið, og kom það ásamt, að ekki væri hæfilegt
að leggja það í guðskistuna, því það hafi verið
til höfuðs lagt. 7. Tóku þeir því það til ráðs,
að kaupa með því leirkerasmiðs akur til að
jarða þar í útlenda menn, 8. og þess vegna
er hann enn þá kallaður blóðsakur. 9. Þann-
ig rættist það, er Jeremías segir: þeir tóku þá
þrjátíu silfurpenínga, verð þess, er metinn var,
hvern Israelsmenn höfðu metið, 10. og þeir
keyptu fyrir þá leirkerasmiðs akur, eins og drott-
inn hafði boðið mér.

11. Nú er Jesús kom fyrir landstjórnarann,
frétti þessi, hvort hann væri Gyðinga koníng-
urinn. Jesús kvað það satt vera. 12. En
er hinir æðstu prestar og öldúngar báru sakir
á hann, svaraði hann eingu. 13. Þá sagði

Pílatus til hans: heyrir þú ekki þeirra sakar-
giptir? 14. En hann svaradi honum ekki til
neins ords, svo ad landstjórnarann furdadi
mjøg. 15. Á hátídinni var landstjórnarinn
vanur ad láta fólkinu lausan bandíngja þann
einn, er þeir sjálfir kysu; 16. en þá var þar
bandíngi nokkur nafnkunnur, sá er Barabbas
hét. 17. Nú er þeir voru samankomnir, tók
Pílatus svo til orda: hvorn viljid þér nú ad
eg gefi ydur lausan, Barabbas edur Jesúm,
sem Kristur er kalladur? 18. því hann vissi,
ad þeir høfdu Jesúm fyrir haturs sakir fram-
seldan. 19. En er hann sat á dómstólnum,
sendi kona hans til hans, og lét segja honum:
láttu þenna saklausa mann vera, því margt
þúngt hefir mér borizt í drauma í dag hans
vegna. 20. En hinir ædstu prestar og old-
úngarnir eggjudu alþýduna, ad þeir skyldu bidja
um Barabbas, en Jesúm skyldu þeir lífláta.
21. Sídan tók landstjórnarinn til orda og mælti:
hvorn þessara tveggja viljid þér nú ad eg gefi
ydur lausan? En þeir søgdu: Barabbas. 22.
Þá spurdi Pílatus þá: hvad skal eg gjøra vid
Jesúm, er Kristur kallast? Þeir søgdu allir,
ad hann skyldi krossfestast. 23. Þá spurdi

landstjórnarinn: hvað hefir hann þá ilt gjört?
En þeir kölludu þess meir: krossfestist hann!
24. Nú er Pilatus sá, að hann eingu mundi
fá til vegar komið, heldur mundi þar upphlaup
verða, tók hann vatn og þvoði hendur sínar,
svo allir sáu, og mælti: sýkn er eg í lífláti
þessa saklausa manns, sjáið þér fyrir því. 25.
Þá mælti allur lýður: komi blóð hans yfir oss
og börn vor. 26. Síðan gaf hann þeim Bar-
abbas lausan, en Jesúm lét hann húðstrýkja,
og afhenti hann til að krossfestast. 27. Að svo
búnu færðu stríðsmenn landstjórnarans Jesúm inn
í höll (landstjórnarans), og söfnuðu að honum
öllum flokknum, 28. færðu hann af klæðum
sínum og lögðu yfir hann skarlatskápu, 29.
fléttuðu kórónu af þyrnum og settu á höfuð hon-
um, gáfu honum reyr í hönd, hneigðu honum,
hæddu hann og mæltu: heill vertu, Gyðinga
konúngur! 30. hræktu á hann, tóku reyrinn
og hröktu um höfuð honum. 31. Þegar þeir
nú þannig voru búnir að hæða Jesúm, færðu
þeir hann úr kápunni og í hans eigin föt, og
leiddu hann út til að krossfestast.

32. En er þeir geingu út, fundu þeir mann,
er Símon hét, ættaðan frá Sýrene; þessum

naudgudu þeir til ad bera hans kross. 33.
Þegar þeir nú komu til þess stadar, er heitir
Golgata, þad þýdir hausaskeljastadur, 34. budu
þeir honum súrt vín beiskjuborid; en er hann
hafdi þad smakkad, vildi hann ekki drekka. 35.
En þá þeir höfdu krossfest hann, skiptu þeir
med sér klædum hans eptir hlutkesti, 36. bidu
svo þar og gættu hans. 37. En yfir höfud
hans var fest hans daudasök, skrifud á þessa
leid: Þessi er Jesús, konúngur Gydínga. 38.
Med honum voru líka krossfestir ræníngjar tveir,
annar til hægri hlidar, hinn til vinstri. 39.
En þeir, er fram hjá geingu, illmæltu honum,
skóku höfud sín og mæltu: 40. Þú, sem ætl-
adir ad nidurbrjóta musterid og byggja þad apt-
ur innan þriggja daga, hjálpa þú nú sjálfum
þér; ef þú ert guds sonur, þá stig nidur af
krossinum. 41. Líka hæddu hann hinir ædstu
prestar ásamt öldúngunum og hinum skriptlærdu,
og sögdu: 42. ödrum gat hann hjálpad, en
sjálfum sér getur hann ekki bjargad; sé hann
konúngur Israels, þá stigi hann nidur af
krossinum, þá viljum vér trúa honum; 43.
hann treysti gudi, hjálpi hann honum nú, ef
honum er vel til hans, þar hann kvadst vera

guðs sonur. 44. Um hið sama brigzluðu hon-
um ræníngjarnir, sem með honum voru kross-
festir. 45. Þá kom myrkur mikið yfir alt
landið frá sjöttu til níundu stundar; 46. og
um níundu stundu kallaði Jesús hátt og mælti:
Elí, Elí, lama sabachtani; það þýðir: guð
minn, guð minn, því hefir þú yfirgefið mig?
47. En er nokkrir af þeim, er við voru staddir,
heyrðu þetta, sögðu þeir, að hann kallaði á Elí-
as; 48. og strax hljóp einn af þeim að, tók
njarðarvött og fylti með súrt vín, setti hann
ofan á reyrlegg, og gaf honum að drekka. 49.
en hinir sögðu: reynum vér, hvort Elías kem-
ur að hjálpa honum. 50. Þá kallaði Jesús
aptur hárri röddu, og gaf upp andann. 51.
Þá rifnaði fortjald musterisins í tvent, ofan
frá og niður í gegnum, jörðin skalf og björg-
in klofnuðu, 52. og legstaðir hinna dauðu
opnuðust, og margir helgir menn risu upp,
þeir er áður voru dauðir; 53. og sem þeir
voru útfarnir af gröfum sínum, komu þeir,
eptir hans upprisu, í borgina helgu, og urðu
þar sénir af mörgum. 54. Nú er hundraðs-
höfðinginn og þeir, sem með honum voru, sem
Jesú áttu að gæta, sáu jarðskjálftann og það

sem skedi, urdu þeir næsta hræddir, og sögdu: sannarlega var þessi madur guds sonur. 55. Þar voru og konur margar, sem stódu lángt frá og sáu til; þessar höfdu fylgzt med Jesú úr Galílealandi og þjónad honum. 56. Medal þeirra voru þær María frá Magdolum, María módir þeirra Jakobs og Jósis, og módir þeirra Sebedeussona.

57. Þegar kvöld var komid, kom madur sá, er Jósep hét, frá Arimatía, audugur ad fé; 58. þessi var og einn af lærisveinum Jesú; hann fór til Pílatusar og bad um lík Jesú, og lét Pílatus afhenda honum þad. 59. Sídan tók Jósep vid líkinu, og sveipadi þad í hreinu líni, 60. og lagdi þad í nýjan legstad, sem hann hafdi látid úthöggva í klett handa sjálfum sér, velti sídan stórum steini fyrir dyrnar og fór burt. 61. Þar var líka María frá Magdolum og hin önnur María; þær sátu gegnt grofinni.

62. Daginn eptir, sem næstur var eptir adfángadaginn, sofnudust hinir ædstu prestar og Farísearnir saman og komu til Pílatusar, 63. og sögdu: oss er þad í minni, herra, ad medan villumadur þessi lifdi, kvadst hann mundi

upp rísa innan þriggja daga. 64. Lát þú því
gæta legstaðarins alt til þess þriðja dags, svo
að ekki komi lærisveinar hans og steli honum,
segi síðan lýðunum, að hann sé upp risinn, og
verði svo seinni villan verri hinni fyrri. 65.
Pilatus mælti: hér hafið þér varðhaldsmenn-
ina; farið og gætið legstaðarins, sem þér haf-
ið bezt vit á. 66. Þeir fóru og innsigluðu
steininn, og létu varðmennina gæta grafarinnar.

## 28. Kapituli.

Jesús upprís og birtist kvinnunum. Varðhaldsmennirn-
ir flýa frá grofinni. Jesús birtist lærisveinunum í Gali-
lea, býður þeim að skíra og kenna.

1. Að liðnum hvíldardeginum, þegar lýsti
af fyrsta degi vikunnar, komu þær María frá
Magdolum og hin önnur María að sjá legstað-
inn. 2. Og sjá, þá varð mikill jarðskjálfti;
því eingill drottins kom frá himni, gekk þar að,
velti steininum frá dyrum legstaðarins og settist
á hann; 3. ásýnd hans var sem leiptur, og klæði
hans bjort, sem snjór. 4. Við þessa sýn urðu
þeir svo hræddir, er legstaðarins skyldu gæta,
að þeir voru sem orendir. 5. En til kvenn-
anna mælti eingillinn: verið óhræddar; eg veit,

að þér leitið að Jesú, þeim er krossfestur var;
6. hann er ekki hér, því hann er upp risinn,
eins og hann sagði; komið, og sjáið staðinn,
hvar herrann lá; 7. farið svo með skyndi og
segið lærisveinum hans, að hann sé upp risinn,
og hann sé undan yður kominn til Galilea-
lands; þar munuð þér sjá hann; sjáið, eg hefi
sagt yður það. 8. En þær geingu skyndilega
út úr legstaðnum, bæði hræddar og glaðar mjøg,
og hlupu til að flytja lærisveinum hans þenna
boðskap; 9. og er þær voru á leið komnar, til
að segja lærisveinum hans frá þessu, kom Jes-
ús móti þeim og sagði: sælar verið þið! En
þær geingu til hans og faðmuðu fætur hans,
og veittu honum lotníngu. 10. Þá sagði Jes-
ús við þær: hræðizt ekki, farið og segið bræðr-
um mínum, að þeir skuli fara til Galilealands,
og þar skuli þeir sjá mig.

11. Þegar þær voru burt farnar, komu
nokkrir af varðmønnunum til staðarins og søgðu
hinum æðstu prestum alt sem farið hafði; 12.
en þeir geingu á ráðstefnu ásamt með øldúng-
unum, og tóku það til ráðs, að gefa striðs-
mønnunum fé mikið, og søgðu við þá: 13.
Segið, að lærisveinar hans hafi komið um nótt

og stolid líkinu, á medan þér sváfud. 14. En
ef þetta berst til eyrna landstjórnarans, þá
skulum vér sefa hann og gjora ydur óhulta. 15.
Stridsmennirnir tóku vid fénu, og gjordu, sem
þeim var kent. Þessi atburdur er enn í dag
í alræmi hjá Gydingum.

16. Þeir ellefu lærisveinar ferdudust sídan
til Galilealands, á fjall þad, er Jesús hafdi
bodid þeim; 17. þar sáu þeir hann og veittu
honum lotningu, en sumir voru efablandnir. 18.
Þá gekk Jesús til þeirra og sagdi: mér er
gefid alt vald á himni og jordu; 19. farid og kennid ollum þjódum, og skírid þær í
nafni fodurs, sonar og heilags anda; 20. og
bjódid þeim ad gæta alls þess, er eg hefi bodid ydur; en sjálfur vil eg vera med ydur alla
daga, alt til veraldarinnar enda.

# Markúsar Gudspjall.

---

## 1. Kapituli.

Verk Jóhannesar og Jesú.

1. Þetta er upphaf gledibodskaparins Jesú
Krists, guds sonar.
2. Eins og skrifad er hjá spámanninum
Esajas: sjá, eg sendi minn sendiboda undan
þér, sá er greida skal veg þinn; 3. kall er
heyrt í óbygdum: tilbúid veg drottins, jafnid
brautir hans: 4. þannig skedi þad, ad Jó-
hannes skírdi í eydimørku og kendi, ad þeir, er
skírast vildu, skyldu bæta rád sitt, til ad fá
fyrirgefningu synda sinna. 5. Til hans komu
allir Júdea og Jerúsalems innbyggjendur, og
voru þeir, sem játudu sín afbrot, skírdir af hon-
um í ánni Jórdan. 6. Jóhannes var klæddur
úlvaldshárum og girtur ledur-belti um lendar
sér; fæda hans voru eingisprettur og skógarhun-

áng. 7. Hann hóf svo kenníngu sína: sá, er
eptir mig kemur, er mér meiri, og eg er ekki
þess verður, að eg beygi mig til að leysa hans
skóþveingi. 8. Eg skíri yður einúngis í vatni,
en hann mun skíra yður með heilögum anda.
9. Svo bar til um þessar mundir, að Jes-
ús kom frá Nazaret í Galílealandi og lét skír-
ast af Jóhannesi í Jórdan; 10. en jafnskjótt
er hann steig upp úr vatninu, sá Jóhannes
himininn opnast og andann fara niður, eins og
dúfu, yfir hann; 11. þá heyrðist rödd af
himni: þú ert sonur minn elskulegur, á hverjum
eg hefi velþóknun. 12. Og strax þar eptir
knúði andinn hann til að víkja á eyðimörku,
13. og á þessari eyðimörku var hann í fjöru-
tíu daga freistaður af Satan og meðal villu-
dýra; en einglar þjónuðu honum.
14. En eptir að Jóhannes var framseldur
(til lífláts), veik Jesús í Galílealand, og flutti
þar gleðiboðskapinn um guðs ríki, og sagði:
15. tíminn er kominn og guðs ríki er nálægt;
bætið ráð yðar og trúið þessum gleðiboðskap.
16. Þegar hann gekk með sjónum í Galílea,
sá hann Símon og Andrés, bróður hans, sem
voru að leggja net í sjóinn, því þeir voru fiski-

menn. 17. Jesús sagdi til þeirra: fylgid mér
eptir, og mun eg gjøra ydur ad mannaveidur-
um. 18. Þeir yfirgáfu strax netin, og fylgdu
honum. 19. Þegar hann var kominn skamt
þadan, sá hann þá Jakob Sebedeusson og
Jóhannes bródur hans, sem og svo voru á skipi
ad bæta net; 20. þá kvaddi hann einninn strax
til fylgdar vid sig. Þeir yfirgáfu fødur sinn þar
á skipinu, samt leigulidana, og fylgdu honum.
21. Þeir komu til Kapernaum, og strax gekk
Jesús í samkunduhús þeirra og kendi þar á
hvíldardøgum; 22. en fólkid undradist mjøg
kenningu hans, því hann kendi þeim, eins og sá,
er hefdi vald til þess (af gudi), en ekki eins
og hinir skriptlærdu. 23. Í samkunduhúsi
þeirra var madur nokkur, sem hafdi óhrein-
an anda; hann kalladi og sagdi: 24. æ, hvad
høfum vid saman ad sælda, Jesú nadverski?
Ertu kominn til ad fyrirfara oss? Eg veit,
hver þú ert, hinn heilagi guds. 25. Jesús
hastadi þá á hann og mælti: þegi þú, og far
út af honum! 26. Þá hreif hinn óhreini andi
manninn, og fór út af honum oskrandi. 27.
Þetta undrudust allir, svo þeir spurdu hver ann-
an og søgdu: Hvad er þetta? Hver er þessi

hin nýa kenníng? því hann skipar jafnvel ó-
hreinum öndum med valdi, og þeir hlýda hon-
um. 28. En ordrómurinn af honum barst strax
út um öll þau lönd, er lágu i grend vid Gali-
lealand. 29. Strax sem þeir komu úr sam-
kunduhúsinu, fóru þeir til húss Símonar og
Andrésar, ásamt med Jakobi og Jóhannesi;
30. þar lá módir konu Símonar sóttveik, og
strax var honum sagt frá henni; 31. hann gekk
þángad, tók í hönd henni, reisti hana á fætur,
og þá hvarf strax sóttveikin frá henni, og hún
þjónadi þeim. 32. Nú er kvöld kom og sól var
runnin, færdu þeir til hans alla veika og djöful-
óda, 33. og borgarmenn söfnudust allir saman
ad dyrum hússins; 34. en hann læknadi marga,
þá er veikir voru af ýmsum sjúkleikum, og rak
út marga djöfla, og leyfdi þeim ekki ad segja,
ad þeir þektu hann.

35. Ad morgni fyrir dögun fór hann á fæt-
ur, og gekk út úr borginni í einn eydistad, og
gjördi þar bæn sína; 36. en Símon og þeir,
sem med honum voru, eltu hann, 37. og er
þeir fundu hann, sögdu þeir til hans: allir leita
þín. 38. Þá sagdi Jesús vid þá: vér skul-
um fara í nálæg þorp, svo eg fái einninn þar

kent; því til þess er eg út farinn. 39. Og
hann kendi í samkunduhúsum þeirra um alt
Galíleáland, og rak djöfla út. 40. Og madur
nokkur líkþrár kom til hans, féll til fóta hans
og bad hann med svo feldum ordum: ef þú vilt,
getur þú læknad mig. 41. Jesús kendi í brjósti
um hann, rétti út höndina, snart hann og sagdi:
eg vil, vertu heill! 42. Og jafnskjótt er Jes-
ús mælti þetta, hvarf af honum líkþráin, og
hann vard heilbrigdur. 43. Jesús lét hann
strax frá sér fara, lagdi ríkt á vid hann, 44.
og mælti: varastu ad segja þetta nokkrum, heldur
far og sýn þig prestinum, og offra því, sem Mó-
ses baud, til sanníndamerkis um, ad þú sért
heilbrigdur ordinn. 45. En madurinn fór og
taladi margt um þetta og bar þad út, svo Jes-
ús mátti ekki framar koma opinberlega í borg-
ina; var hann því utan borgar í eydistödum,
og kom fólk þángad til hans úr öllum áttum.

## 2. Kapítuli.

Jesús læknar; kallar Matteus; tekur lærisveinana í forsvar.

1. Nokkrum dögum sídar kom hann aptur
inn í borgina Kapernaum; og strax er sú fregn

kom, ad hann væri í húsi sínu, 2. safnadist
þángad svo mikill fjöldi fólks, ad þad komst
hvergi fyrir, og jafnvel ekki í anddyrinu, en
hann flutti þeim sína kenníngu; 3. þá komu
til hans menn nokkrir med visinn mann, sem
var borinn af fjórum; 4. nú er þeir gátu ekki
komizt á hans fund fyrir mannþraunginni, rifu
þeir gat á þakid uppi yfir honum, og létu sæng-
ina siga þar nidur, hvar í sá visni lá. 5. Nú
er Jesús sá þeirra trúnadartraust, sagdi hann
til þess visna: sonur, syndir þínar eru þér fyr-
irgefnar. 6. En þar sátu nokkrir af þeim
skriptlærdu, og hugsudu med sér: 7. því talar
madur þessi slíkar gudlastanir? Hver kann ad
fyrirgefa syndirnar, nema gud einn? 8. Strax
fann Jesús í anda, ad þeir hugsudu þetta og
sagdi vid þá: því hugsid þér slíkt í ydrum
hjörtum? 9. Hvort er audveldara ad segja
þeim visna: syndir þínar eru þér fyrirgefnar,
eda segja: statt upp, tak sæng þína og gakk;
10. en til þess ad þér vitid, ad mannsins son-
ur hefir vald til ad fyrirgefa syndir á jördu,
sagdi hann þeim visna: 11. þá segi eg þér,
statt upp og tak sæng þína og far til húss
þíns; 12. En hann stód strax upp, tók sæng-

ina og gekk út, svo allir sáu. Þá undrudust
allir og vegsömudu guð, og játudu, að þeir
aldrei hefdu slíkt séð.
13. Þar eptir gekk hann aptur út til sjáf-
arins, og alt fólkið kom til hans, og hann
kendi þeim. 14. Og er hann gekk fram hjá,
sá hann mann, er Leví hét Alfeusson, sitjanda
í tollbúð sinni, og sagði við hann: fylgdu mér;
hann stóð upp og fylgdi honum. 15. En svo
bar til, er Jesús var að mat í húsi hans, að
margir tollheimtumenn og bersyndugir mötuðust
þar ásamt Jesú og lærisveinum hans; því
margir af þeim voru í fylgd með honum; 16.
en er þeir skriptlærðu og Farísearnir sáu hann
matast ásamt tollheimtumönnum og bersyndug-
um, sögdu þeir við lærisveina hans: hvað kem-
ur til, að hann etur og drekkur með tollheimtu-
mönnum og bersyndugum? 17. Þegar Jesús
heyrdi þetta, mælti hann: ekki þurfa heilbrigdir
læknis við, heldur þeir, sem sjúkir eru. Eg er
ekki kominn til að kalla réttláta, heldur synd-
uga til lifnaðarbóta. 18. Lærisveinar Jó-
hannesar og Fariseanna voru vanir að fasta
(optlega); þeir komu til Jesú og tóku svo til
orda: því fasta lærisveinar Jóhannesar og Fari-

seanna, en þínir lærisveinar fasta ekki? 19.
Jesús svaradi þeim: hvort kunna brúdmenn-
irnir ad fasta, á medan brúdguminn er med
þeim? Svo leingi sem þeir hafa brúdgumann
med sér, ber þeim ekki ad fasta; 20. en sá
tími mun koma, ad brúdguminn verdur frá
þeim tekinn, og þá munu þeir fasta. 21. Eing-
inn plagar ad leggja óþæfda bót á gamalt fat:
því annars rífur hin óþæfda bót hid gamla
fatid, og verda þá spjøllin verri; 22. ekki held-
ur eru menn vanir ad koma nýu víni á forna
belgi, ad ødrum kosti spreingir hid nýa vínid
belgina og spillist, en belgirnir ónýtast; heldur
á ad láta nýtt vín á nýa belgi.

23. Svo bar vid, ad Jesús gekk yfir sád-
lönd nokkur á hvíldardegi; þá tóku lærisveinar
hans ad tína øx nokkur á leidinni. 24. Fari-
searnir søgdu þá vid hann: því gjøra lærisvein-
ar þínir þad, sem ekki sæmir á hvíldardegi?
25. Hann spurdi: hafid þér aldrei lesid, hvad
Davíd gjørdi, þegar hann var matþurfi og
førunautar hans, 26. ad hann gekk inn í guds
hús, ad ásjáanda hinum ædsta presti Abiatar,
og neytti braudanna helgu, sem einginn mátti
eta nema prestarnir, og gaf þau einnig sínum

fylgdarmönnum. 27. Og enn mælti hann við
þá: hvíldardagurinn er orðinn til mannsins
vegna, en maðurinn ekki vegna hvíldardagsins;
28. þess vegna er mannsins sonur og svo
herra hvíldardagsins.

## 3. Kapituli.

Jesús læknar marga sjúka; kallar til sín þá tólf postula, talar um synd á móti heilögum anda; kennir, hver að sé hans móðir og hverjir hans bræður.

1. Í öðru sinni kom hann í samkundu-
húsið, og var þar sá maður, er visna hönd
hafði. 2. Þá höfðu þeir auga á honum, hvort
hann mundi lækna þann mann á hvíldardegi,
svo þeir gætu áklagað hann. 3. Þá sagði
Jesús við manninn, er visnu höndina hafði:
statt þú á fætur og láttu sjá þig. 4. Þá sagði
hann til þeirra: hvort er sæmra á hvíldardög-
um, að gjöra gott eður ilt, gefa líf eður svipta
því? En þeir svöruðu eingu. 5. Þá litaðist
hann um með reiðisvip, og varð hryggur yfir
harðúð þeirra; síðan segir hann við manninn:
réttu fram hönd þína. Hann gjörði það, og
varð hún þá heil. 6. Þá geingu Farísear út,
og báru strax saman ráð sín á móti honum,

vid menn Heródesar konúngs, hverninn þeir
feingi hann af dögum rádinn. 7. Jesús fór
þá ásamt lærisveinum sínum til sjóar, og fylgdi
honum þá margt fólk úr Galilealandi og Júda-
landi, 8. úr Jerúsalem, úr Idúmea og úr
hérodum hinumegin Jórdanar; líka kom margt
fólk til hans, er bjó í grend vid Týrus og
Sídon, sem heyrt hafdi um hans kraptaverk. 9.
Þá baud hann lærisveinum sínum ad hafa sér
skip búid, svo fólksfjöldinn skyldi ekki þraungva
honum; 10. því sökum þess ad hann læknadi
marga, þá flyktust ad honum allir þeir, er
sjúkir voru, svo þeir nædu ad snerta hann; 11.
líka féllu þeir, er haldnir voru af óhreinum
öndum, fram fyrir honum, undir eins og þeir
sáu hann, æptu og sögdu: þú ert sonur guds;
12. en hann bannadi þeim hardlega ad segja
frá, hver hann væri.

13. Sídan fór hann upp á eitt fjall, og kall-
adi til sín þá, er hann sjálfur vildi, og komu
þeir til hans. 14. Þá tilsetti hann tólf, er
vera skyldu med honum, og til ad senda þá frá
sér til ad flytja hans kenníngu; 15. þeir áttu
og ad hafa krapt til ad lækna sjúkdóma og reka
djöfla út. 16. Þessir voru: Símon, hvern

hann kalladi Pétur; 17. þeir brædur Jakob
og Jóhannes, synir Sebedeusar, þá kalladi
hann Boanerges, þad er, þrumendur; 18.
Andrés og Filippus og Bartólómeus og Matte-
us og Tómás og Jakob Alfeusson og Taddeus
og Símon vandlætari, 19. og Júdas frá
Kariot, hver ed sveik hann.

20. Þegar þeir voru komnir til herbergis,
þá safnadist þángad ad nýu svo mikill fjøldi
fólks, ad þeir gátu ekki feingid sér matar. 21.
Og sem náúngar hans heyrdu þad, fóru þeir
og vildu ná honum út, því þeir søgdu hann
væri frá sér. 22. En þeir skriptlærdu, er
komnir voru ofan frá Jerúsalem, søgdu Belse-
bub vera í honum, og ad hann ræki djofla út
med fulltingi djoflahøfdingjans. 23. Jesús
kalladi þá til sín, og taladi til þeirra í eptir-
líkingum: hverninn getur Satan rekid Satan
út? 24. og hvert þad ríki, sem innbyrdis sund-
urlyndi er í, fær ekki stadizt, 25. og hvert
þad hús, hvar innbyrdis ósamlyndi er, þad hús
mun ekki geta stadizt; 26. ef nú Satan er
upp á móti sjálfum sér, og er vid sjálfan sig
ósamþykkur, fær hann ekki stadizt, heldur er út-
gjørt um hann. 27. Einginn getur brotizt inn

i hús ens sterka og rænt fanngum hans, nema hann taki ádur þann sterka til banda; þá fyrst getur hann rænt hús hans. 28. Sannlega segi eg ydur, ad alls kyns syndir, og jafnvel gudlastanir, kunna mönnunum fyrirgefnar ad verda; 29. en sá, sem talar lastmæli gegn heilögum anda, mun eigi ad eilífu aflát fá, heldur mun hann vinna til eilífs dómsáfellis 30. (þvi þeir höfdu sagt, ad óhreinn andi væri i honum).

31. Nú kom módir hans og brædur, stódu fyrir dyrum úti og sendu honum ord ad koma. 32. En fólkid sat alt i kring um hann; þá var honum sagt, ad módir hans og brædur stædu úti og vildu finna hann; 33. þá svaradi hann þeim: hver er módir min edur brædur minir? 34. Og sem hann hafdi rent augunum yfir þá, er i kringum hann sátu, sagdi hann: sjá, þar er min módir og minir brædur; 35. þvi hver hann gjörir vilja guds, hann er minn bródir, min systir og módir.

## 4. Kapituli.

Jesús kennir i eptirlíkingum; lætur sjóinn verda kyrran.

1. Og hann tók aptur til ad kenna vid sjóinn, dreif þá til hans svo mikill fjöldi fólks,

ad hann hlaut ad stíga á skip og setjast þar,
en múgurinn allur var á landi fram vid sjó-
inn; 2. þá kendi hann þeim margt í dæmi-
søgum, og mælti til þeirra í sinni kenningu:
3. Gefid gaum ad máli mínu! Sjá, madur
nokkur fór ad sá; 4. en þad vildi svo til, þá
hann var ad sá, ad sumt sædid féll vid veg-
inn, og fuglar komu og átu þad; 5. sumt féll
í grýtta jørd, hvar þad hafdi lítinn jardveg;
þad óx ad sønnu skjótt, því þad hafdi lítinn
jardveg; 6. en er sólin hækkadi á lopti, skræln-
adi þad og visnadi, sokum þess þad hafdi ekki
nógar rætur; 7. sumt féll medal þyrna, en
þyrnarnir uxu upp og kæfdu þad, svo þad bar
eingan ávøxt. 8. En sumt féll í góda jørd,
þad spratt, óx og bar ávøxt, sumt þrítugfald-
an, sumt sextugfaldan og sumt hundradfaldan.
9. Og hann sagdi til þeirra: hver hann hefir
eyru til ad heyra, sá heyri. 10. Sídar, er
hann var einn saman, spurdu þeir, sem med
honum voru, ásamt þeim tólf, um þad, hvad
þessi dæmisaga ætti ad þýda. 11. Jesús mælti:
ydur er unt ad skilja leyndardóma guds ríkis,
hinum út í frá hlýtur ad kennast med dæmi-
søgum; 12. því þótt þeir horfi med opnum

augum, sjá þeir samt ekki, og þótt þeir hlusti með eyrunum, þá skynja þeir ekki; þess vegna bæta þeir ekki ráð sitt, til að ødlast aflát fyrir misgjørdir sínar. 13. Síðan sagdi hann vid þá: ef þér skiljid ekki þessa dæmisøgu, hvernig getid þér þá allar dæmisøgur skilid? 14. Sádmadurinn þýdir þann, er kenninguna flytur; 15. sædid, sem vid veginn var sád, merkir þá, hverjum kenningin er flutt, og nær þeir hafa heyrt hana, kemur Satan strax og tekur kenninguna, er þeim var birt, burt úr hjørtum þeirra. 16. Eins merkir sædid, sem féll í grýtta jørd, þá, sem heyra mína kenningu og veita henni strax vidtøku med fognudi; 17. en vegna þess ad þeir láta ekki lærdóminn rótfestast, heldur eru óstødugir, þá kasta þeir strax trú sinni, þegar þeir, minnar kenningar vegna, hljóta mótmæli og ofsóknum ad mæta. 18. Sædid, hverju sád var medal þyrna, merkir þá, er ad sonnu heyra mína kenningu, 19. en umhyggja fyrir lífi þessu, táldrægni audæfanna og girndir til annara hluta koma til og kefja kenninguna, svo hún verdur ávartarlaus. 20. En sædid, er féll í góda jørd, þýdir þá, er heyra mína kenningu og færa á-

vøxt, sumir þrítugfaldan, sumir sextugfaldan og
sumir hundraðfaldan.

21. Síðan sagði hann við þá: hvert plaga
menn að bera inn ljós og hylja það síðan und-
ir íláti eður bekk? Er ekki heldur siður að setja
það í ljósastikun? 22. Því ekkert er svo hulið,
að það verði ekki opinbert, og ekkert svo fólg-
ið, að það verði ekki augljóst. 23. Hver hann
hefir eyru til að heyra, sá heyri! 24. Enn
framar sagði hann við þá: gefið gaum að því,
sem þér heyrið; með þeim sama mæli, sem þér
mælið, mun yður mælt verða, og við yður, sem
takið eptir, mun viðbætt verða; 25. þeim,
sem hefir, mun veitast, en frá hinum, sem ekki
hefir, mun tekið verða, jafnvel það hann hefir.

26. Síðan sagði hann: Eins er því varið
með guðs ríki, eins og þegar einhver kastar
sæði í jørð; 27. hann sefur um nætur, en
vakir um daga, en sæðið vex og dafnar, án
þess hann viti það; 28. því jørðin ber sjálf-
krafa ávøxt, fyrst kornstaungina, síðan axið, og
seinast fullvarið korn í axinn; 29. en nær á-
vøxturinn er fullvaxinn, lætur hann slá kornið,
því þá er kornskurðartíminn fyrir hendi.

30. Enn sagði hann: Hvar við skal eg jafna

guðs ríki? Eður hverja eptirlíkingu skal eg brúka, til að leiða yður það fyrir sjónir? 31. Líkt er það umstarðskorni: nær því er sáð, er það hið minnsta allra frækorna; 32. síðan vex það, og verður hverju kálgresi meira, og fær stórar greinir, svo fuglar himins geta leitað sér skjóls í skugga þess. 33. Í mörgum þess konar eptirlíkingum framsetti hann kenningu sína, eins og bezt átti við þeirra skilning; 34. en án eptirlíkinga kendi hann þeim ekki. Síðan, þegar hann var einn saman, lagði hann alt út fyrir lærisveinum sínum.

35. Að kvöldi sama dags bauð hann lærisveinum sínum að fara yfir um sjóinn. 36. Þeir skildu við fólkið, og fóru með hann með sér á skipinu, eins og hann stóð, en önnur skip fylgdust með honum. 37. Þá gjörði veður mikið, svo bylgjurnar féllu yfir skipið, svo að lá við, að fylti; 38. en hann svaf á kodda í skutnum. Þeir fóru þá og vöktu hann og sögðu: Meistari, hirðir þú ekki um það, að vér tortýnumst? 39. Hann reis þá upp, hastaði á vindinn og sagði við sjóinn: þegi þú og vertu kyr! Þá lægði veðrið, og varð blíða logn. 40. Síðan sagði hann við þá: því eruð þér

svo huglausir, hverju gegnir ydar vantraust?
41. En þeir urdu næsta hræddir, og sogdu
hver vid annan: hvílíkur er þessi, er bædi ved-
ur og sjór hlýda?

## 5. Kapituli.

Jesús rekur djøful út. Læknar sjúka.

1. Þeir komu yfir um sjóinn í hérad þeirra
Gadaramanna; 2. og strax sem hann var stig-
inn af skipi, hljóp móti honum madur nokkur,
kvalinn af óhreinum anda; 3. hann kom úr
grøfum daudra manna, hvar hann hafdi adset-
ur sitt, og var svo ódur, ad ekki tjádi ad setja
hann í fjøtur; 4. því opt hafdi hann verid
bundinn med fjotrum og hlekkjum, en hann sleit
af sér hlekkina og braut fjotrin, og einginn
gat rádid vid hann; 5. um allar nætur og
daga var hann á fjollum, edur í grofum daudra
manna, hrein og lamdi sjálfan sig med grjóti.
6. Nú er hann sá Jesúm áleingdar, hljóp
hann þángad, heilsadi honum, kalladi hátt og
mælti: 7. Hvad hefi eg med þig ad gjora,
Jesús, sonur guds ens hæsta? Eg særi þig
vid gud, ad þú kveljir mig ekki. 8. (Því Jes-
ús hafdi skipad þeim óhreina anda ad fara út

af honum). 9. Þá spurdi Jesús hann ad
nafni, en hann segir: Legió heiti eg; því vér
erum margir. 10. Þá bad hann Jesúm inni-
lega, ad hann ræki þá ekki burt úr því héradi.
11. En þar var vid fjallid stór svínahjørd á
beit; 12. þá bádu djøflarnir hann, ad hann
vildi leyfa þeim ad fara í svínin. 13. Jesús
leyfdi þeim þetta strax, og fóru hinir óhreinu
andar í svínin, og øll hjørdin hljóp fyri bjørg
ofan í sjóinn, og kafnadi þar; var þad hér um
tvø þúsund svína; 14. en þeir, er gættu þeirra,
flýdu, og søgdu frá þessu bædi í borginni og á
landsbygdinni. 15. Þá fóru menn ad sjá,
hvad sked hafdi, komu til Jesú, og sáu þar
þann djøfulóda sitjanda, klæddan og heilvita,
þann, er djøflasæginum hafdi í verid. 16.
Vid þetta urdu þeir hræddir, en þeir, sem vid
høfdu verid, søgdu þeim, hvernig farid hefdi
bædi fyrir þeim óda og svínunum. 17. Þá
bádu þeir hann, ad hann færi úr þeirra hérød-
um. 18. Nú er hann steig á skip, beiddi sá,
sem ódur hafdi verid, hann leyfis ad fara med
honum; 19. þessa synjadi Jesús honum, og
sagdi: far þú heim til þín og þinna, og skýr
þeim frá, hvad mikid gott gud hefir veitt þér,

og hversu hann hefir miskunad þér. 20. Hann
fór og skýrdi frá því í Dekapólis, sem Jesús
hafdi gjørt vid hann, og undrudust þad allir.
21. Þegar Jesús var kominn yfir um á
skipinu aptur, safnadist ad honum mikill manna-
fjøldi; var hann þá staddur vid sjóinn. 22.
Þángad kom til hans einn af samkunduhøfd-
íngjunum, er hét Jaírus, og þegar hann sá
Jesúm, féll hann til fóta honum, 23. og
bad hann mjøg innilega og sagdi: dóttir mín
er ad fram komin; kom og legg hendur þínar
yfir hana, svo henni batni; þá mun hún lifa.
24. Jesús fór med honum; honum fylgdi múg-
ur manns, er þreyngdi sér ad honum. 25. Þar
var kona nokkur, sem um tólf ár hafdi verid
sjúk af blódláti; 26. hún hafdi mikid þolad af
mørgum læknum, og kostad þar til aleigu sinni,
og þó ekki batnad, heldur vard henni æ þýngra.
27. Hún hafdi heyrt frá Jesú, kom í mann-
þraunginni ad baki honum, og snart klædi hans;
28. því hún hugsadi, ad gæti hún snert þau,
mundi hún heil verda. 29. Og strax stødvad-
ist blódlát hennar, og hún fann á sér, ad hún
var heil ordinn meina sinna. 30. Strax fann
Jesús á sér, ad kraptur var út af honum

geinginn, snériſt vid í mannþraunginni, og ſpurdi, hver hefdi hrært vid klædum hans. 31. Þá tóku læriſveinar hans til orda: þú ſér, ad mannfjöldinn þreyngir ad þér, og þó ſpyr þú, hver hafi hrært vid þér. 32. Þá ſkygndiſt Jesús um eptir þeirri, ſem þetta hafdi gjört; 33. en hún var hrædd og ſkjálfandi, því hún viſsi, hvad vid ſig hafdi fram farid, kom og féll fram fyrir hann, og ſagdi alt hid ſanna. 34. Þá mælti hann: dóttir, þín trú hefir hjálpad þér; far í fridi, og vert heil ſjúkleika þíns. 35. En er hann var þetta ad mæla, komu menn frá heimili ſamkunduhöfdingjans, er ſögdu: dóttir þín er látin; því viltu ómaka framar meiſtarann? 36. Strax er Jesús heyrdi þeſsa fregn, mælti hann vid ſamkunduhöfdingjann: vertu óhræddur, trú þú einúngis. 37. Og nú leyfdi hann eingum ad fylgja ſér, nema Pétri, Jakobi og Jóhannesi, bródur Jakobs. 38. Þegar hann kom í hús ſamkunduhöfdingjans, og ſá þar ys mikinn, og þá, er grétu og æptu mjög, 39. ſagdi hann vid þá: Því hrínid þér og grátid? mærin er ekki daud, heldur ſefur hún; 40. en þeir hlógu ad honum. Sídan baud hann öllum ad fara út og tók med ſér födur og módur

skíra með vatni, að Gyðingar feingju hann að
þekkja. 32. Jóhannes vitnaði og þetta: eg sá
andann niður fara af himni, sem dúfu, og nema
staðar yfir honum. 33. Eg þekti hann ekki,
en sá sem sendi mig til að skíra með vatni,
hann sagði mér: sá sem þú sér andann koma
yfir og staðnæmast yfir, hann er sá, sem skírir
með heilögum anda. 34. Þetta sá eg, og eg
vitna, að þessi sé sonur guðs.

35. Daginn eptir var Jóhannes þar aptur
staddur; og tveir af hans lærisveinum; 36. og er
hann horfði á Jesúm, hvar hann gekk, sagði
hann: sjá það guðs lamb! 37. Þessir tveir
lærisveinar heyrðu hann tala þetta, og fóru ept-
ir Jesú. 38. En Jesús leit við, og þá
hann sá þá fara eptir sér, sagði hann: hvers
leitið þér? 39. Þeir sögðu: Rabbí (það þýð-
ir lærimeistari), hvar áttu heima? Hann sagði:
komið og sjáið. 40. Þeir komu og sáu, og voru
hjá honum daginn þann, en þetta gjörðist að
liðnu nóni. 41. Annar af þessum tveimur,
sem heyrðu þetta af Jóhannesi og geingu ept-
ir Jesú, var Andrés bróðir Símonar Péturs.
42. Hann finnur fyrst bróður sinn Símon og
segir við hann: við höfum fundið Messías, það

útleggst, sá smurði, og hann fylgði honum til
Jesú. 43. En er Jesús leit hann, sagði hann:
þú ert Símon, sonur Jónasar, þú skalt heita
Kefas, það er, bjarg (Pétur). 44. Daginn
eptir ætlaði Jesús að fara til Galílea; hann
hitti þá Filippus og sagði til hans: fylg þú
mér, 45. en Filippus var frá Betsaída, borg
þeirra Andrésar og Péturs. 46. Filippus fann
Natanael og sagði til hans: vér höfum fundið
þann, sem Móses skrifaði um í lögmáls bókinni
og spámennirnir, Jesúm son Jóseps af Naza-
ret. 47. Natanael svaraði: getur nokkuð gott
komið frá Nazaret? Filippus svaraði: kom þú
og sjá. 48. Jesús sá Natanael koma til sín
og sagði um hann: sjá, þessi er sannur Gyð-
ingur, í hverjum eingin svik eru. 49. Nata-
nael sagði: hvernig þekkir þú mig? Jesús
svaraði og sagði til hans: áður en Filippus
kallaði þig, sá eg þig, þar sem þú varst undir
fíkjutrénu. 50. Natanael svaraði og sagði til
hans: Rabbí, þú ert sonur guðs, þú ert Ísra-
els konúngurinn. 51. Jesús svaraði og sagði
til hans: þú trúir því, af því eg sagði þér:
eg sá þig undir fíkjutrénu; annað þessu meira
muntu fá að sjá. 52. Og hann sagði til hans:

sannlega segi eg ydur: hér eptir munud þér sjá himininn opinn og eingla guds upp fara og nidur stiga til mannsins sonar.

## 2. Kapituli.

Brúdkaupid í Kana; fyrsta ferd Jesú til Jerúsalem, og gjordir hans þar.

1. Og á þridja degi var haldid brúdkaup
í Kana í Galilea. 2. Þar var Jesú módir,
en Jesú og hans lærisveinum var líka bodid til
brúdkaupsins. 3. Og er vín þraut, sagdi módir
Jesú til hans: þeir hafa ekki vín. 4. Jesús
sagdi til hennar: módir, hvad kemur þad vid
þér og mér? minn tími er enn ekki kominn.
5. Módir hans sagdi til þénaranna: hvad helzt
hann segir ydur, þad gjörid. En þar voru sex
vatnsker af steini, sett þángad, af þvi Gydingar
þvo sér opt, og tók hvert þeirra tvo edur
edur þrjá mælira. 7. Jesús sagdi til þeirra:
fyllid nú kerin med vatni, og þeir fyltu þau á
barma. 8. Þá sagdi hann til þeirra: ausid
nú af, og færid forstodumanni veizlunnar, og
þeir gjordu svo. 9. En sem hann smakkadi
vatnid, sem ordid var ad víni og vissi ekki hvadan
þad var komid (en þénararnir, sem vatnid

jusu, vissu það), kallaði hann á brúðgumann
og sagði: 10. allir menn veita fyrst góða vín-
ið, en þegar gestirnir taka ölvaðir að verða, þá
hið lakara; þú hefir geymt góða vínið þángað
til nú. 11. Þetta, sem Jesús gjörði í Kana í Gali-
lea, var það fyrsta af jarteiknum hans. Og
hann opinberaði sína dýrð, og hans lærisvein-
ar trúðu á hann.

12. Eptir þetta fór Jesús til Kapernaum,
hann og móðir hans, bræður og lærisveinar, en
voru þar ekki marga daga, því páska-hátíð Gyð-
ínga fór í hönd. 13. Þá ferðaðist Jesús upp
til Jerúsalem. 14. Þar fann hann í muster-
inu þá, sem seldu naut, sauði og dúfur, og þá
menn sitjandi, er höfðu umskipti á peningum.
15. Hann gjörði sér þá svipu úr koðlum og
rak alla út úr musterinu, bæði sauðina og naut-
in, steypti niður peningum og hratt um borð-
um þeirra, sem skiptu um peninga, 16. en sagði
við þá, sem dúfurnar seldu: takið þetta héðan
og gjörið ekki hús míns föðurs að verzlunar-
búð. 17. En lærisveinum hans kom í hug,
að skrifað hafði verið: vandlæti vegna þíns húss
uppetur mig. 18. Gyðingar tóku þá til orða
og sögðu til hans: hvert jarteikn sýnir þú oss

þad, ad þetta megir gjøra? 19. Jesús svaradi
þeim og sagdi: nidurbrjótid þetta musteri, en eg
mun reisa þad á þrem døgum. 20. Þá søgdu
Gydíngar: musteri þetta var verid ad byggja í
fjørutiu og sex ár, og þú mundir reisa þad á
þremur døgum? 21. En hann taladi um musteri
síns líkama. 22. Þar fyrir kom hans læri-
sveinum í hug, þá hann var risinn frá dauð-
um, ad hann hafdi þetta talad, og trúdu ritn-
íngum og því, sem Jesús hafdi talad. 23. Med-
an Jesús var í Jerúsalem á páska hátídinni,
trúdu margir á hann, af því þeir sáu þau teikn,
er hann gjørdi. 24. En Jesús trúdi þeim ekki
fyrir sér, 25. því hann þekti alla, og þurfti þess
ekki, ad nokkur vitnadi um manninn, því hann
vissi, hvad med manninum bjó.

## 3. Kapituli.

Samtal vid Nikódemus um endurfædingu, trú og gód-
verk. Jesús skírir, og Jóhannes. Þessi vitnar enn
um Jesúm.

1. En þar var madur nokkur af flokki Farí-
seauna, er hét Nikódemus, einn af høfdingum
Gydinga. 2. Hann kom til Jesú um nótt og
sagdi til hans: meistari, vér vitum, ad þú ert

lærifadir, kominn frá gudi, því einginn getur
gjørt þau jarteikn, sem þú gjørir, nema gud sé
med honum. 3. Jesús svaradi og sagdi til
hans: sannlega, sannlega segi eg þér: madurinn
getur ekki notid guds rikis, nema hann endur-
fædist. 4. Nikódemus segir til hans: hvernig
getur madur fædzt, þá hann er ordinn gamall?
getur hann aptur komizt í kvid módur sinnar
og fædzt? 5. Jesús svaradi: sannlega, sann-
lega segi eg þér: ef madurinn fædist ekki af vatni
og anda, getur hann ekki feingid inngaungu í
guds riki. 6. Pad sem af holdi er fædt, það
er hold, og hvad sem af andanum er fædt, það
er andi. 7. Undrast þú ekki, ad eg sagda þér:
ydur byrjar ad endurfædast. 8. Vindurinn blæs,
hvar sem hann vill, og þú heyrir hans þyt, en
ekki veiztú, hvadan hann kemur edur hvert hann
fer; eins er því varid med hvern, sem af and-
anum er faddur. 9. Nikódemus svaradi og
sagdi til hans: hvernig má þetta ske? 10. Jes-
ús svaradi og sagdi til hans: ertú lærimeistari
Gydinga, og veizt ekki þetta? 11. Sannlega,
sannlega segi eg þér: vér tølum, þad vér vit-
um, og vitnum, þad vér séd høfum, og vorn
vitnisburd medtakid þér ekki. 12. Ef ad þér

trúið mér ekki, þegar eg segi ydur jarðneska hluti, hvernig munuð þér þá trúa, ef eg segi ydur himneska hluti? 13. Einginn hefir stig-
ið til himins, nema sá, sem niðursté af himni, mannsins sonur, sem er á himni. 14. Og eins
og Móses upphóf høggorminn á eyðimørkinni, svo á mannsins sonur að verða upphafinn,
15. til þess að hver, sem á hann trúir, ekki tapist, heldur hafi eilíft líf. 16. Því svo elsk-
aði guð heiminn, að hann gaf sinn eingetinn son, til þess að hver, sem á hann trúir, ekki tapist, heldur hafi eilíft líf. 17. Því ekki sendi
guð sinn son í heiminn til að dæma heiminn, heldur til þess að heimurinn frelsaðist fyrir hann. 18. Hver á hann trúir, dæmist ekki, en
hver hann trúir eigi, sá er nú þegar dæmdur, því hann trúði ekki á nafn guðs eingetins son-
ar. 19. En þessi er dómurinn: ljósið kom í
heiminn, og menuirnir elskuðu myrkrið meir en ljósið, því þeirra verk voru vond. 20. Hver,
sem ílt aðhefst, hatar ljósið og kemur ekki til ljóssins, svo verk hans verði ekki uppvís. 21.
En sá, sem sannleikanum hlýðir, hann kemur til ljóssins, svo verk hans verði opinber, því
þau eru gjørð að guðs vilja.

22. Eptir þetta kom Jesús og hans læri-
sveinar til Júdea: 23. þar var hann med þeim
og skirdi; en Jóhannes skirdi í Ainon ná-
lægt Salem, því þar var vatn mikid. Þángad
komu menn og létu sig skira; 24. því ekki var
enn búid ad kasta Jóhannesi í myrkvastofu. 25.
Þá vard þræta milli Jóhannesar lærisveina og
Gydings nokkurs um hreinsunina. 26. Og þeir
komu til Jóhannesar og søgdu: meistari, sá
sem var med þér hinumegin Jórdanar, hverj-
um þú gafst vitnisburdinn, sjá þú, þessi skirir,
og allir koma til hans. 27. Jóhannes svar-
adi: madurinn getur ekkert tekid, nema honum
sé gefid þad af himni. 28. Þér erud minir vott-
ar, ad eg sagdi: ekki em eg Kristur, en eg er
sendur á undan honum. 29. Sá sem brúdina hefir,
hann er brúdgumi, en brúdgumans vinur, sem
stendur hjá honum og heyrir hann, gledst mjøg vid
rødd brúdgumans. Þessi min gledi er nú full-
komnud. 30. Hann á ad vaxa, en eg ad minka.
Sá sem kom ofan ad, er øllum ædri. 31.
Sá sem er af jørdu, hann er af jørdu og tal-
ar af jørdu. Sá, sem kom af himni, er yfir
øllum; 32. og þad, sem hann hefir heyrt og
séd, þad vitnar hann, og enginn medtekur hans

vitnisburd. 33. En sá sem medtekur hans vitn-
isburd, sá kannast vid, ad gud hafi efnt sín
fyrirheit. 34. Sá sem gud sendi, talar guds
ord, því ekki gefur gud andann af skornum
skamti. 35. Fadirinn elskar soninn og hefir
gefid alla hluti í hans hönd. 36. Hver sem
trúir á soninn, sá hefir eilíft líf, en hver, sem
ekki hlýdnast syninum, skal ekki sjá lífid, held-
ur varir guds reidi yfir honum.

## 4. Kapituli.

Jesús talar vid þá samversku; umvendir mörgum sam-
verskum; fer til Galilea og Nazaret; læknar þjón kon-
úngsmannsins í Kapernaum.

1. Þegar drottinn fékk þad ad vita, ad Farí-
searnir höfdu frétt, ad hann drægi til sín fleiri
lærisveina og skírdi fleiri en Jóhannes; 2. Jes-
ús skírdi samt ekki sjálfur, heldur hans læri-
sveinar: 3. fór hann burtu úr Júdea og kom
aptur til Galilea. 4. En hann vard ad ferd-
ast um Samaría. 5. Þá kom hann ad borg í
Samaría, sem heitir Sikkar; hún er nálæg því
landi, sem Jakob gaf syni sínum Jósep. 6.
Jesús, sem var vegmódur, settist nidur vid brunn-
inn; þad var um hádegi. 7. Þar kom þá kona
nokkur samversk til ad ausa vatn. Jesús sagdi

vid hana: gef þú mér ad drekka; 8. því læri-
sveinar hans voru farnir inn í borgina ad kaupa
mát. 9. Sú samverska kona ansadi og sagdi
til hans: hvernig stendur á því, ad þú sem ert
Gydingur, bidur mig, konu samverska, ad gefa
þér ad drekka? því ekki hafa Gydingar um-
geingni vid samverska menn. 10. Jesús svar-
adi og sagdi henni: ef þú þektir guds gjøf og
hver sá er, sem segir vid þig, gef mér ad drekka,
þá mundir þú bidja hann ad gefa þér lifandi
vatn. 11. Konan sagdi til hans: þú hefir ekk-
ert ad ausa med, og djúpt er nidur í brunn-
inn; hvadan hefir þú þá hid lifanda vatn? 12.
edur ertu meiri fødur vorum Jakob, sem gaf
oss brunninn og drakk sjálfur af honum, og
hans synir og hans fénadur? 13. Jesús svar-
adi henni og sagdi: þann þyrstir aptur, sem
drekkur af þessu vatni, 14. en hinn, sem drekk-
ur af því vatni, er eg mun gefa, skal ad eilífu
ekki þyrsta, heldur mun þad vatn, sem eg mun
gefa honum, verda í honum ad lind uppsprett-
andi til eilífs lífs. 15. Konan segir þá vid
hann: herra, gef mér þetta vatn, ad mig þyrsti
ekki framar og eg þurfi ekki ad koma hingad
til ad ausa vatn. 16. Jesús sagdi: far þú,

kalladu mann þinn, og kom þú svo hingad.
17. Konan svaradi og sagdi: eg á eingan mann.
Jesús sagdi til hennar: rétt segir þú, ad þú
eigir eingan mann; 18. því þú hefir átt fimm
menn, og sá, sem þú nú hefir, er ekki þinn mad-
ur; þad sagdir þú satt. 19. Konan segir þá
til hans: herra, eg sé, ad þú ert spámadur.
20. Fedur vorir hafa tilbedid á þessu fjalli, en
þér segid, ad í Jerúsalem sé stadurinn, hvar
eigi ad tilbidja. 21. Jesús segir henni: kona,
trú þú mér, sá tími kemur, ad þér hvorki mun-
ud tilbidja födurinn á þessu fjalli né í Jerú-
salem. 22. Þér tilbidjid þad, sem þér ekki þekk-
id; vér þekkjum þad, sem vér tilbidjum, því af
Gydingum er hjálprædid. 23. En sá tími kem-
ur og er nú þegar kominn, ad sannir tilbidj-
endur munu tilbidja gud í anda og sannleika,
því fadirinn leitar þeirra, sem þannig tilbidja
hann. 24. Gud er andi, og þeir, sem hann
tilbidja, eiga ad tilbidja hann í anda og sann-
leika. 25. Konan segir þá til hans: eg veit,
ad Messías kemur (Messías er sama og Krist-
ur); þegar hann kemur, mun hann kunngjöra
oss alla hluti. 26. Jesús segir til hennar: eg
sem vid þig tala, eg er þad. 27. Rétt í því

komu hans lærisveinar ad, og hnykti þeim vid,
ad hann taladi vid konuna; þó sagdi einginn:
hvad ertu ad bidja hana um, edur hvad ertu
ad tala vid hana? 28. Konan skildi þar ept-
ir vatnsfötu sína og gekk inn í borgina og sagdi
fólkinu: 29. komid ad sjá mann, sem sagdi mér
alt hvad eg hefi adhafzt; mundi ekki þessi vera
Kristur? 30. Menn geingu þá út úr borg-
inni og komu til hans. 31. Medan á þessu
stód, voktu lærisveinarnir máls vid hann og
sögdu: 32. meistari, et þú. Hann ansadi þeim:
eg hefi þá fædu ad eta, sem þér ekki vitid af.
33. Lærisveinarnir sögdu þá hver vid annan:
ætla nokkur hafi fært honum mat? 34. Jes-
ús segir þeim: minn matur er ad gjora vilja
þess, sem mig sendi, og leysa af hendi hans
verk. 35. Segid þér ekki, enn þá eru fjórir
mánudir, svo kemur uppskeran? sjá, eg segi yd-
ur, lítid upp og sjáid akrana, þeir eru þegar
hvítir til uppskeru. 36. Hver, sem uppsker,
fær laun og safnar ávexti til eilífs lífs, svo
ásamt fagni bædi sá, sem sáir, og sá, sem upp-
sker; 37. því hér sannast ordtækid: annar sáir
og annar uppsker. 38. Eg hefi sent ydur til
ad uppskera þad, sem þér ekki unnud ad; adr-

ir unnu, og þér hafid geingid ad þeirra vinnu.
39. En margir samverskir menn úr þeirri borg
trúdu á hann fyrir konunnar ord, sem vitnadi:
hann hefir sagt mér alt, sem eg hefi adhafzt.
40. Þegar nú samverskir komu til hans, beiddu
þeir hann ad vera hjá sér, og hann var hjá
þeim tvo daga; 41. og miklu fleiri trúdu fyr-
ir hans ord, og sögdu vid konuna: 42. vér
trúum nú ekki framar fyrir þín ord, því vér
höfum sjálfir heyrt, og vitum, ad þessi er sann-
arlega heimsins frelsari Kristur.
43. En eptir tvo daga hélt hann þadan og
fór til Galilea; 44. en sjálfur Jesús vitn-
adi, ad spámadur feingi ekki heidur í eigin föd-
urlandi. 45. En þegar Jesús kom í Galilea,
tóku Galileamenn vid honum, sem höfdu sjed alt
þad, er hann á hátídinni hafdi gjört í Jerúsal-
em; því líka höfdu þeir sókt þángad hátídina.
46. Þá kom Jesús aptur til Kana í Gali-
lea, hvar hann hafdi gjört vatnid ad víni. Og
konúngsmadur nokkur var sá, hvers sonur lá
sjúkur í Kapernaum. 47. Þegar þessi frétti,
ad Jesús væri kominn frá Júdea til Galilea,
fór hann til hans og bad hann koma ad lækna
son sinn; því hann lægi daudvona. 48. Jes-

ús sagdi til hans: þér trúid ekki, nema
þér sjáid tákn og stórmerki. 49. Kon-
úngsmadurinn sagdi: herra, kom þú, ádur
en sonur minn andast. Jesús segir til hans:
far þú, sonur þinn lifir. 50. Og madurinn
trúdi því ordi, sem Jesús taladi til hans, og
fór. 51. En ádur en madurinn komst heim,
mættu honum þjónar hans og søgdu: sonur
þinn lifir. 52. Þá spurdi hann þá ad, nær hon-
um hefdi farid ad létta; og þeir søgdu hon-
um: i gær aflidanda hádegi yfirgaf sóttin hann.
53. Þá sá fadirinn, ad þad var á þeim tíma,
er Jesús hafdi sagt: sonur þinn lifir. 54.
Og hann trúdi, og alt hans heimafólk. Þetta
var hid annad jarteikn, sem Jesús gjørdi, þeg-
ar hann kom til Galilea frá Júdea.

## 5. Kapituli.

Jesús læknar þann vid Betesda laug á sabbatsdegi,
sem veikur hafdi verid i 38 ár, forsvarar verkid.

1. Eptir þetta var hátíd Gydinga, og Jes-
ús fór upp til Jerúsalem. 2. En i Jerúsal-
em er laug vid saudaportid, sem kallast á he-
bresku Betesda, og hefir fimm forbyrgi. 3. Í
þessum lá allur fjøldi veikra manna, blindra,

haltra, visinna, sem bidu vatnsins hræringar.
4. Því á vissum tímum sté eingill nidur í laugina
og hrærdi upp vatnid, en hver sem fór fyrstur í
laugina, eptir ad vatnid hafdi verid hrært, hann
vard alheill, hver veiki sem hann þjádi. 5.
Madur nokkur var þar, sem veikur hafdi ver-
id í þrjátíu og átta ár. 6. Þegar Jesús sá
þenna liggja, og vissi, ad hann hafdi þegar
leingi legid, segir hann vid hann: viltu verda
heill? 7. Sá veiki svaradi honum: herra, eg
hefi eingan til, sem láti mig í laugina, þegar
vatnid hrærist upp; svo þegar eg kem, er ann-
ar kominn nidur í þad á undan mér. 8. Jes-
ús segir til hans: stattu upp, tak sæng þína og
gakk; 9. og strax vard madurinn heill, tók upp
sængina og gekk, en sá dagur var helgidagur.
10. Því sögdu Gydingar vid þann læknada
mann: þad er helgidagur, þér leyfist ekki ad
bera sængina. 11. Hann svaradi þeim: sá sem
mig gjördi heilan, hann sagdi mér: ber þú
sæng þína og gakk. 12. Þeir spurdu þá: hver
er sá madur, sem sagdi þér: ber þú sæng þína
og gakk? 13. En sá læknadi vissi ekki, hver
sá var, því Jesús hafdi í kyrrþey farid burtu,
en þraung var mikil á stadnum. 14. Eptir

þetta hitti Jesús hann í musterinu og sagdi til
hans: sjá, nú ertu ordinn heill, syndga þú ekki
framar, ad ekki vilji þér annad verra til. 15.
Madurinn gekk burt og kunngjordi Gydingum,
ad Jesús væri sá, sem hefdi gjørt sig heilbrigd-
an, 16. og vegna þess ofsóktu Gydingar Jes-
úm, ad hann gjordi þetta á helgum degi. 17.
En Jesús svaradi þeim: fadir minn vinnur til
þess nú, og eg vinn og. 18. Vegna þess leit-
udust Gydingar enn heldur vid ad ráda hann
af dögum, af því hann ekki einúngis braut helg-
ina, heldur kalladi gud födur sinn, og gjørdi
sjálfan sig gudi jafnan.

19. Jesús svaradi þá og sagdi til þeirra:
sannlega, sannlega segi eg ydur: sonurinn get-
ur ekkert gjört af sjálfum sér, nema þad, sem
hann sér fødurinn gjøra, því þad sem hann
gjörir, þad gjörir og sonurinn sømuleidis. 20.
Því fadirinn elskar soninn og sýnir honum alt
þad, er hann sjálfur gjörir; og hann mun sýna
honum meiri verk en þessi, svo ydur mun furda.
21. Því ad eins og fadirinn upp vekur dauda
og lífgar, þannig lífgar og sonurinn þá, sem
hann vill. 22. Ekki dæmir fadirinn nokkurn,
heldur hefir hann falid syninum á hendur all-

an dóm, 23. svo að allir heiðri soninn, eins
og þeir heiðra föðurinn. Hver sem ekki heiðrar
soninn, sá heiðrar ekki föðurinn, sem sendi hann.
24. Sannlega, sannlega segi eg yður: hver sem
heyrir mitt orð og trúir þeim, sem mig sendi,
sá hefir eilíft líf og kemur ekki til dóms, held-
ur hefir stigið yfir frá dauðanum til lífsins.
25. Sannlega, sannlega segi eg yður: sá tími
mun koma og er þegar kominn, að hinir dauðu
munu heyra raust guðs sonar, og þeir, sem
heyra, munu lifa. 26. Því eins og faðirinn
hefir lífið í sjálfum sér, svo gaf hann og syn-
inum að hafa lífið í sjálfum sér, 27. og hann
hefir og gefið honum vald til að halda dóm, því
hann er mannsins son. 28. Undrizt ekki yfir
því, að tími mun koma, á hverjum allir þeir,
sem í gröfunum eru, munu heyra hans raust,
og þeir munu gánga út: 29. þeir, sem gott
hafa gjört, til upprisu lífsins, en þeir, sem ilt
hafa aðhafzt, til upprisu fordæmíngarinnar. 30.
Eg megna ekkert að gjöra af sjálfum mér; eg
dæmi, sem eg heyri, og minn dómur er réttvís,
því eg leita ekki míns vilja, heldur vilja föðurs-
ins, þess sem sendi mig. 31. Ef eg vitna um
sjálfan mig, þá er minn vitnisburður ekki sann-

ur. 32. Annar er, sem vitnar um mig, og
eg veit, að sá vitnisburður er sannur, sem
hann vitnar um mig. 33. Þér hafið
sent til Jóhannesar, og hann bar sann-
leikanum vitni. 34. En eg tek ekki vitnisburð
hjá mönnum, heldur tala eg þetta, svo að þér
frelsizt. 35. Jóhannes var logandi og skín-
andi ljós, en þér hafið að eins um stund vilj-
að gleðjast við hans birtu. 36. En eg hefi vitn-
isburð meiri en Jóhannesar: þau verk, sem
minn faðir fékk mér að leysa af hendi, einmitt
þau verk, sem eg gjöri, vitna um mig, að fað-
irinn hafi sent mig. 37. Og sjálfur faðirinn,
sem sendi mig, hann vitnar um mig. Hvorki
hafið þér nokkurn tíma heyrt hans rödd, né séð
hans ásýnd; 38. og þér hafið ekki í yður hans
orð varanlegt, þar eð þér trúið ekki þeim, sem
hann sendi. 39. Rannsakið ritningarnar, því
þar í hugsið þér að þér hafið eilíft líf, og þess-
ar eru það, sem vitna um mig, 40. og samt
viljið þér ekki koma til mín, svo þér hafið lífið.
41. Eg tek ekki heiður af mönnunum; 42. en
eg þekki yður, að þér hafið ekki guðs kærleika
í yður. 43. Eg kom í nafni míns föðurs og
þér takið þó ekki við mér. Ef einhver kæmi í

sínu eigin nafni, við honum munduð þér taka.
44. Hvernig getið þér trúað, þér, sem sækizt
eptir heiðri hver hjá öðrum, en leitið ekki heið-
urs hjá guði einum. 45. Ætlið ekki, að eg
muni ákæra yður hjá föðurnum; sá er, sem ákærir
yður, Móses, hverjum þér treystið. 46. Ef
að þér tryðuð Móses, þá tryðuð þér og mér,
því hann hefir skrifað um mig. En ef þér trú-
ið ekki hans bókum, hver von er þá, að þér
trúið mínum orðum?

## 6. Kapituli.

Jesús mettar fimm þúsundir manna; geingur á vatninu;
talar um þá fæðu, sem dugir til eilífs lífs.

1. Eptir þetta fór Jesús yfir um stöðuvatn-
ið Tiberias í Galilea, 2. og margt fólk fylgði
honum, því menn sáu þau teikn, er hann gjörði
á þeim sjúku. 3. En Jesús gekk upp á fjall-
ið og settist þar niður með sínum lærisveinum.
4. En þá voru páskar í nánd, hátíð Gyðinga.
5. Þegar Jesús litaðist nú um og sá, að fjöldi
fólks kom til hans, sagði hann við Filippus:
hvaðan kaupum vér brauð, svo að þessum nægi?
6. En hann sagði þetta til að reyna hann, því
sjálfur vissi hann, hvað hann ætlaði sér að gjöra.

7. Filippus svaradi honum: braud fyrir tvø
hundrud peninga duga þeim ekki, svo ad hver
einn fái litid eitt. 8. Þá sagdi Andrés, einn
af hans lærisveinum, bródir Péturs Símonar:
9. hér er eitt úngmenni, sem hefir fimm bygg-
braud og tvo smáfiska, en hvad er þad handa
svo mørgum? 10. En Jesús sagdi: látid fólk-
id setjast nidur. Í þeim stad var gras mikid.
Þá settust nidur karlmenn ad tølu nær fimm
þúsundir. 11. En Jesús tók braudin, og þeg-
ar hann hafdi blessad, fékk hann lærisveinunum,
en lærisveinarnir þeim, sem høfdu sezt nidur,
sømuleidis af fiskunum svo mikid sem þeir vildu,
12. En sem þeir voru mettir, segir hann vid
sína lærisveina: takid saman leifarnar, sem af-
gángs eru, svo ekkert spillist. 13. Þeir søfn-
udu þeim saman og fyltu tólf karfir med leif-
ar af þeim fimm byggbraudum, sem geingu af
hjá þeim, er neytt høfdu. 14. Þeir menn, sem
sáu þad teikn, er Jesús gjørdi, søgdu þá: þessi
er sannarlega sá spámadur, sem á ad koma í
heiminn. 15. Jesús, sem vissi, ad þeir mundu
koma og taka hann, til þess þeir gjørdu hann ad
konúngi, veik aptur afsídis einsamall upp á fjallid.
16. En er kvøld var komid, fóru lærisvein-

ar hans nidur ad vatninu og geingu á skipid
17. og fóru yfir vatnid til Kapernaum; þá var
þegar ordid dimt, og Jesús var ekki kominn til
þeirra. 18. En ylgja var á vatninu, því ved-
ur blés mikid. 19. Þegar þeir høfdu nú róid
hér um bil 25 edur 30 skeidrúm, sjá þeir Jes-
úm gángandi á vatninu og kominn nálægt skip-
inu, og urdu hræddir. 20. Hann yrti á þá
og sagdi: eg em þad, óttizt ekki 21. Þeir vildu
þá taka hann innbyrdis, og strax rann skipid
ad landi, þar sem þeir réru ad.

22. Daginn eptir, þar ed fólksfjøldinn, sem
hafdi stadid hinumegin vid vatnid, vissi ad ekkert
skip hafdi þar verid, nema þad eina, sem hans
lærisveinar høfdu geingid á, og ad Jesús hafdi
ekki farid á skipid med sínum lærisveinum, held-
ur ad lærisveinar hans høfdu farid einir; 23.
en þar komu ønnur skip frá Tiberias nálægt
þeim stad, hvar þeir átu braudin, eptir ad drott-
inn hafdi gjørt þakkir; 24. og þar ed fólkid
nú sá, ad hvorki var Jesús þar, né hans læri-
sveinar, gekk þad einnig á skipin og kom til
Kapernaum til ad leita ad Jesú. 25. Og sem
þeir fundu hann hinumegin vid vatnid, søgdu
þeir til hans: meistari, nær komstu hingad?

26. Jesús svaradi þeim og sagdi: sannlega,
sannlega segi eg ydur: þér leitid mín ekki, af
því þér sáud teiknin, heldur af því þér átud af
braudunum og urdud mettir. 27. Aflid ydur
ekki þeirrar fædu, sem eydist, heldur þeirrar fædu,
sem varir til eilífs lífs, hverja mannsins son-
ur mun gefa ydur, því þenna hefir gud, fadir-
inn, innsiglad. 28. Þeir sögdu þá til hans:
hvad eigum vér ad gjöra, svo vér vinnum verk
guds? 29. Jesús svaradi og sagdi til þeirra:
þad er guds verk, ad þér trúid á þann, sem
hann sendi. 30. Þá sögdu þeir til hans: hver
teikn gjörir þú, ad vér sjáum og trúum þér?
hvad vinnur þú? 31. Vorir fedur átu manna
í eydimörku, eins og skrifad er: hann gaf þeim
braud af himni ad eta. 32. Þá sagdi Jes-
ús til þeirra: sannlega, sannlega segi eg ydur:
ekki gaf Móses ydur braud af himni, en minn
fadir gefur ydur braud af himni, sem er
hid rétta; 33. því þetta guds braud er sá, sem
sté nidur af himni og gefur heiminum líf. 34.
Þá sögdu þeir til hans: herra, gef oss ætíd þetta
braud. 35. En Jesús sagdi til þeirra: eg em
lífsins braudid; sá, sem kemur til mín, mun
ekki verda húngradur, og þann mun aldrei þyrsta,

sem á mig trúir. 36. En eg hefi sagt ydur:
þér hafid séd mig og trúid þó ekki. 37. Allir,
sem fadir minn gefur mér, koma til mín, og
þann, sem til mín kemur, mun eg ekki út reka.
38. Því ad eg hefi nidur stigid af himni, ekki
til ad gjøra minn vilja, heldur vilja þess, sem
mig sendi. 39. En þad er vilji þess, sem mig
sendi, ad eg glati eingum af þeim, sem hann
gaf mér, heldur upp veki hann á efsta degi. 40.
Því þetta er vilji þess, sem mig sendi, ad hver,
sem sér soninn og trúir á hann, hafi eilíft líf,
og eg mun upp vekja hann á efsta degi. 41.
Þá møgludu Gydingar móti honum, af því hann
sagdi: eg em þad braud, sem kom nidur af himni,
42. og søgdu: er ekki þessi Jesús sonur Jó-
seps, hvers fødur og módur vér þekkjum? hvernig
segir hann þá, ad hann hafi stigid nidur af himni?
43. Jesús svaradi þeim og sagdi: nøldrid ekki
innbyrdis. 44. Einginn getur komid til mín, nema
fadirinn, sem sendi mig, dragi hann, og eg mun
upp vekja þann á efsta degi. 45. Þad er skrif-
ad í spámannabókunum: „þeir munu allir verda
af gudi uppfræddir"; hver sá sem heyrir fød-
urinn og lærir af honum, sá kemur til mín.
46. Ekki er þad svo ad skilja, sem nokkur hafi

séð föðurinn nema sá, sem er frá guði, hann
hefir séð föðurinn. 47. Sannlega, sannlega
segi eg yður: hver, sem á mig trúir, hefir ei-
líft líf. 48. Eg em lífsins brauð. 49. Feð-
ur yðar átu manna í eyðimörkinni og dóu.
50. Þetta er brauðið, það af himni niður stigna,
svo að maður neyti af því og ekki deyi. 51. Eg
em það lifanda brauð, sem kom niður af himni;
ef nokkur etur af þessu brauði, mun hann lifa
til eilífðar, og brauð, sem eg mun gefa, er mitt
hold, sem eg mun gefa heiminum til lífs. 52.
Þá þráttuðu Gyðingar innbyrðis og sögðu:
hvernig getur þessi gefið oss sitt hold að eta?
53. Því sagði Jesús til þeirra: sannlega, sann-
lega segi eg yður: ef þér etið ekki hold manns-
ins sonar og drekkið ekki hans blóð, hafið þér
ekki lífið í yður. 54. Hver sem etur mitt hold
og drekkur mitt blóð, sá hefir eilíft líf, og eg
mun upp vekja hann á efsta degi; 55. því hold
mitt er sannarlega fæða, og blóð mitt er sann-
arlega drykkur. 56. Sá sem etur mitt hold
og drekkur mitt blóð, sá er í mér og eg í hon-
um; 57. eins og sá lifandi faðir sendi mig, og
eg á föðurnum lífið að þakka, svo mun sá eiga
mér lífið að þakka, sem mig etur. 58. Þetta

er það brauð, sem komið er af himni, ekki sem
manna, er feður yðar átu, og dóu samt. Sá,
sem etur þetta brauð, mun lifa að eilífu. 59.
Þetta talaði Jesús í samkunduuni, þá hann
kendi í Kapernaum. 60. Margir af hans læri-
sveinum, sem heyrðu á, sögðu þá: þúng er þessi
ræða, hver getur hlýðt á hana? 61. En er
Jesús vissi með sjálfum sér, að hans lærisvein-
ar mögluðu um þetta, sagði hann: hneykslar yð-
ur þetta? 62. En ef þér sæuð þá mannsins
son upp stíga þángað, sem hann var áður? 63.
Andinn er það, sem lífgar, holdið gagnar til
einkis; þau orð, sem eg tala til yðar, eru andi
og líf. 64. En þeir eru nokkrir meðal yðar,
sem ekki trúa; því Jesús vissi frá uppháfi
hverjir þeir voru, sem ekki trúðu, og hver sá
var, sem mundi svíkja hann. 65. Og hann
sagði: vegna þess sagði eg yður: einginn getur
komið til mín nema honum sé það gefið af mín-
um föður. 66. Upp frá þessu fóru margir af
lærisveinum hans frá honum, og voru ekki fram-
ar með honum. 67. Jesús sagði því við þá
tólf; viljið þér einnig fara burt? 68. Símon
Pétur svaraði honum: herra, til hvers skulum
vér fara? 69. þú hefir orð eilífs lífs, og vér

höfum trúað og kannazt við, að þú ert sá hei-
lagi guðs. 70. Jesús sagði til þeirra: hefi
eg ekki útvalið yður tólf? og einn af yður er
djöfull. 71. En hann meinti Júdas Simons-
son frá Kariot, því hann varð síðan til að svíkja
hann, og var einn af þeim tólf.

## 7. Kapituli.

Þjóðin dæmir ýmislega um Jesúm á laufskálahátíð-
inni; Jesús kennir í musterinu og forsvarar lækningu
á sabbatsdegi; þeim, sem áttu að taka hann, fallast
hendur, þegar þeir heyra hann tala. Nikódemus for-
svarar Jesúm.

1. Eptir þetta ferðaðist Jesús um Galilea,
því hann vildi ekki vera í Júdea, af því Gyð-
ingar sátu um líf hans. 2. En hátíð Gyðinga,
sem kallast laufskálahátíð, var í nánd. 3. Þá
sögðu bræður hans til hans: far þú nú héðan
til Júdea, svo að þínir lærisveinar, sem þar eru
sjái þau verk, sem þú gjörir; 4. því einginn sá
gjörir nokkuð leynilega, sem vill verða víðfræg-
ur; sé það þín ætlan, þá sýndu þig sjálfan
heiminum; 5. því hans bræður trúðu ekki
heldur á hann. 6. Þá sagði Jesús til þeirra:
minn tími er enn ekki kominn, en yðar tími er
jafnan. 7. Heimurinn hefir ekki orsök til að

hata ydur, en mig hatar hann, af því eg vitna
um hann, ad hans verk séu vond. 8. Farid
þér og sækid þessa hátíd, eg fer ekki ad sinni
til þessarar hátídar, því minn tími er ekki
enn þá kominn. 9. Þetta taladi hann vid
þá, og var kyrr í Galilea. 10. En er bræd-
ur hans voru farnir, þá fór hann og sjálfur til
hátídarinnar, ekki opinberlega, heldur leynilega.
11. Þar fyrir leitudu Gydíngar hans á hátíd-
inni og søgdu: hvar er hann? 12. Og kurr
var mikill um hann medal fólksins; nokkrir
søgdu: hann er gódur madur; adrir søgdu: nei,
heldur tælir hann fólkid. 13. Þó taladi eing-
inn berlega um hann af ótta fyrir Gydíngum.
14. En er hátídin var hálfnud, gekk Jesús
í musterid og kendi. 15. Gydínga furdadi þad,
og þeir søgdu: hvernig veit þessi ritníngarnar,
hann, sem ekki hefir lært? 16. Jesús svaradi
þeim og sagdi: minn lærdómur er ekki minn,
heldur þess, sem mig sendi. 17. Ef sá er nokk-
ur, sem vill gjøra hans vilja, hann mun kom-
ast ad raun um, hvad lærdóminn áhrærir, hvort
hann er af gudi, edur eg tala af sjálfum mér.
18. Hver sem talar af sjálfum sér, sá leitar
eigin lofdýrdar, en sá sem leitar þeim heidurs,

sem sendi hann, sá er sannordur og prettalaus.
19. Gaf Móses ydur ekki løgin? og einginn
ydar heldur þó løgin. Hví leitizt þér vid ad
lífláta mig? 20. Múgurinn ansadi og sagdi:
þú ert vitlaus, hver leitast vid ad lífláta þig?
21. Jesús svaradi og sagdi þeim: eitt verk
gjørda eg, og ydur alla furdar á því. 22.
Móses gaf ydur umskurnina; þó er hún ekki
frá Mósi, heldur frá fedrunum; og þér um-
skerid manninn á sabbatsdegi. 23. Ef ad mad-
urinn medtekur umskurnina á sabbatsdegi, án þess
Mósis løg verdi yfirtrodin, hví reidizt þér þá
mér fyrir þad, ad eg gjørdi allan manninn heil-
an á sabbatsdegi? 24. Dæmid ekki eptir á-
sýndum, heldur dæmid réttan dóm. 25. Þá
søgdu nokkrir af Jerúsalems mønnum: er þessi
ekki sá, sem þeir leitast vid ad lífláta? 26. og
sjá, hann talar einardlega, og þeir segja ekkert
vid hann. Má ske høfdingjarnir med sanni hafi
feingid ad vita, ad þessi sé Kristur. 27. Vér
vitum þó, hvadan hann er; en þegar Kristur kemur,
veit einginn, hvadan hann er. 28. Þá kalladi Jes-
ús, þar sem hann kendi í musterinu og sagdi:
þér þekkid mig og vitid, hvadan eg em. Af
sjálfum mér em eg ekki kominn, heldur sendi

mig hinn sami (guð), hvern þér þekkið ekki.
29. Eg þekki hann, því eg er frá honum, og
hann sendi mig. 30. Vegna þessa leituðust
þeir við að grípa hann, þó lagði einginn á hann
hönd, því hans tími var enn ekki kominn. 31.
En margir af fólkinu trúðu á hann og sögðu:
þegar Kristur kemur, mun hann þá gjöra fleiri
jarteikn, en þessi hefir gjört?

32. Þegar Fariséarnir heyrðu, að fólkið var
þannig að þrætast á um hann, þá sendu þeir
og æðstu prestarnir þénara til að handtaka hann.
33. Þar fyrir sagði Jesús til þeirra: enn þá
er eg hjá yður lítinn tíma og fer svo til hans,
er mig sendi. 34. Þér munuð leita mín og
þér munuð ekki finna mig, og þér getið ekki
komizt þángað, sem eg er. 35. Þá sögðu Gyð-
íngar hver við annan: hvert mun þessi ætla að
fara, að vér ekki finnum hann? mun hann ætla
til þeirra, sem eru útdreifðir meðal Grikkja, og
kenna Grikkjum? 36. Hvaða tal er þetta, sem
hann segir: þér munuð leita mín og ekki finna,
og þér munuð ekki geta komizt þángað, sem eg
er? 37. En á hinum síðasta, þeim mikla degi
hátíðarinnar, gekk Jesús fram og kallaði segj-
andi: ef nokkurn þyrstir, þá komi sá til mín

og drekki. 38. Sá sem trúir á mig, af hans
kvidi munu, eins og ritníngin segir, lækir lif-
anda vatns fljóta. 39. En þetta sagdi hann
um þann anda, er þeir mundu medtaka, sem á
hann trúa, því enn þá var heilagur andi ekki,
af því Jesús var ekki enn þá vegsamlegur ord-
inn. 40. Þá sögdu margir af fólkinu, sem
heyrdu þessa rædu: þessi er sannarlega spá-
madurinn. 41. Adrir sögdu: þessi er Kristur;
en nokkrir sögdu: mun Kristur þá koma frá
Galilea? 42. Segir ekki ritníngin, ad af Da-
vids sædi og frá Betlehem, þeirri borg, hvar
Davíd var, muni Kristur koma? 43. Þannig
vard ágreiníngur um hann medal fólksins.
44. En nokkrir af þeim vildu grípa hann, og
þó lagdi einginn á hann hendur. 45. Þá komu
þénararnir til prestahöfdíngjanna og Faríseanna,
og þessir sögdu vid þá: því komud þér ekki
med hann? 46. Þénararnir svörudu: aldrei hefir
nokkur madur talad, sem þessi madur. 47.
Þá svörudu Faríseararnir: erud þér einnig af-
vega leiddir? 48. trúir nokkur af höfdíngjun-
um á hann, edur af Faríseum? 49. en þessi
múgur, sem ekki þekkir lögin, er bannsetjandi.
50. Nikódemus sá, sem kom til hans um nótt

og var einn af þeim, segir: 51. munu løg
vor dæma manninn, nema hann sé ádur yfir-
heyrdur, og rannsakad þad, sem hann gjørir?
52. Þeir svørudu og søgdu honum: ert þú líka
frá Galilea? rannsakadu og sjádu, ad spámad-
ur hefir aldrei komid í ljós úr Galilea. 53.
Og hver fór heim til sín.

## 8. Kapituli.

Jesús vill ekki fordæma hórkonuna; talar um sig, sína burtfør og sakleysi; átelur Gydinga fyrir þad þeir séu vondir og ólíkir Abraham.

1. (En Jesús fór til olíufjallsins, 2. og
snemma ad morgni kom hann aptur í muster-
id, og alt fólkid kom til hans, og hann settist
nidur og kendi því. 3. En þeir skriptlærdu og
Fariséar leiddu til hans konu, sem gripin var
í hórdómi, og létu hana standa mitt á medal
þeirra, og søgdu til hans: 4. meistari, þessi
kona er stadinn ad hórdómi, 5. en Móses baud
oss í løgunum, ad þess háttar konur skyldu
grýtast; hvad segir þú til þess? 6. En þetta
søgdu þeir til ad freista hans, svo þeir hefdu
eitthvad ad ákæra hann fyrir. Jesús laut þá
nidur og ritadi med fingrinum á jørdina. 7.
En þar ed þeir hættu ekki ad spyrja, rétti hann

sig upp og sagdi til þeirra: sá af ydur, sem er
syndlaus, kasti fyrstur steini á hana. 8. Svo
laut hann aptur og ritadi á jørdina. 9. En
er þeir heyrdu þetta og voru slegnir af þeirra
samvizku, geingu þeir burt hver eptir annan,
frá þeim ædstu til þeirra lægstu, svo Jesús
vard einn eptir og konan, sem stód þar. 10.
En er Jesús rétti sig upp og sá eingan nema
konuna, sagdi hann til hennar: kona, hvar eru
þeir, sem ákærdu þig? einginn fordæmdi þig?
hún svaradi: herra, einginn. 11. En Jesús
sagdi til hennar: ekki fordæmi eg þig heldur,
far þú hédan og syndga ekki hér eptir).

12. Í annad sinn taladi Jesús til þeirra
og sagdi: eg em heimsins ljós; hver, sem fylg-
ir mér, mun ekki gánga í myrkri, heldur hafa
lífsins ljós. 13. Þá søgdu Fariséar til hans:
þú vitnar um sjálfan þig, þinn vitnisburdur er
ekki sannur. 14. Jesús svaradi þeim og sagdi:
þó eg vitni um sjálfan mig, er minn vitnisburdur
sannur, því eg veit, hvadan eg kom og hvert
eg fer. 15. Þér dæmid eptir holdinu, eg dæmi
eingan, 16. en þó eg dæmi um mig, er minn
dómur réttur, því eg em ekki einn, heldur bædi
eg og fadirinn, sem sendi mig. 17. Þad er

og skrifad í ydar lögum, ad tveggja manna vitn-
isburdur sé sannur. 18. Eg em sá, sem vitna
um mig sjálfan; og fadirinn, sem sendi mig,
vitnar um mig. 19. Nú sögdu þeir vid hann:
hvar er fadir þinn? Jesús svaradi: hvorki
þekkid þér mig né födur minn; ef ad þér þekt-
ud mig, þá þektud þér og minn födur. 20.
Þessi ord taladi Jesús hjá fjárkistunni, þar
sem hann kendi í musterinu, og enginn lagdi
hönd á hann, því enn var ekki hans tími kom-
inn. 21. Þá sagdi Jesús aptur til þeirra: eg
fer burt og þér munud leita mín og deya í
ydar syndum. Þángad, sem eg fer, getid þér
ekki komizt. 22. Þá sögdu Gydíngar: mun
hann ætla ad deyda sjálfan sig, þar ed hann
segir: þángad, sem eg fer, getid þér ekki kom-
izt? 23. Og hann sagdi til þeirra: þér erud
nedan ad, eg em ofan ad; þér erud af þessum
heimi, eg em ekki af þessum heimi. 24. Þess
vegna sagda eg ydur, ad þér mundud deya í
ydar syndum; því ef þér trúid ekki, ad eg sé
ofan ad, munud þér deya í ydar syndum. 25.
Þeir sögdu þá vid hann: hver ertú? Jesús
svaradi þeim: einmitt þad, sem eg segi ydur.
26. Eg hefi margt um ydur ad segja og dæma;

en sá, sem sendi mig, er sannorður, og það sem
eg heyrði af honum, það tala eg til heimsins.
27. En þeir skildu ekki, að hann meinti fod-
urinn; 28. því sagði Jesús til þeirra; þegar þér
hefjið upp mannsins son, þá munduð þér þekkja,
að eg em það, og að eg gjøri ekkert af sjálf-
um mér, heldur eins og faðir minn kendi mér,
tala eg; 29. og sá, sem sendi mig, er með mér;
faðirinn lét mig ekki einan, því eg gjøri ætíð
það, sem honum þóknast.

30. Þegar hann talaði þetta, trúðu margir
á hann. 31. Jesús sagði þá til þeirra Gyð-
inga, sem á hann höfðu trúað: ef að þér hald-
ið støðugt við mitt orð, þá eruð þér sannar-
lega mínir lærisveinar. 32. Þér munuð þekkja
sannleikann, og sannleikurinn mun gjøra yður
frjálsa. 33. Þeir svøruðu honum: vér erum
Abrahams niðjar, og aldrei höfum vér verið
þrælar nokkurs manns, hvernig segir þú þá:
þér skuluð verða frjálsir? 34. Jesús svaraði
þeim: sannlega, sannlega segi eg yður: sá, sem
gjørir syndina, er syndarinnar þræll; 35. en
þrællinn er ekki ávalt í húsinu, sonurinn verð-
ur þar ætíð. 36. Ef að sonurinn gefur yður
þá frelsi, svo verið þér sannarlega frjálsir.

37. Eg veit, að þér eruð Abrahams niðjar, en
þér leitizt þó við að lífláta mig, af því mitt
orð fær ekki rúm hjá yður. 38. Eg tala það,
sem eg hefi séð hjá mínum föður, og þér gjör-
ið það, sem þér hafið séð hjá yðar föður. 39.
Þeir svöruðu og sögðu til hans: Abraham er
vor faðir. Jesús sagði til þeirra: ef að þér
væruð Abrahams börn, þá gjörðuð þér Abra-
hams verk. 40. En nú leitið þér eptir að
deyða mig, mann, sem hefi sagt yður sannleik-
ann, þann, sem eg heyrði af guði, þetta hefði
Abraham ekki gjört; þér gjörið verk yðar föð-
urs. 41. Þá sögðu þeir til hans: vér erum
ekki hórgetnir, vér höfum einn föður, nefnilega:
guð. 42. Þá sagði Jesús til þeirra: ef að
guð væri yðar faðir, þá elskuðuð þér mig, því
eg em út geinginn og kominn frá guði, og eg
em ekki kominn af sjálfum mér, heldur hefir
hann sent mig. 43. Hví skiljið þér ekki mál
mitt? af því þér getið ekki heyrt mitt orð. 44.
Þér eruð af föðurnum, fjandanum, og girnd-
unum yðar föðurs viljið þér hlýðnast. Hann var
manndrápari frá upphafi og var ekki staðfast-
ur í sannleikum, því sannleiki er ekki í honum;
þegar hann talar lýgi, talar hann af sínu eigin,

því hann er lygari og lýginnar faðir. 45. En
mér trúið þér ekki, af því eg tala sannleikann.
46. Hver af yður getur sannað upp á mig synd?
en eg ef tala sannleikann, hví trúið þér mér
ekki? 47. Sá sem er af guði, sá heyrir guðs
orð; vegna þess heyrið þér ekki, að þér eruð
ekki af guði. 48. Gyðingar svöruðu honum
og sögðu: segjum vér ekki rétt, að þú sért sam-
verskur og hafir djöful? 49. Jesús svaraði:
ekki hefi eg djöful, heldur heiðra eg föður minn,
en þér smáið mig. 50. Eg leita ekki míns
heiðurs; sá er, sem hans leitar og dæmir. 51.
Sannlega, sannlega segi eg yður: ef að nokk-
ur varðveitir mitt orð, sá skal ekki að eilífu sjá
dauðann. 52. Þá sögðu Gyðingar til hans:
nú vitum vér, að þú hefir djöful; Abraham er
dáinn og spámennirnir, og þú segir: ef nokkur
varðveitir mitt orð, sá mun að eilífu ekki smakka
dauðann. 53. Ertú meiri en en faðir vor
Abraham, sem er dáinn, og spámennirnir, sem
eru dánir? hvílíkan gjörir þú sjálfan þig? 54.
Jesús svaraði: ef eg vegsamaði sjálfan mig,
væri mín vegsemd ekkert. Faðirinn, sem þér
kallið yðar guð, hann er sá, sem vegsamar
mig; 55. og þér þekkið hann ekki, en eg þekki

hann, og ef eg segdi: eg þekki hann ekki, þá
væri eg lygari, eins og þér; en eg þekki hann
og geymi hans ord. 56. Abraham ydar fad-
ir gladdist í þeirri von, ad hann sæi minn dag
og sá hann og gladdist. 57. Þá sögdu Gyd-
ingar til hans: þú ert enn ekki fimtugur og
þú hefir séd Abraham? 58. Jesús sagdi til
þeirra: sannlega, sannlega segi eg ydur: ádur
en Abraham vard til, var eg. 59. Þeir tóku
þá upp steina til ad kasta á hann, en Jesús
faldi sig og fór út úr musterinu.

## 9. Kapituli.

Jesús gjörir þann sjáandi, sem blindur var fæddur.

1. Og á leidinni þadan sá hann mann, sem
var blindur borinn, 2. og hans lærisveinar
spurdu hann og sögdu: meistari, hvor hefir syndg-
ad, þessi, edur hans foreldrar, ad hann fædd-
ist blindur? 3. Jesús svaradi: hvorki syndgadi
þessi, ne hans foreldrar, heldur er þetta sked,
svo ad guds verk verdi á honum opinber. 4.
Mér ber ad vinna verk þess, er mig sendi,
medan dagur er; nóttin kemur, þá enginn get-
ur unnid. 5. Medan eg em i heiminum, er
eg heimsins ljós. 6. Þá hann hafdi þetta sagt,

hrækti hann á jørdina, gjørdi ledju úr hrákanum og reid henni á augu hins blinda; og hann sagdi til hans: fardu og þvodu af þér í lindinni Silóam (en Silóam þýdir: sendur); þá fór hann og þvodi sér og kom aptur heilskygn.
8. Þá søgdu nágrannarnir og þeir, sem høfdu séd hann ádur, þvi hann var ølmusumadur: er þessi ekki sá, sem setid hefir og bedid ølmusu? 9. Nokkrir søgdu: þessi er madurinn; en adrir: hann er honum líkur. Hann sagdi: eg em sá hinn sami. 10. Þá søgdu þeir til hans: hvernig fékkstu sjónina? 11. Hann svaradi og sagdi: madur nokkur, sem heitir Jesús, gjørdi ledju og reid á mín augu og sagdi vid mig: fardu til Silóam og þvodu þér. En er eg var þángad kominn og hafdi þvegid mér, fékk eg sjónina. 12. Þá søgdu þeir til hans: hvar er hann? Hann svaradi: eg veit ekki. 13. Þeir leiddu þá þann, sem ádur hafdi blindur verid, til Fariseanna; 14. en þá var helgur dagur, er Jesús bjó til ledjuna og upp lauk hans augum. 15. Þá spurdu og Farisearnir hann aptur: hvernig hann hefdi feingid sjónina; en hann sagdi til þeirra: hann lagdi ledju vid augu mín, eg þvodi mér og eg sé. 16. Þá søgdu

nokkrir af Fariseunum: þessi madur er ekki
frá gudi, fyrst hann heldur ekki hvildardaginn.
Adrir sögdu: hvernig getur syndari gjört því-
líkt teikn? Og þá greindi á innbyrdis. 17.
Þeir segja aptur til hins blinda: hvad segir þú
um hann, þar ed hann upp lauk þínum aug-
um? en hann sagdi: hann er spámadur. 18.
En Gydingar trúdu því ekki, ad madurinn hefdi
verid blindur og væri ordinn heilskygn, fyrr en
þeir kölludu foreldra þess, sem hafdi feingid
sjónina, 19. og þeir spurdu þá og sögdu: er
þessi, sem þér segid hafi verid fæddur blindur,
ykkar sonur? hvernig er hann nú ordinn sjá-
andi? 20. Hans foreldrar svörudu þeim og
sögdu: vid vitum, ad þessi madur er okkar son-
ur, og ad hann fæddist blindur. 21. En hvern-
ig hann hefir feingid sjónina, vitum vid ekki,
og hver hans augum hefir upp lokid, þad vit-
um vid ekki heldur; hann sjálfur er fulltida
madur, spyrjid hann sjálfan. 22. Þetta sögdu
foreldrar hans, vegna þess þeir óttudust Gyd-
inga, af því nú höfdu Gydingar samid med sér,
ad ef nokkur madur vidurkendi, ad hann væri
Kristur, skyldi sá hinn sami rekast úr samkund-
unni. 23. Þess vegna sögdu hans foreldrar:

hann er fulltída, spyrjid hann sjálfan. 24. Þá
kölludu þeir fyrir aptur þann mann, sem hafdi
verid blindur, og sögdu til hans: gef þú gudi
dýrdina; vér vitum, ad þessi madur er synd-
ari. 25. Þá svaradi hann og sagdi: hvort hann
er syndari, veit eg ekki; eitt veit eg, ad eg, sem
var blindur, hefi nú sjónina. 26. En þeir
sögdu til hans aptur: hvad gjördi hann vid þig?
hvernig lauk hann upp þínum augum? 27.
Hann svaradi þeim: eg hefi þegar sagt ydur þad,
og þér gáfud því ekki gaum, hvers vegna viljid
þér heyra þad aptur? viljid þér og verda hans
lærisveinar? 28. Þá atyrtu þeir hann og sögdu:
þú ert hans lærisveinn, en vér erum Mósis læri-
sveinar. 29. Vér vitum, ad gud hefir talad
vid Móses, en um þenna vitum vér ekki, hvad-
an hann er. 30. Madurinn svaradi og sagdi
þeim: þad er undarlegt, ad þér vitid ekki, hvad-
an hann er, og hann lauk upp mínum augum.
31. Vér vitum þó, ad gud heyrir ekki syndara,
en ef nokkur er gudrækinn og gjörir hans vilja,
þann heyrir hann. 32. Aldrei hefir þad heyrzt,
ad nokkur hafi opnad augu þess, sem var fædd-
ur blindur. 33. Væri þessi ekki frá gudi, þá
gæti hann ekkert þvílíkt gjört. 34. Þá svör-

udu þeir og sögdu til hans: þú ert allur fædd-
ur í synd, og þú kennir oss? og þeir ráku hann
út. 35. Jesús heyrdi, ad þeir hefdu rekid hann
út, og er hann fann hann, sagdi Jesús vid
hann: trúir þú á guds son? 36. Hann svar-
adi og sagdi: hver er sá, herra, ad eg geti á
hann trúad? 37. En Jesús sagdi til hans:
þú hefir séd hann, og sá sem vid þig talar,
hann er sá hinn sami. 38. En hann sagdi:
eg trúi, herra, og féll fram fyrir honum. 39.
Og Jesús sagdi: til dóms er eg kominn í
þenna heim, ad þeir, sem ekki sjá, verdi sjáandi,
og þeir, sem sjá, verdi blindir. 40. Þetta heyrdu
þeir af Faríseum, sem hjá honum voru, og sögdu
vid hann: erum vér þá og blindir? 41. Jes-
ús sagdi til þeirra: ef ad þér værud blindir,
hefdud þér ekki synd, en nú segid þér: vér sjá-
um, þar fyrir vidvarir ydar synd.

## 10. Kapituli.

Jesús kallar sig dyr á saudahúsi og hirdir; á tal vid Gydinga á vígsluhátídinni.

1. Sannlega, sannlega segi eg ydur: hver sem
ekki geingur um dyrnar inn í saudahúsid, held-
ur fer inn annarstadar, sá er þjófur og ræn-

ingi. 2. En sá sem geingur inn um dyrnar,
sá er hirdir saudanna; 3. dyravörðurinn lýk-
ur upp fyrir honum, og saudirnir þekkja hans
raust, og hann kallar sína saudi með nafni og
fer út með þá. 4. Og eptir að hann hef-
ir látið út sína saudi, geingur hann fyrir
þeim og saudirnir fylgja honum, af því þeir
þekkja hans raust; en ókunnugum fylgja þeir
ekki, 5. heldur hlaupa frá honum, af því þeir
þekkja ekki ókunnugra raust. 6. Þessa eptirlík-
ingu sagði Jesús til þeirra, en þeir skildu ekki,
hvað það var, sem hann talaði til þeirra. 7.
Þess vegna sagði Jesús aptur til þeirra: sann-
lega, sannlega segi eg yður: eg em dyr saud-
anna. 8. Allir, sem komu á undan mér, eru
þjófar og ræníngjar, en saudirnir gegndu þeim
ekki. 9. Eg em dyrnar; ef nokkur geingur inn um
mig, sá mun frelsast, og hann mun gánga inn og
gánga út og fá fóður. 10. Þjófurinn kemur ekki
til annars en að stela, drepa og skemma. Eg em
kominn til þess, að þeir hafi líf og nægtir.
11. Eg em góði hirdirinn; sá góði hirdir gef-
ur líf sitt út fyrir saudina; 12. en leigulið-
inn og sá sem ekki er hirdir og á ekki saudina,
hann sér úlfinn koma og yfirgefur saudina og

flýr, og úlfurinn gripur þá og tvistrar sauð-
unum, 13. en leiguliðinn flýr, af því hann er
leiguliði og hirðir ekki um sauðina. 14. Eg
em góði hirðirinn, eg þekki mína, og mínir
þekkja mig, eins og eg þekki föðurinn og faðð-
irinn þekkir mig; 15. og eg gef út lífið fyrir
sauðina. 16. Eg hefi aðra sauði, sem ekki eru
af þessu sauðahúsi, þá byrjar mér og að leiða,
og þeir munu heyra mína raust, og þar mun
verða ein hjörð og einn hirðir. 17. Þess
vegna elskar faðirinn mig, að eg læt mitt líf,
svo að eg taki það aptur. 18. Einginn tekur
það af mér, heldur læt eg það sjálfviljuglega.
Eg hefi vald til að láta það og vald til að taka
það aptur. Þetta boðorð hefi eg meðtekið af
mínum föður. 19. Af þessum orðum varð
aptur ágreiníngur millum Gyðinga. 20. Marg-
ir af þeim sögðu: hann hefir djöful og er óð-
ur, hví hlýðið þér á hann? 21. Aðrir sögðu:
þessi orð eru ekki djöfulóðs manns orð, mun
djöfull geta opnað augu blindra?

22. En musteris-vígsluhátíðin var haldin í
Jerúsalem, og þá var vetur. 23. Og Jesús
var á gángi í musterinu í forbyrgi Salómons.
24. Þá flyktust Gyðingar að honum og sögðu:

hversu lengi ætlar þú að halda sálu vorri
i efa? ef þú ert Kristur, þá segðu oss það ein-
arðlega. 25. Jesús svaraði þeim: eg hefi
sagt yður það, en þér trúið ekki. Þau verk,
sem eg gjöri í míns föðurs nafni, þau vitna
um mig: 26. en þér trúið ekki, því þér eruð
ekki af mínum sauðum. 27. Eins og eg sagða
yður, þekkja mínir sauðir mína raust, og eg
þekki þá, og þeir fylgja mér, 28. og eg gef
þeim eilíft líf, og þeir skulu aldrei að eilífu
týnast, einginn skal slíta þá úr minni hendi.
29. Faðir minn, sem hefir gefið mér þá, er
meiri en allir, og einginn getur slitið þá úr
hendi míns föðurs. 30. Eg og faðirinn, við
erum eitt. 31. Gyðingar tóku þá upp aptur
steina til að grýta hann. 32. Jesús sagði
við þá: mörg góðverk sýnda eg yður frá mín-
um föður, fyrir hvert af þessum verkum grýt-
ið þér mig? 33. Gyðingar svörudu honum
og sögðu: vér grýtum þig ekki fyrir gott verk,
heldur fyrir guðlast og fyrir það að þú, sem
ert maður, gjörir sjálfan þig að guði. 34.
Jesús svaraði þeim: er ekki skrifað í yðar lög-
um: „eg hefi sagt: þér eruð guðir". 35. Ef
(ritningin) kallar þá guði, til hverra guðs orð

skedi og ritníngin getur ekki raskazt, 36. megid
þér þá segja vid þann, sem fadirinn vígdi og
sendi í heiminn: „þú gudlastar", af því eg sagdi:
eg em sonur guds? 37. Ef eg gjöri ekki verk
míns födurs, þá trúid mér ekki. 38. En ef
eg gjöri þau, þó þér ekki viljid trúa mér, þá
trúid samt verkunum, svo þér þekkid og sann-
færizt um, ad fadirinn er í mér og eg í föd-
urnum. 39. Þá leitudust þeir vid aptur ad
taka hann, 40. en hann gekk þeim úr greipum
og fór aptur yfir um Jórdan, til þess stadar,
hvar Jóhannes fyrst skírdi, og var þar. 41.
Og margir komu til hans og sögdu: Jóhann-
es gjördi ad sönnu ekkert jarteikn, en alt hvad
Jóhannes sagdi um þenna, er satt. 42. Og
margir trúdu þar á hann.

## 11. Kapituli.

Jesús uppvekur Lazarus; Kaifas rædur til ad deyda hann; Jesús fordar sér.

1. Madur nokkur, ad nafni Lazarus, lá
veikur, hann var frá Betanía, úr þorpi María
og Mortu systur hennar. 2. (En María var
sú, sem smurdi drottinn med smyrslum og þerr-
adi fætur hans med hárlokkum sínum). 3.

útbreidist; Barnabas og Sál ferdast og taka Markús med sér.

1. Á þeim sama tíma lagdi Heródes konúngur hendur á nokkra af søfnudinum til ad misþyrma þeim. 2. Þannig lét hann drepa Jakob, bródur Jóhannesar, med sverdi, 3. og er hann sá, ad þetta gedjadist Gydíngum vel, hélt hann áfram og lét einninn grípa Pétur, en þad var um daga hinna ósýrdu braudanna. 4. Nú sem hann hafdi fángad hann, lét hann setja hann í myrkvastofu, og afhenti hann sextán strídsmønnum, er til skiptis, fjórir og fjórir í senn, skyldu gæta hans, og ætladi sér eptir páskana, ad framselja hann fólkinu. 5. Pétur var þannig geymdur í myrkvastofu, en sofnudurinn bad án afláts fyrir honum til guds. 6. Nóttina ádur en Heródes ætladi ad láta leida hann fram, svaf Pétur milli tveggja strídsmanna, bundinn med tveimur vidjum, og vardmenn úti fyrir dyrunum gættu myrkvastofunnar. 7. En sjá, þá stód eingill drottins hjá honum, og ljós leyptradi um húsid; hann laust á sídu Péturs, vakti hann og sagdi: stattú fljótt upp; þá féllu vidjurnar af høndum hans. 8. Sídan sagdi eingillinn til hans: belta þú þig, og bitt á þig skó

þína. Hann gjørdi svo. Eingillinn sagdi enn fremur: kasta yfir þig skikkju þinni og fylg mér. 9. Hann gekk út og fylgdi honum, en ekki vissi hann, ad þetta, sem eingillinn gjørdi, væri svo í raun og veru, heldur meinti hann sig sjá sýn. 10. Þá þeir høfdu geingid í gegnum hid fyrsta og annad vardhald, komu þeir til járnhlidsins, er liggur til borgarinnar, og lauk þad sér sjálft upp fyrir þeim. Og þá þeir voru komnir út um þad, geingu þeir áfram um eitt stræti, og alt í einu skildi eingillinn vid hann. 11. Þegar Pétur kom til sjálfs síns, sagdi hann: nú veit eg saunlega, ad drottinn hefir sent sinn eingil og hrifid mig úr høndum Heródesar og frá allri ofsókn Gydinga-lýds. 12. En sem hann var búinn ad koma þessu fyrir sig, gekk hann ad húsi Maríu, módur Jóhannesar, er kallast Markús. Þar var fjølmenni fyrir, sem hafdi safnazt þángad og voru á bæn. 13. Pétur drap á dyrahurdina, og stúlka gekk fram ad nafni Róde, til ad hlusta eptir; 14. en er hún þekti málróm Péturs, vard fognudurinn svo mikill, ad hún lauk ekki upp, heldur hljóp inn og sagdi, ad Pétur stædi úti. 15. Þeir søgdu til hennar: þú ert

frávita. En hún stóð fast á því, að svo væri. Þá sögðu þeir: það er þá hans eingill. 16. Pétur lét ekki af að berja að dyrum, og er þeir luku upp og sáu hann, urðu þeir frá sér. 17. Hann benti þeim með hendinni, að þeir þegðu, og sagði þeim ítarlega frá, hverninn drottinn hefði útleidt sig úr myrkvastofunni, bað þá líka að kunngjøra þetta Jakob og hinum bræðrunum, en fór sjálfur þaðan og í annan stað.

18. Þegar dagaði, kom ekki lítið fát á stríðsmennina, hvað af Pétri væri orðið. 19. En er Heródes hafði leitað hans og fann hann ekki, lét hann rannsókn gánga yfir varðmennina og bauð að aflífa þá, fór síðan burt úr Júdea til Sesarea, hvar hann settist um kyrt; 20. því honum var gramt í skapi við Týrus og Sídónsmenn; en þeim kom saman um að gjøra út sendimenn til hans, feingu svo í fylgi með sér Blasíus, konúngsins stallara, og báðust friðar, af því land þeirra fékk vistir frá (löndum) konúngsins. 21. Á tilteknum degi klæddist Heródes konúngs skrúða, settist í hásæti og hélt ræðu til þeirra. 22. Almúginn hrópaði þá upp: guðs rødd er þetta, en ekki

manns. 23 Jafnsnart sló eingill drottins hann, søkum þess hann gaf ekki gudi dýrdina, var uppetinn af ormum og dó.

24. En guds ord útbreiddist og efldist. 25. Barnabas og Sál snéru aptur frá Jerúsalem, ad aflokum sinu erindi, og tóku med sér Jóhannes, ad vidurnefni Markús.

## 13. Kapituli.

Barnabas og Sál fá køllun ad kenna heidingjum; Markús yfirgefur þá; Páll predikar i Pisidia; Gydingar verda uppvægir; Páll og Barnabas fara til Ikonia.

1. I søfnudinum i Antiokkia voru ekki allfáir spámenn og lærifedur, svo sem Barnabas, Símon, ad auknefni Níger, Lúsíus frá Sýrene, Manaen, samfóstri Heródesar fjórdúngshøfdíngja, og Sál. 2. Eitt sinn er þeir þjónudu drottni og føstudu, sagdi heilagur andi: takid frá handa mér Barnabas og Sál, til þess verks, sem eg hefi þeim ætlad. 3. Þeir føstudu þá og bádust fyrir, løgdu hendur yfir þá, og létu þá svo fara. 4. Þessir, sem af heiløgum anda voru útsendir, fóru til Selevsía og sigldu þadan til Sýprus. 5. En medan þeir voru i Salamis, bodudu þeir guds erindi i

samkundnhúsum Gydinga. Jóhannes høfdu þeir fyrir medhjálpara. 6. En sem þeir fóru um alla eyuna til Pafus, fundu þeir þar tofra-mann nokkurn, falsspámann, Gydinga-kyns, ad nafni Bar-Jesús; 7. hann var med land-stjórnaranum Serginsi Páli, manni hyggnum, hver ed baud til sín Barnabasi og Sáli, og óskadi ad heyra guds ord. 8. Þá stód móti þeim Elimas, tofravitringurinn (því svo þýdir nafn þetta), hann reyndi til ad snúa landstjórn-aranum frá trúnni. 9. En Sál, hver ed og hét Páll, vard fullur af heilogum anda, hvesti á hann augnu og sagdi: 10. ó þú djøfuls son-ur, fullur alls fals og flárædis, óvinur allrar réttvísi, lætur þú aldrei af ad rángsnúa rétt-um vegum drottins? 11. Vit nú, ad hønd drott-ins skal hitta þig, og blindur skaltú verda og ekki sjá sól um tíma. Jafnsnart féll yfir hann þoka og myrkur, svo ad hann ráfadi um kríng, og leitadi einhvers, er leiddi hann. 12. Þegar landstjórnarinn leit þenna atburd, trúdi hann og undradist kenningu drottins.

13. Páll og þeir, sem med honum voru, sigldu nú frá Pafus, og komu til Perge í Pam-filiu, utan Jóhannes, hann skildi vid þá og

snéri aptur til Jerúsalem. 14. Hinir héldu á-
fram frá Perge, og komu til í Antiokkía í Pisidía-
landi, geingu inn í samkunduhúsid á hvíldardegi
og settust nidur. 15. En eptir ad lesid hafdi verid í
lögmálinu og spámönnunum, sendu samkundu-
forstjórarnir til þeirra og létu segja þeim: góð-
ir menn og brædur, ef þér hafid nokkud ad
mæla til uppbyggingar fólkinu, þá talid. 16.
Páll stód þá upp og, eptir ad hafa bedid sér
hljóds med hendinni, ræddi svo: þér, Israels-
menn, og þér, sem gud óttizt, heyrid. 17.
Gud þessa fólks útvaldi fedur vora og efldi
fólkid, medan þad var útlent í Egyptalandi;
þadan útleiddi hann þad med upplyptum arm-
legg, 18. og annadist í eydimörkinni nærri fjöru-
tíu ár. 19. Sídan afmádi hann sjö þjódir í
Kanaan, og skipti med þeim þeirra landi. 20.
Eptir þad, um nærri því fjögur hundrud og
fimtíu ár, gaf hann þeim dómara, alt til Sa-
múels spámanns. 21. Þá beiddust þeir kon-
úngs, og gud gaf þeim Sál Kisson, mann af
Benjamíns ætt, í fjörutíu ár. 22. En er hann
hafdi felt hann, hóf hann Davíd þeim til kon-
úngs, um hvern hann þar hjá vitnadi: „eg hefi
fundid Jesseson, sem mér gedjast, og fram-

kvæma mun allan minn vilja". 23. Af þessa
manns afspreingi lét guð, eptir sínu fyrirheiti,
koma Israels frelsara Jesúm, 24. og rétt á
undan hans komu boðaði Jóhannes iðrunar-
skírn öllum Israelslýð. 25. En er Jóhannes
hafði endað sitt skeið, sagði hann: Eg em ekki sá,
sem þið haldið, heldur sjáið, sá kemur eptir
mig, hvers skóþveingi eg em ekki verðugur að
leysa. 26. Góðir menn og bræður, þér nið-
jar Abrahams, og hver einn yðar á meðal, sem
óttast guð, yður er sent orð þessa hjálpræðis;
27. því Jerúsalems borgarmenn og þeirra höfð-
íngjar hafa með vanþekkingu sinni á honum og
spámannanna skýru orðum, sem hveru helgan dag
eru lesin, og með því að fordæma hann, ollað
því, að þau rættust. 28. Því jafnvel þótt þeir
einga dauðasök fyndi, kröfðu þeir samt af Pi-
latusi, að hann yrði líflátinn. 29. Eptir að
þeir þannig höfðu uppfylt alt, hvað um hann var
ritað, var hann tekinn niður af trénu og lagð-
ur í gröf, 30. en guð reisti hann frá dauðum,
31. svo hann sást marga daga af þeim, sem
höfðu farið með honum úr Galilea upp til
Jerúsalem, hverjir að eru vottar hans til fólks-
ins, 32. og vér berum yður þessa gleðifregn

um fyrirheitid, sem skedi til fedranna, ad gud
er búinn ad efna þad vid oss, børn þeirra, 33.
med því ad láta Jesúm upprísa, eins og skrif-
ad er í sálminum: „þú ert minn sonur, í dag
hefi eg þig getid". 34. En ad hann hafi reist
hann frá daudum, sem aldrei framar skyldi hverfa
til rotnunar, þar um taladi hann þanninn:
„eg mun efna vid ydur þann heilaga sáttmála,
sem eg gjørdi vid Davíd"; 35. hvers vegna
hann segir á ødrum stad: „þú munt ekki leyfa,
ad þinn heilagi kenni rotnunar". 36. Nú er
Davíd, eptir ad hafa þjónad ad guds tilgángi
sína lífstid, dáinn og lagdur hjá fedrum sínum
og kendi rotnunar; 37. en sá, hvern gud upp-
reisti, hann kendi ekki rotnunar. 38. Því sé
ydur vitanlegt, gódir menn og brædur, ad hans
vegna bodast ydur synda fyrirgefning, 39. og
þad, sem þér eptir Mósis løgmáli ekki gátud
feingid lausn frá, vid þad alt skulud þér, hver
og einn, sem á hann trúid, kvittir verda hans
vegna. 40. Sjáid því til, ad ekki rætist á
ydur ummæli spámannanna: „gefid gætur ad,
þér smánarar, 41. undrizt og verdid ad
eingu; því gjørning mun eg gjøra á ydar
døgum, gjørning, hverjum þér ekki munud

trúa, þó einhver segdi ydur hann". 42. Þegar þeir geingu út, bádu menn þá ad tala sama erindi næsta helgan dag, 43. og er samkoman skildist ad, fylgdu margir Gydingar og gudrækn-ir menn, er til Gydinga trúar høfdu snúizt, Páli og Barnabasi, sem med umtølum sinum hvottu þá til ad halda sér føstum vid guds nád.

44. Helgina næst eptir kom næstum gjorvoll borgin saman til ad heyra guds ord. 45. En er Gydingar litu mannmergdina, fyltust þeir vandlætingar og tøludu med mótmælum og last-yrdum gegn því, sem Páll kendi. 46. Páll og Barnabas sogdu þá einardlega: Guds ord hlaut fyrst ad berast upp fyrir ydur, en þar þér burtskúfid því og metid ydur sjálfa ekki verduga eilífs lífs, sjáid, þá snúum vér oss til heidinna manna, 47. því svo hefir drottinn bodid oss: „Eg hefi sett þig til ljóss heidnum þjódum, ad þú sért til hjálprædis til jardarinnar yztu endimarka". 48. Þegar heidingjarnir heyrdu þetta, glodduft þeir og vegsømudu ord drottins, og svo margir, sem til eilífs lífs voru ætladir, urdu trúadir. 49. Nú útbreiddist ord drottins um alt bygdarlagid; 50. en Gydingar æstu upp málsmetandi konur, sem tekid høfdu

Gydínga trú, og fyrirmenn borgarinnar, og voktu ofsókn gegn Páli og Barnabasi, og ráku þá burt úr sínu héradi. 51. Þeir hristu þá duptid af fótum sér á þá, og fóru til Ikonia; 52. en lærisveinarnir fyltust fognudi og heilogum anda.

## 14. Kapituli.

Páll og Barnabas kenna í Ikonia og Lystra; Páll læknar haltan mann; þeir eru haldnir vera gudir; Páll er grýttur, en kemst til Derbe. Þeir Barnabas snúa aptur til Antiokkia.

1. Þad skedi í Ikoniaborg, þá þeir ásamt geingu inn í samkunduhús, ad þeir kendu svo, ad mikill fjoldi Gydínga og Grikkja urdu trúadir. 2. En þverlyndir Gydíngar risu á móti og spiltu hugarþeli heidíngjanna vid brædurna. 3. Samt dvoldu þeir þar lángan tíma og prédikudu skorulega í drottni, hver ed veitti medvitni ordi sinnar nádar og lét jarteiknir og stórmerki ske af þeim. 4. Tvískiptist þá borgarmúgurinn svo, ad nokkrir héldu med Gydíngum, en adrir med postulunum. 5. En er þessir urdu varir vid, ad hugur til heidíngja og Gydínga, sem og yfirmanna þeirra, hneigdist til ad smána þá og grýta, 6. flúdu þeir burt til borga Lýka-

oníalands, Lystra og Derbe, samt héradsins
í kring, 7. og bodudu þar nádarbodskapinn.
8. Í Lystra var madur fóthrumur, hver ed sat,
af því hann var haltur frá módurlífi og hafdi
aldrei getad geingid. 9. Hann hlustadi á rædu
Páls, og er þessi festi auga á honum, og merkti
trú hans, ad sér yrdi lækningar audid, sagdi
hann med hárri raustu: 10. stattú uppréttur á
þína fætur; og hann stökk upp og gekk. 11.
Þegar múgurinn sá, hvad Páll gjørdi, hóf
hann sína raust og sagdi á lýkaónisku: gudir-
nir eru í manna líki nidurstignir til vor. 12.
Barnabas nefndu þeir Seif, en Pál Hermes,
af því hann frambar ordid; 13. en prestur
Seifs, hvers hof stód fyrir framan borgina,
kom med naut og kransa til dyranna og vildi
fórnfæra ásamt med fólkinu. 14. Þegar post-
ularnir, Barnabas og Páll, feingu þetta ad
heyra, sundurrifu þeir klædi sín og stukku fram
í mannþraungina, kølludu og søgdu: 15. Gódir
menn, hví gjorid þér slíkt? Vér erum menn breysk-
ir, eins og þér, en bodum ydur þann fagnad-
arsid, ad þér snúizt frá þessum fánýtu gudum
til lifanda guds, hver ed gjört hefir himin,
jørd og sjó, og alt hvad í þeim er; 16. sá ed

um fyrirfarandi aldir hefir lidid, ad sérhver þjód
geingi sinn sjálfvalda feril, 17. þó hann aldrei
hafi látid sig án vitnisburdar, þar ed hann
hvervetna gjordi ydur gott, veitti regn af himn-
um og frjóssamar árstídir, og mettadi ydur med
fædu og fögnudi. 18. Ad svo mæltu gátu
þeir naumast stilt fólkid, ad þad færdi þeim
ekki fórnir. 19. Sidan komu frá Antiokkia og
Ikonia Gydingar, þeir er feingu lýdinn á sitt
mál, svo hann þeytti steinum á Pál og dró
hann út úr borginni og ætladi hann daudan
vera. 20. En er lærisveinarnir þyrptust kring-
um hann, stód hann upp og gekk í borgina.
Um morguninn eptir fór hann med Barna-
basi til Derbe.

21. Og sem þeir höfdu bodad gudspjallid í
þeirri borg og feingu þar marga lærisveina,
snéru þeir aptur til Lystra, Ikonia og Anti-
okkia, 22. styrktu sálir lærisveinanna ogámintu
þá ad standa stodugt í trúnni, og ad oss byrj-
adi fyrir margfaldar þrautir ad komast í guds
ríki. 23. Oldúnga letu þeir hvervetna útvelja
i sofnudunum, báduſt svo fyrir og fostudu,
og fólu þá sídan þeim drottni, vid hvers trú
þeir hofdu tekid. 24. Þá þeir hofdu yfirfarid

Pisidia, komu þeir til Pamfilía, 25. og kunngjørdu ordid í Perge; 26. svo fóru þeir nidur til Attalia og sigldu þadan til Antiokkia, hvadan þeir med árunn guds fulltingis høfdu geingid í þad verk, sem þeir nú voru búnir ad afljúka. 27. Þegar þeir voru þángad komnir, kølludu þeir søfnudinn saman og søgdu frá, hvad gud hefdi framkvæmt fyrir þeirra hønd, og ad hann hefdi opnad heidingjunum dyr trúarinnar, 28. og dvøldu ekki allstutta tíd hjá lærisveinunum.

## 15. Kapituli.

Páll og Barnabas sendast til Jerúsalem til ad spyrja, hvort kristnir þyrstu ad halda Mósis løgmál, og fá svar; þeir koma til Antiokkia aptur ásamt Júdasi og Silasi; Barnabas og Páll skilja.

1. Nú komu nokkrir ofan frá Júdea, sem kendu brædrunum svo: ef þér ekki umskerizt ad sid Mósis, þá getid þér ekki ordid hólpnir. 2. Þegar úr þessu vard ekki lítil misklíd og þrætni milli Páls og Barnabasar og þeirra, var þad afrádid, ad Páll og Barnabas og nokkrir adrir af hinum færu til postulanna og øldúnganna upp til Jerúsalem, áhrærandi þenna

ágreiníng. 3. Söfnudurinn fylgdi þeim á veg.
Sídan ferdudust þeir um Fonisía og Samaría
lönd og sögdu frá sídaskiptum heidíngjanna,
hvad ed olli mikils fagnadar öllum brædrun-
um. 4. En þegar þeir komu til Jerúsalem,
var þeim vel tekid af söfnudinum og postulun-
um og öldúngunum, hverjum þeir og intu,
hversu miklu gud hefdi til leidar komid fyrir
þeirra umsýslun. 5. En nokkrir trúadir af Farí-
seanna flokki risu þá upp, og sögdu: ekki má
annad, en ad þeir umskerist, og þeim sé tilhald-
id ad halda Mósis lög.

6. Þá söfnudust postularnir og öldúngarnir
saman til ad líta á þetta mál. 7. Eptir lánga
umrædu stód Pétur upp og mælti: Gódir menn
og brædur, þér vitid, ad gud fyrir laungu hef-
ir hagad þvi svo, ad eg á medal vor yrdi val-
inn til þess, ad heidíngjar skyldu fyrir minn
munn heyra nádarbodskapinn og trúa; 8. og
ad gud, sá ed allra hjörtu þekkir, vitnadi þá
þeim í vil, gefandi þeim heilagan anda, eins og
oss, 9. og gjördi eingan greinarmun vor og
þeirra, þar hann hreinsadi med trúnni þeirra
hjörtu. 10. Hvi freistid þér þá guds, med
því ad leggja þad ok á lærisveinanna háls, er

hvorki fedur vorir né vér megnudum ad bera?
11. Vér trúum þó því, ad vér verdum hólpn-
ir fyrir nád drottins Jesú, eins og þeir. 12.
Nú þagnadi múgurinn, og hlustadi á frásogu
Barnabasar og Páls um þad, hversu mikil
tákn og stórmerki gud hefdi látid þá fram-
kvæma medal heidinna þjóda. 13. Eptir ad
þeir voru þagnadir, tók Jakob til máls og sagdi:
14. Gódir menn og brædur, heyrid mig. Si-
mon hefir frá skýrt, hverninn gudi þókknadist í
fyrstu ad útvelja af heidingjum fólk til sinnar
vidurkenningar, 15. og þessu samhljóda um-
mæli spámannanna, því svo stendur skrifad: 16.
„Eptir þetta mun eg koma aptur og endur-
byggja þá føllnu tjaldbúd Davids; þad, sem
hrunid er af henni, vil eg uppbyggja og reisa
hana vid aptur, 17. svo ad hinir adrir menn leiti
drottins, og allar þær þjódir, yfir hverjum mitt
nafn nefnist". 18. Þetta segir gud, sá ed hefir
framkvæmt þetta. 19. Því álykta eg, ad ekki skuli
íþýngja þeim, er frá heidni snúast til guds;
20. heldur skrifa þeim til, ad þeir haldi sér
frá allri flekkan, af skurdgodum, og frá frillu-
lifi og frá køfnudu og frá blódi. 21. Því
frá fornri tíd hefir Móses haft sína prédikara

i hverri borg, og er lesinn i samkundunum alla helgidaga.

22. Þá leizt það postulunum og öldúngunum og öllum söfnudinum, að útvelja menn af sinni álfu og senda þá með Páli og Barnabasi til Antiokkía, Júdas, kalladan Barsabas, og Silas, hverjir er stóðu i miklu áliti hjá bræðrunum, 23. og skrifuðu með þeim svo látandi bréf: Vér postular, öldúngar og bræður, heilsum bræðrunum, er frá heiðni hafa snúizt i Antiokkía, Syria og Silisia. 24. Þar eð vér höfum heyrt, að nokkrir, er frá oss hafa farið, hafi óróað yður með orðum sinum og truflað yðar samvizkur, með því að segja, að þér eigið að umskerast og halda lögmálið, hverjum vér höfum ekkert slikt boðið; 25. svo hefir oss litizt, sammála orðnum um þetta efni, að útvelja og senda til yðar nokkra menn, með vorum elskulega Barnabasi og Páli, 26. mönnum, er lagt hafa sitt lif i hættu fyrir nafn drottins vors Jesú Krists. 27. Vér höfum því útsent Júdas og Silas, að þeir munnlega birti yður sama. 28. En það er atkvæði heilags anda og vort: að engin þýngsli skuli yður uppáleggjast umfram þessi, sem nauðsynleg

ern, 29. ad þér haldid ydur frá afgudafórnum og frá blódi og frá køfnudu og frá frillulífi. Ef þér takid vara á þessu, gjørid þér vel. Verid sælir!

30. Eptir þad tédir sendimenn voru farnir, komu þeir til Antíokkía, saman kølludu søfnudinn og afhentu bréfid. 31. En er menn lásu þad, urdu þeir gladir af slíkri huggun. 32. Júdas og Silas, er sjálfir voru einnig spámenn, áminntu þar hjá brædurna munnlega med morgum ordum og styrktu þá. 33. Og er þeir høfdu dvalid þar um tíma, gáfu brædurnir þeim heimfararleyfi med heillaóskum. 34. En Silasi leizt ad vera þar eptir. 35. Páll og Barnabas héldu nú kyrru fyrir í Antíokkía, kendu og bodudu ord drottins ásamt morgum ødrum.

36. Eptir nokkra daga sagdi Páll vid Barnabas: førum aptur til ad vita, hverninn brædrunum lídur í øllum borgum, hvar vér høfum bodad drottins ord. 37. Barnabas lagdi þá til, ad þeir tækju med sér Jóhannes, kalladan Markús, 38. en Páli leizt ad taka ekki þann mann med sér, er hljóp frá þeim í Pamfilía, og hafdi ekki viljad gánga í verkid med þeim. 39. Ut af þessu sinnadist þeim, svo ad

hvor skildi við annan; tók Barnabas með sér Markús og sigldi til Sýprus. 40. En Páll valdi sér Silas og fór af stað, falinn guðs náð af bræðrunum. 41. Hann tók leið sína um Sýrland og Silisía, og styrkti söfnuðina.

## 16. Kapituli.

Páll umsker Tímóteus, vitjar safnaðanna og kemur til Tróas; fær vitrun; fer til Masedonía og snýr Lydíu til kristni; rekur út spásagnar-anda; er húðstrýktur og settur í fángelsi; fángelsið opnast sjálfkrafa; fánga-vaktarinn tekur trú; Páll er látinn laus.

1. Og er hann kom til Derbe og Lystra, hitti hann þar einn lærisvein að nafni Tímó-teus; móðir hans var Gyðínga ættar og hafði tekið trú, en faðirinn var Grískur. 2. Sá hafði góðan orðstír af bræðrunum í Lystra og Ikonía. 3. Páll vildi hafa þenna með sér, og umskar hann sökum Gyðinga, er voru í þeim stöðum, því allir vissu, að faðir hans var Grískur. 4. Þá þeir nú fóru um borgirnar, buðu þeir mönnum að halda þá setninga, sem ályktaðir voru af postulunum og öldúngunum í Jerúsalem. 5. En söfnuðirnir styrktust í trúnni og fjölguðu dag frá degi. 6. Á ferð þeirra

um Frygía og Galataland var þeim bannad af heilogum anda ad kenna ordid í Asía; 7. og sem þeir voru komnir ad Mysia, áformudu þeir ad fara til Bitynía, en andinn leyfdi þeim þad eigi. 8. Þeir fóru þá fram hjá Mysía og nidur til Tróas.

9. Páli vitradist þá sú sjón um nóttina, ad madur masedoniskur stód hjá honum, og bad hann svo segjandi: kom yfir til Masedonía og hjálpadu oss. 10. Undir eins og hann hafdi þessa vitrun feingid, leitudumst vér strax vid ad komast yfir til Masedonía, fullvissir um, ad gud drottinn hefdi kallad oss þángad, til ad boda þar nádarbodskapinn. 11. Nú logdum vér út frá Tróas og sigldum beinleidis til Samótrasía, 12. en næsta dag til Neapólis og þadan til Filippi, sem er hofudborg í þeim hluta Masedonia, og er (rómversk) nýlenda. 13. Í þessari borg dvoldum vér nokkra daga, og einn helgan dag geingum vér út fyrir borgarhlidid til árinnar, þar sem vant var ad bidjast fyrir, settumst þar nidur og toludum vid konur þær, sem þar voru saman komnar. 14. Og kona nokkur gudhrædd úr Týatira-borg, ad nafni Lydía, er seldi purpura, heyrdi til.

Hennar hjarta opnadi gud, svo ad hún gaf
gaum ad Páls rædu. 15. Og sem hún og
hennar hús var skírt, bad hún oss svo feldum
ordum: ef þid álitid mig trúa drottni, þá kom-
id í mitt hús og stadnæmizt þar; og hún neyddi
oss til þess.

16. Nú skedi svo, er vér geingum til bæna,
ad þerna nokkur, sem hafdi spásagnar-anda,
mætti oss, hver ed ávann lánardrottnum sínum
mikid fé med því ad spá. 17. Hún hljóp ept-
ir Páli og oss, og hrópadi: þessir menn eru
þjónar guds ens hæsta, þeir ed kunngjora oss
hjálprædisins veg. Páli féll þad illa, snéri sér vid
og sagdi til andans: eg skipa þér í nafni Jesú
Krists, ad þú farir út af henni; og hann fór
út á samri stundu. 19. Nú sem húsbændur
hennar sáu, ad sín ábatavon var úti, gripu
þeir Pál og Silas, og drógu þá á torgid til
yfirvaldanna; færdu þá sídan hofudsmonnum
og sogdu: 20. þessir menn, sem eru Gyding-
ar, óróa borg vora, 21. og boda oss sidu þá,
sem oss, rómverskum monnum, leyfist hvorki
ad þýdast, né fylgja. 22. Múgurinn æstist og
gegn þeim, en hofudsmennirnir skipudu ad fletta
þá klædum og húdstrýkja þá. 23. Og eptir

það þeir høfðu feingið mørg sløg, var þeim kast-
að í myrkvastofu og myrkvastofuverðinum boð-
ið að gæta þeirra vandlega. 24. Samkvæmt
skipuninni kastaði hann þeim í hið innsta varð-
hald, og setti fætur þeirra í stokk.

25. Um miðnætti báðust þeir fyrir, Páll og
Sílas, og lofsúngu guði, en (hinir) fángarnir
hlustuðu þar á. 26. Þá varð skyndilega jarð-
skjálfti mikill, svo að hristist grundvollur fáng-
elsisins; jafnskjótt opnuðust allar dyr og fjøtr-
arnir duttu af ollum; 27. en þá myrkvastofu-
vørðurinn vaknaði og sá myrkvastofudyrnar opn-
ar, dró hann sverðið og vildi fyrirfara sér, því
hann hélt bandíngjana burtflúna. 28. En Páll
hrópaði þá upp og sagði: gjør þér ekkert illt,
vér erum hér allir. 29. Hann heimti þá ljós,
støkk inn og féll felmtsfullur til fóta Páli og
Sílasi, leiddi þá út og sagði: 30. herra,
hvað á eg að gjora, svo eg verði hólpinn?
31. Þeir søgðu: trúðú á drottinn Jesúm Krist,
þá verður þú hólpinn og þitt hús. 32. Síð-
an tjáðu þeir honum lærdóm drottins og oll-
um þeim, er í hans húsi voru; 33. og sam-
stundis um nóttina tók hann þá með sér og
þvoði benjar þeirra, og var hann strax skírður

og allir hans menn. 34. Og sem hann hafdi leidt þá í sitt hús, setti hann bord fyrir þá, og var gladur ásamt öllu sínu heimafólki yfir því, ad hann trúdi á gud. 35. Þegar bjart var ordid, sendu höfudsmennirnir veldisþjónana med svo látandi skilabod: láttu þessa menn lausa. 36. En myrkvastofuvördurinn kunngjördi Páli þessi ord: höfudsmennirnir sendu híngad, ad þér skyldud lausir látast. Gángid því nú út, og farid í fridi. 37. Páll ansadi þeim: þeir hafa opinberlega látid húdstrýkja oss, sem erum rómverskir menn, án dóms, og setja í myrkvastofu, og nú ætla þeir leynilega ad reka oss á burt. Ekki skal svo vera, heldur komi þeir sjálfir og leidi oss út. 38. Veldisþjónarnir kunngjördu þessi ord höfudsmönnunum. Þeir urdu hræddir, þá þeir heyrdu, ad þad væru rómverskir menn, 39. komu og fóru vel ad þeim, og er þeir höfdu leidt þá út, bádu þeir þá ad fara úr borginni. 40. Eptir ad nú Páll og Silas voru sloppnir úr þessu vardhaldi, fóru þeir til Lydiu, fundu þar brædurna, upphvöttu þá, og fóru svo burt.

# 17. Kapituli.

Páll kennir, en mætir ofsókn i Tessalonika og Berótaborg; fer til Atenuborgar, prédikar mót afgudadýrkun og um Jesúm; snýr nokkrum.

1. En er þeir høfdu farid um Amfipólis og Appollónia, komu þeir til Tessalonika, hvar ed var samkunduhús Gydinga. 2. Páll gekk þar inn til þeirra eptir venju sinni, og þrjá helgidaga átti hann tal vid þá, útlagdi fyrir þeim ritningarnar, og setti þeim fyrir sjónir, 3. ad Kristur hefdi átt ad lida píslir og rísa upp frá daudum; og þessi er sá Jesús Kristur (sagdi hann), hvern eg kunngjøri ydur. 4. Nokkrir af þeim létu sér segjast, og samløgudu sig Páli og Silasi, svo og mikill fjøldi gudrækinna Grikkja og mikilsháttar konur ekki allfáar. 5. En Gydingarnir tóku med sér nokkra vonda menn af þorparalýdnum, drógu flokk saman og gjørdu upphlaup i borginni, þustu svo ad húsi Jasons og leitudu ad þeim, til ad færa þá fyrir lýdinn. 6. En er þeir fundu þá ekki, drógu þeir Jason og nokkra brædur fyrir yfirmenn borgarinnar, og hrópudu: þeir menn, sem vakid hafa óeirdir um allan heim, eru hér komnir, 7. Jason hýsir þá, og allir þessir

breyta á móti keisarans bodum, því þeir segja, ad annar sé konúngur, og þad sé Jesús. 8. Þá vard almúginn uppvægur og yfirmenn borgarinnar, er þeir heyrdu þetta, 9. og létu Jason og hina adra setja vorzlur fyrir sig, og sleptu þeim svo; 10. en brædurnir komu Páli og Silasi undan strax um nóttina til Beróea. Þegar þar var komid, geingu þeir inn í samkunduhús Gydinga, 11. hverjir betur voru sinnadir, en þeir í Tessalonika, svo þeir medtóku lærdóminn med fúsu gedi og rannsokudu hvern dag ritningarnar, hvort svo væri (sem þeim var kent); 12. margir urdu því trúadir af þeim, og ekki allfátt af griskum konum í betri rod, samt karlmonnum. 13. En er Júdarnir í Tessalonika fréttu, ad í Beróea væri einnig bodad guds ord af Páli, komu þeir og uppæstu lýdinn einninn þar. 14. Brædurnir skutu því Páli strax undan, ad hann færi út med sjó, en Silas og Timótens urdu þar eptir. 15. Leidsogumenn Páls fylgdu honum alt til Atenuborgar og báru aptur þan skilabod til Silasar og Timóteusar, ad þeir hid snarasta kæmu til hans. 16. Medan Páll beid þeirra í Atenuborg, gramdist honum hugur ad sjá,

hvilikt afgudabæli sú borg var; 17. samt kendi
hann í samkunduhúsinn, bædi Gydingum og
ødrum gudhræddum, líka hvern dag á torginu
þeim, er þar var ad hitta; 18. en nokkrir
epikúriskir og stóiskir spekingar gáfu sig í orda-
kast vid hann. Nokkrir søgdu: hvad mun skraf-
finnur sá ætla sér? Adrir søgdu: ókenda gudi
sýnist hann boda; af því Páll bodadi Jesúm
og upprisuna. 19. Þeir leiddu hann nú upp
á Areópagus og søgdu: megum vér fá ad vita,
hver sá nýi lærdómur er, sem þú fer med?
20. því eitthvad nýstárlegt flytur þú oss til
eyrna, og oss fýsir ad vita, hvad þetta er. 21.
En øllum Atenumønnum, eins þeim, er dvøldu
þar sem adkomandi, var um ekkert svo titt, sem
ad segja edur heyra eitthvad nýstárlegt. 22.
Þegar Páll þanninn stód mitt á Areópagus,
mælti hann: Atenumenn, þad sé eg hvervetna,
ad þér erud miklir trúmenn; 23. því þá eg
gekk hér um og skygndist eptir ydar helgidóm-
um, fann eg medal annars eitt altari, hvar
yfir skrifad stód: „þeim ókunna gudi".
Þenna, er þér óvitandi dýrkid, boda eg ydur.
24. Sá gud, sem gjørdi heiminn og alt, hvad
í honum er, hann, sem er herra himins og

jardar, býr ekki í musterum, sem með höndum eru gjörð, 25. ekki heldur verður honum þjónað með mannahöndum, svo sem þyrfti hann nokkurs við, þar hann sjálfur gefur öllu líf og andardrátt og sérhvað annað. 26. Hann lét af einum ættstofni allra manna kynþætti útkvíslast um gjörvalla jarðarkringluna, og hann hefir fastsett ákvörðuð tímabil og takmörk fyrir þjóðanna bústaði, 27. svo þær skyldu leita guðs, ef ske mætti þær þreifuðu á honum og fyndu hann, jafnvel þó hann sé nálægur hverjum einum af oss; 28. því í honum lifum, hrærumst og erum vér, eins og nokkur skáld yðar hafa sagt: Vér erum hans ættar. 29. Fyrst vér erum nú guðs ættar, megum vér ekki hugsa, að guðdómurinn sé líkur gulli, silfri, eður steini, mynduðu með hagleik af hugviti manna. 30. Að sönnu hefir guð séð í gegnum fingur við vanvizkunnar tíðir, en nú lætur hann öllum mönnum allstaðar bjóða, að þeir taki háttaskipti; 31. því hann hefir fastsett dag, á hverjum hann ætlar að dæma heimsbygðina með réttvísi af manni, er hann hefir þar til kjörið, og gaf öllum fullvissu þar um, með því að reisa hinn sama frá dauðum. 32.

En er þeir heyrdu nefnda upprisu framlidinna, gjørdu sumir gys ad, en adrir søgdu: vér viljum heyra þig odru sinni tala um þetta. 33. Þannig komst Páll frá þeim. 34. Nokkrir menn, sem héldu sig til hans, urdu trúadir, medal þeirra var Dionysíus, einn af ædstu dómherrunum, og kona nokkur, ad nafni Damaris, og adrir fleiri.

## 18. Kapítuli.

Páll kennir í Korintuborg; Gydingar standa í gegn honum, en gud hughreystir hann; Páll kemur til Efesus og fleiri stada; Apollós uppfrædist af Akvila og fer til Akkea.

1. Eptir þetta fór Páll úr Atenuborg og kom til Korintuborgar; 2. þar hitti hann Gyding, ættadan frá Pontus, ad nafni Akvilas, og konu hans Priskillu. Hann var nýlega kominn úr Italía, því Kládius keisari hafdi skipad, ad allir Gydingar skyldu víkja úr Róm. 3. Páll fór til þeirra og settist ad hjá þeim, því bádir høfdu sama handverk, nefnilega tjaldsmidi, og tók til vinnu, 4. en kendi hvern helgan dag í samkunduhúsinu, og sannfærdi bædi Gydinga og Grikki. 5. En er Silas og Timóteus komu frá Masedonia,

var Páll stødugt vid kenninguna og vitnadi
fyrir Gydíngum, ad Jesús væri Kristur. 6.
En er þeir urdu uppvægir móti honum og smán-
yrtu hann, hristi hann duptid af klædum sín-
um, og sagdi: ydvart blód sé yfir ydar hofdi,
eg em saklaus; hér eptir fer eg til heidíngja.
7. Sídan fór hann þadan og kom í hús þess
manns, er hét Júſtus, sá dýrkadi gud og átti
hús áfast vid samkunduna. 8. En Krispus,
samkunduhøfdínginn, trúdi á drottinn, og alt
hans heimafólk; líka tóku margir Korintumenn
trú, þeir ed heyrt hofdu lærdóminn, og voru
þar skírdir. 9. Eina nótt sagdi drottinn í
vitrun til Páls: óttast ekki, heldur tala og þeg
ekki; 10. því eg em med þér, og einginn skal
festa hønd á þér til ad gjora þér ílt, því eg á
margt fólk í þessari borg. 11. Hann hélt þar
kyrru fyrir í þrjú missiri og kendi þeim guds ord.

12. Þegar Gallion var landstjórnari í Akkea,
tóku Gydíngar sig upp med einn sambeldi á
móti Páli og drógu hann fyrir dómstólinn og
søgdu: 13. þessi rædur mønnum til þeirrar
gudsdýrkunar, sem gagnstæd er løgmálinu. 14.
Í því Páll ætladi ad gegna til, svaradi Gall-
ion Gydíngum: ef hér væri ad gjora um ó-

réttindi einhver edur illvirki, þá skyldi eg, Gyd-
ingar, tilbærilega veita ykkur áheyrn; 15. en
fyrst það er þræta um lærdóm og nöfn og yd-
ar eigin lög, þá sjáid um það sjálfir, því eg
girnist ekki ad vera dómari yfir sliku; 16. og
hann rak þá frá dómstólnum. 17. Allir þeir
Grisku tóku þá Sóstenes, samkunduhúss-höfd-
ingjann, og bordu hann fyrir dómstólnum, en
Gallion skipti sér ekki af því.

18. Páll beid þar enn marga daga, sidan
kvaddi hann brædurna, og sigldi til Sýrlands,
ásamt Priskillu og Akvilas, þá hann var búinn
ad raka höfud sitt í Kenkrea, því hann hafdi
heitbundid sig. 19. Þar eptir fór hann til
Efesus, og skildi þau þar eptir, en gekk sjálf-
ur inn í samkunduhúsid og taladi fyrir Gyd-
ingum; 20. bádu þeir hann ad tefja hjá sér
um hrid, en hann samsinti því ekki, heldur kvaddi
þá og sagdi: 21. mér ber ad halda hátidina,
sem í hönd fer, í Jerúsalem, en eg skal koma
til ydar aptur, ef gud vill. 22. Svo fór hann
frá Efesus og kom nidur til Sesareu, og þad-
an fór hann upp til Jerúsalem, og þá hann
hafdi kvadt söfnudinn, fór hann nidur til Anti-
okkía. 23. Hér dvaldi hann nokkra stund, en

fór svo um gjörvalt Galataland og Frygíu,
og styrkti alla lærisveinana.
24. En til Efesus kom Gydingur nokkur,
Appollós ad nafni, ættadur frá Alexandríu,
tölugur madur og vel ad sér í ritníngunum.
25. Hann hafdi feingid tilsögn í lærdómi drott-
íns, og þar ed hann hafdi glóandi andagipt,
taladi hann og kendi nákvæmlega um Jesúm,
þekti þó ekki nema skírn Jóhannesar. 26.
Þessi tók skörulega ad prédika í samkunduhús-
inu, og er Akvilas og Priskilla heyrdu þad,
tóku þau hann ad sér og útlistudu ítarlega fyr-
ir honum guds veg. 27. En er hann fýsti ad
fara yfir um til Akkea, hvöttu brædurnir hann
til þess, og skrifudu lærisveinunum ad taka
honum vel. Þá hann var þángad kominn,
vard hann þeim trúudu til stórrar nytsemi fyrir
(guds nád); 28. því skörulega hrakti hann
Gydinga opinberlega í orda vidskiptum, og
sannadi klárlega af ritníngunum, ad Jesús
væri Kristur.

## 19. Kapituli.

Páll veitir nokkrum í Efesus andans gáfur; kennir þar í tvö ár, og gjörir furduverk. Særingamönnum er mis-

þyrmt af djöfulóðum manni; margir snúa sér til kristni; þegar Páll ætlar til Grikklands, vekur Demetrius upphlaup.

1. Það skeði, meðan Appollós var í Korintu, að Páll, eptir ferð sína um Asíu upplönd, kom til Efesus, og hitti fyrir nokkra lærisveina, sem hann sagði við: 2. hafið þér meðtekið heilagan anda, þá þér urðuð trúaðir? Þeir svörudu nei, við höfum ekki svo mikið sem heyrt, að heilagur andi sé til. 3. Hann spurði þá: upp á hvað eruð þér þá skírðir? Þeir sögðu: upp á Jóhannesar skírn. 4. Páll ansaði: að vísu skírði Jóhannes með iðrunar skírn, því hann sagði fólkinu að trúa á þann, sem eptir sig kæmi, það er á Jesú Krist. 5. Þegar þeir heyrðu það, létu þeir sig skíra í nafni drottins Jesú. 6. Og sem Páll hafði lagt hendur yfir þá, kom yfir þá heilagur andi, svo þeir töluðu túngum og spáðu. 7. Alls voru þessir hér um bil tólf karlmenn að tölu. 8. Nú gekk hann í samkundúhúsið og kendi einarðlega um þrjá mánuði, og leiddi til sannfæringar um það, er við vék guðsríki. 9. En er nokkrir settu í sig þverúð og létu ekki skipast, heldur hallmæltu lærdóminum í fólksins á-

heyrn, hætti hann vid þá, skildi lærisveinana frá,
og kendi hvern dag í skóla eins manns, er Thyr-
annus hét. 10. Þessu fór fram tvo ár, svo
allir, sem bjuggu í Asíu, bædi Gydingar og
Grikkjar, heyrdu lærdóm drottins; 11. einninn
gjordi gud óalmenn kraptaverk fyrir hendur Páls,
12. svo ad jafnvel þegar sveitadúkur, sem Páll
bar næst sér, og fyrirskyrtur voru lagdar yfir
sjúka, þá yfirgáfu sjúkdómarnir þá, og illir
andar geingu út af þeim.
13. Þá tóku nokkrir umhlaupandi særinga-
menn Gydínga kyns sér fyrir, ad nefna yfir
þeim, er þjádust af illum öndum, nafn herrans
Jesú, segjandi: eg særi ykkur vid Jesúm, hvern
Páll prédikar. 14. Medal þeirra, er þetta gjørdu,
voru sjø synir Skevu, eins Gydínga hofud-
prests. 15. Þá svaradi hinn vondi andi: Jes-
úm þekki eg, og vid Pál kannast eg, en hverj-
ir erud þér? 16. Og madurinn, sem sá vondi
andi var í, flang á þá, vard þeim yfirsterkari
og lét þá finna til afls síns, svo ad þeir flúdu
naktir og særdir úr húsinu. 17. Þetta vard
kunnugt øllum Gydíngum og Grikkjum, er bjuggu
í Efesus, og ótta sló yfir alla, og nafn drott-
ins Jesú mikladist. 18. Margir sem vid trú

höfdu tekid, komu nú, játudust og sögdu frá athæfi sínu. 19. Líka komu margir, er farid höfdu med kukl, med bækur, og brendu þær öllum ásjáandi. Verd þeirra var reiknad saman og var upphæd þess fimtin þúsund silfurpeningar. 20. Ord drottins vóx þanninn og efldist kroptuglega.

21. Eptir ad þetta var áorkad, setti Páll sér í huga ad ferdast um Masedoníu og Akkeu til Jerúsalem og sagdi: þegar eg er búinn ad vera þar, ber mér ád sjá Róm. 22. Nú sendi hann tvo, sem voru honum vid hönd, Tímóteus og Erastus, til Masedoníu, en dvaldi sjálfur um tíma í Asíu. 23. Um þad leyti reis ekki allitill órói út af lærdóminum, 24. því silfursmidur nokkur, ad nafni Demetríus, sem bjó til silfurmusteri Díönu, afladi ödrum smidum stórkostslegs ábata. 25. Þessa kalladi hann saman, og adra, er unnu ad þess háttar, og sagdi: Gódir menn, þér vitid, ad á þessu verki stendur okkar velmegan; 26. einninn sjáid þér og heyrid, ad ekki einúngis í Efesusborg, heldur nær um gjörvalla Asíu, hefir Páll þessi talid trú um og feingid á sitt mál fjölda fólks, med því ad segja, ad þad séu ekki gudir, sem med

høndum eru smídadir. 27. Nú horfir þetta ekki einúngis idn vorri til smánar, heldur einnig, ad musteri hinnar miklu Diønu verdi einkis virt, já, jafnvel ad tign hennar gjøreydist, hverja øll Asía og jardarkringlan dýrkar. 28. Þá þeir heyrdu þetta, urdu þeir afarreidir, æptu upp og søgdu: mikil er Diana Efesusmanna! 29. Øll borgin vard nú uppvæg, og allir æddu samhuga til sjónarplázins, hrifu med sér Masedónana, Kajus og Aristarkus, førunauta Páls. 30. En er Páll vildi gánga fram í mannþraungina, leyfdu lærisveinarnir honum þad ekki; 31. einninn sendu nokkrir Austurálfu høfdíngjar, þeir ed voru honum vinveittir, honum bod, og rédu honum frá ad koma á sjónarplázid. 32. Adrir hrópudu nú svo, en adrir ødruvísi, því safnadurinn var uppvægur, og fæstir vissu, hvers vegna þeir voru þar saman komnir. 33. Nú var togadur fram úr mannþraunginni Alexander, hverjum Gydingar ýttu fram; hann bandadi med hendinni og vildi forsvara sig fyrir fólkinu. 34. En er þeir vissu, ad hann var Gydingur, æptu allir einum munni og hrópudu nærri tvær stundir: mikil er hún Diana í Efesus. 35. Loksins gat stadarskrif-

arinn stødvad fólkid og mælti: Efesus-menn, hver er sá, er ekki viti, ad Efesusborg geymir musteri hinnar miklu Díønu og þad frá himni fallna bilæti. 36. Nú, þar þetta er ómótmælanlegt, svo ber ydur ad vera stiltum og ekki hrapa ad neinu. 37. Þér hafid dregid þessa menn hingad, sem hvorki hafa rænt hofin, né lastad gydju ydar. 38. Hafi Demetríus og smidirnir, lagsmenn hans, kærumál móti nokkrum, þá eru þinghold ad fá, og landstjórnarar til, eigist þeir løg vid; 39. en sé þar annad ágreiningsefni ykkar á milli, sem þér hafid innbyrdis, svo má gjøra þar um á løglegri samkomu. 40. En oss er búin hætta ad verda klagadir fyrir þessa dags óróa, þar eingin orsøk verdur borin fyrir, hvar med vér kunnum ad afsaka slíkt upphlaup. Ad svo mæltu lét hann mannsøfnudinn skiljast ad.

## 20. Kapituli.

Páll fer til Masedoníu og Grikklands og þadan aptur til Tróas, hvar hann kennir og endurlífgar Evtykus; heldur áfram til Assus og Miletus; hér kvedur hann öldúnguna í Efesus med hrærdu hjarta.

1. Eptir ad þessi órói var stødvadur, kall-

adi Páll lærisveinana saman, kvaddi þá og fór
af stad til Masedoniu. 2. Og er hann hafdi
farid um þau landspláz og med mörgum ord-
um áminnt brædurna, kom hann til Grikklands.
3. Par dvaldi hann þrjá mánudi; en er hon-
um voru veitt umsátur af Gydingum, þá hann
ætladi til Sýrlands, vard hann þess sinnis ad snúa
aptur um Masedoniu. 4. Fylgdu honum þá
á veg alt til Asiu, Sópater frá Beróea; Ari-
starkus og Sekúndus frá Tessaloniku, Gajus
frá Derbe og Tímóteus; en of Austurálfu-
mönnum Tykikus og Trófimus. 5. Þessir fóru
á undan oss og bidu vor í Tróas. 6. En
vér sigldum eptir daga hinna ósýrdu braudanna
frá Filippi, og hittum þá á fimta degi í Tró-
as, hvar vér töfdum sjo daga. 7. En á fyrsta
degi vikunnar, þá vér vorum samankomnir til
ad brjóta braudid, hélt Páll rædu, því hann
ætladi ad ferdast morguninn eptir, og teygdi
rædunna til midnættis. 8. Samkoman var á
loptsal, hvar mörg ljós brunnu; 9. en í glugg-
anum sat eitt úngmenni ad nafni Evtykus; á
hann féll þúngur svefn, þá Páll ræddi svo
leingi, og yfirkominn af svefninum datt hann
ofan úr þridja lopti nidur á jafnsléttu, og var

tekinn upp andvana. 10. Páll gekk þá ofan, lagdist nidur ad honum, umfadmadi hann, og sagdi: gjørid eingan hávada, 11. hann er med lífi; sté sídan upp aptur, braut braudid og neytti, taladi vid þá leingi, alt þar til dagur ljómadi, og fór svo sinn veg; 12. en þeir fóru burt med sveininn lifanda, og urdu næsta gladir. 13. Vér stigum nú á skip og fórum á undan til Assus, hvar Páll átti ad takast á skip, því svo hafdi hann rád fyrir gjort, en ætladi ad fara þángad fótgángandi. 14. Þá fundum vorum hafdi borid saman í Assus og vér høfdum tekid vid honum, komum vér til Mitylene. 15. Þadan sigldum vér og komumst annars dags gagnvart Kíos. Daginn eptir løgdum vér ad Samus, og støldrudum vid í Trógillion, og komum næsta dag til Miletus. 16. Páll ætladi ad sigla fram hjá Efesus, svo hann tefdi sem skemst í Asíu, því hann flýtti sér, svo ad hann, ef møgulegt yrdi, gæti verid á hvítasunnu hátídinni í Jerúsalem.

17. Frá Miletus sendi hann til Efesus, ad kalla á oldúnga safnadarins; 18. og sem þeir voru til hans komnir, ávarpadi hann þá þannig: Þér vitid, hvernig eg, einlægt frá

þeim fyrsta degi eg kom í Asíu, hefi hagad mér
medal ydar 19. í erindum drottins, án yf-
irgirndar og stórlætis, opt med tárum og í
vandrædum, sem Gydinganna vélrædi hafa bak-
ad mér; 20. hversu eg hefi ekkert undanfelt,
þad ydur væri til nytsemdar, heldur birt þad
og kent, bædi opinberlega og í heimahúsum,
21. áminnandi svo vel Gydinga sem Grikki,
ad snúa sér til guds og til trúarinnar á drott-
inn vorn Jesúm Krist; 22. og sjáid, nú em
eg bundinn í anda ad fara upp til Jerúsa-
lem, óviss um, hvad þar muni mæta mér, 23.
nema hvad heilagur andi í sérhverri borg birt-
ir mér og segir mér, ad fjötur og harmkvæli
bídi mín. 24. En eg set þad ekkert fyrir mig,
met og ekki dýrt líf mitt, svo ad eg med gledi
fullendi mitt skeid og embætti, sem eg hefi tek-
id vid af herranum Jesú, ad auglýsa hátíd-
lega fagnadarbodskap gudlegrar nádar. 25.
Og takid nú eptir, eg veit, ad einginn af yd-
ur öllum, medal hverra eg hefi geingid og kent
um guds ríki, muni framar sjá mitt auglit.
26. Því vitna eg nú fyrir ydur í dag, ad eg
em hreinn af blódi allra; 27. því eg hefi ekki
hlifzt vid ad opinbera ydur alt guds rád. 28.

Hafid nú gát á sjálfum ydur og á allri hjørd-
inni, yfir hverja heilagur andi setti ydur tilsjón-
armenn, ad annast sofnud drottins, hvern hann
útvegad hefir med sjálfs síns blódi; 29. því
þetta veit eg, ad eptir burtfør mína munu
grimmir vargar smeygja sér inn á milli ydar,
þeir ed ekki munu þyrma hjørdinni; 30. og med-
al sjálfra ydar munu risa upp menn, og fara
med rángsnúna lærdóma, til ad leida lærisvein-
ana afvega med sér. 31. Vakid þess vegna
og verid þess minnugir, ad eg hefi í þrjú ár,
nótt og dag, ekki aflátid, med grátandi tárum
ad áminna hvern og einn. 32. Og nú fel eg
ydur, brædur, gudi og ordi hans nádar, hvert
máttugt er enn betur ad efla ydur og veita yd-
ur arftöku medal allra helgadra. 33. Einkis
silfur eda gull edur klædi hefi eg girnzt. 34.
Sjálfir vitid þér, ad hendur þessar hafa unn-
id fyrir mínum naudþurftum og þeirra, sem
med mér voru. 35. Í øllu sýnda eg ydur, ad
oss byrjadi þannig ad vinna, og adstoda hjálp-
arþurfendur, og minnast orda drottins Jesú,
því hann sagdi: „sælla er ad gefa, en ad þiggja."
36. Ad svo mæltu féll hann á kné og badst
fyrir, ásamt þeim øllum, 37. og þeir grétu

allir hástøfum, løgdu hendur um háls Páli og kystu hann, 38. mest sorgbitnir af því ordi, er hann hafdi sagt, ad þeir aldrei framar mundu sjá hans auglit; og þeir fylgdu honum til skips.

## 21. Kapituli.

Páll kemur til Týrus, Tólemais og Sesareu, hvar dætur Filippusar spá, og Agapus fyrir segir Páli fángelsi; Páli er tekid vel í Jerúsalem; hann segir frá framkvæmdum sínum; honum er rádid, sökum Gydinga, ad láta hreinsa sig í musterinu, hvar hann er gripinn; yfirmadur kastalans frelsar hann og leyfir honum ad forsvara sig.

1. Eptir ad vér höfdum slitid oss frá þeim og vorum komnir í rúmsjó, sigldum vér beinleidis til Kós, og næsta dag til Ródus, og þadan til Patara. 2. Þar fundum vér skip, er var ferdbúid til Fonisíu, stigum á þad og sigldum burt. 3. En sem vér feingum landsjón af Kýpur, létum vér hana á bakborda og sigldum svo til Sýrlands og tókum höfn í Týrus, hvar skipid átti ad leggja upp farminn. 4. Þar fundum vér lærisveinana og dvöldum hjá þeim sjø daga. Þeir søgdu Páli af andagipt, ad hann ekki skyldi fara upp til Jerúsalem. 5. Samt fórum vér ad þessum sjø døgum lidn-

um á stad, og fylgdu þeir oss allir, ásamt konum og børnum, út fyrir stadinn; þar féll-
um vér á knè í fjørunni og bádumst fyrir; 6.
og eptir ad vér høfdum kvadt hverjir adra,
stigum vér á skip. 7. Þeir snéru heim til sín,
en vér endudum siglínguna, þá vér fórum frá Týrus og komum til Tólemais, heilsudum brædr-
unum og tøfdum hjá þeim einn dag. 8. Dag-
inn eptir fórum vær á burt og komum til Sesa-
reu, þar geingum vér inn í hús Filippusar gudspjallara, sem var einn af þeim sjø, og sett-
umst ad hjá honum. 9. Hann átti fjórar ó-
giptar dætur, er spádu; 10. og sem vér dvøld-
um þar ekki allfáa daga, kom spámadur nokk-
ur ofan frá Júdeu, Agapus ad nafni; 11.
hann kom til vor, tók upp linda Páls, batt hendur sínar og mælti: svo segir andinn sá hinn heilagi: þann mann, er þetta belti á, munu Gydingar þannig binda í Jerúsalem og ofurselja í heidíngja hendur. 12. Þegar vér heyrdum slíkt, bádum vér og þeir, sem í borg-
inni voru, Pál, ad fara ekki upp til Jerúsa-
lem; en hann svaradi: 13. Hví grátid þér og hrellid huga minn? Eg em reidubúinn, ekki ein-
úngis ad láta mig binda, heldur og ad deya í

Jerúsalem, sökum nafns drottins Jesú. 14. Þar hann ekki vildi fallast á ráð vort, þögnudum vér og sögdum: verdi drottins vilji!

15. Þegar alt var nú tilbúid til ferdarinnar, fórum vér upp til Jerúsalem. 16. Nokkrir af lærisveinunum frá Sesareu fóru med og fylgdu oss til Mnasons frá Kýpur, sem var gamall lærisveinn; hjá honum skyldum vér gista. 17. Þá vér komum til Jerúsalem, tóku brædurnir oss feginsamlega, 18. og næsta dag gekk Páll med oss til Jakobs, hvar allir öldúngarnir voru samankomnir. 19. Eptir ad hann hafdi heilsad þeim, inti hann þeim skilmerkilega sérhvad eina, sem gud hafdi framkvæmt fyrir hans þjónustu, medal heidinna þjóda. 20. Vid þessar fregnir vegsömudu þeir drottinn, og sögdu vid hann: Þú sér, bródir, hversu margar þúsundir Gydinga hafa trú tekid. Allir þeir eru vandir ad því, ad lögmálid sé haldid, 21. en þeim er sagt um þig, ad þú kennir öllum Gydingum, er búa medal heidingja, fráfall frá Móse med þeim ummælum, ad þeir eigi hvorki ad umskera börn sín, né fylgja hans setníngum. 22. Hvad er hér vid ad gjöra? Vafalaust hlýtur almenníngur ad koma saman, því menn

munu heyra, ad þú sért kominn. 23. Gjør nú þad, sem vér segjum þér: hjá oss eru fjórir menn, sem bundnir eru heiti; 24. tak þá til þín, hreinsa þig med þeim og kosta upp á þá, ad þeir fái rakad høfud sín, þá mega allir sjá, ad ekkert er til í því, sem um þig er talad, heldur ad þú sjálfur haldir løgmálid. 25. En hvad heidíngjana áhrærir, sem vid trú hafa tekid, þá erum vér búnir ad gefa út bréf og høfum úrskurdad, ad þeir þurfi ekkert slíkt ad halda, utan ad sneida hjá skurdgoda-fórn og blódi og køfnudu og frillulifi. 26. Þá tók Páll mennina til sín, og daginn eptír, þá hann hafdi hreinsad sig, gekk hann med þeim í musterid, og lýsti því, ad hann ætladi ad útenda hreinsunar dagana, þángad til hvers eins þeirra fórn væri framborin.

27. En undir þad þeir sjø dagar voru ad enda, þá Júdar frá Asíu sáu Pál í musterinu, æstu þeir allan lýdinn upp og løgdu á hann hendur, og hrópudu: 28. gódir Israelsmenn, hjálpid, hér er madurinn, sem allstadar er ad kenna øllum, í móti þjód, løgmáli og stad þessum. Þar ofan á hefir hann innleidt Grikki í musterid og saurgad þenna heilaga stad. 29.

Þeir høfdu séd ádur Trófimus frá Efesus med honum í borginni, og hugsudu, ad Páll hefdi leidt hann í musterid. 30. Øll borgin vard nú uppvæg, og múgurinn flyktist saman, greip Pál og dró hann út úr musterinu, og strax var dyrunum læst. 31. En í því þeir leitast vid ad lifláta hann, barst sú saga upp til þúshundradshofdingja herflokksins, ad øll Jerúsalem væri í uppnámi. 32. Hann tók þá í snarrædi strídsfólk og hundradshofdingja, og hljóp nidur til þeirra; en þegar hinir sáu þúshundradshofdingjann og strídsmennina, hættu þeir ad lemja Pál. 33. Þúshundradshøfdinginn kom nú til, tók Pál og skipadi ad binda hann med tveimur vidjum, spurdi svo, hver hann væri og hvad hann hefdi adhafzt; 34. en sitt kalladi hver úr mannfjøldanum, og er hann gat ekkert áreidanlegt uppgøtvad søkum óróans, baud hann ad leida hann í herbúdirnar. 35. Þá komid var ad trøppunum, hlutu strídsmennirnir ad bera Pál, søkum áfergju múgans; 36. því þorri fólksins flyktist med, og hrópadi: lát hann ekki lifa. 37. Rétt í því Páll skyldi innlátast í herbúdirnar, sagdi hann vid þúshundradshøfdingjann: leyfist mér ad tala nokkur ord

vid þig? Hann ansadi: kantu grísku? 38.
Ertu ekki sá egypzki madur, sem fyrir skemstu
vaktir styrjold og færdir út á eydimørk fjøgur
þúsund flugumenn? 39. Páll svaradi: eg em
Gydingur, ættadur frá Tarsus, og borgari þessa
nafnkenda stadar í Silisíu: eg bid þvi, leyf mér
ad tala til fólksins. 40. Ad þvi leyfi feingnu
nam Páll stadar á trøppunum og bandadi
hendinni til fólksins, og er gott hljód fékkst, tal-
adi hann til þeirra á hebreska túngu og sagdi:

## 22. Kapituli.

Páll segir frá, hverninn hann snérist til kristni og fékk kall ad kenna heidnum þjódum; Gydinga óhljód móti honum; herstjórinn ætlar ad láta húdstrýkja hann, en vogar ekki, þar ed Páll var rómverskur borgari; leidir hann fyrir rádid.

1. Gódir menn, brædur og fedur, hlustid
nú á forsvar mitt fyrir ydur. 2. En er þeir
heyrdu hann ávarpa sig á hebresku, urdu þeir
enn hljódari. 3. Eg em, sagdi hann, Gyding-
ur, fæddur í Tarsus í Silisíu, en uppalinn í
þessari borg vid fætur Gamaliels, mentadur í
allri nákvæmni fedranna løgmáls, og var vand-
lætari vegna guds, eins og þér allir erud enn

þér þá? Það, sem þér nú skammizt yðar fyrir;
því að endalyktin þess er dauði. 22. En nú,
þar eð þér eruð fríir frá syndinni og þjónustu-
bundnir guði, svo hafið þér yðar ávöxt til
helgunar, en endalyktina eilíft líf; 23. því að
laun syndarinnar er dauði, en náðargáfa guðs
er eilíft líf í Jesú Kristó vorum drottni.

## 7. Kapituli.

Um dauða trúaðra frá lögmálinu vegna Krists dauða. Verkun og gagn lögmálsins. Stríð holdsins og andans hjá þeim réttlættu.

1. Vitið þér ekki, bræður (því að við þá,
sem lögmálið þekkja, tala eg), að lögmálið
drottnar yfir manninum, svo leingi hann lifir?
2. Því að gipt kona er að lögum bundin við
manninn, meðan hann lifir, en þá maðurinn
deyr, er hún laus við mannsins lögmál. 3.
Þess vegna mun hún hórkona kallast, ef hún
verður annars manns (kona) að manninum
lifanda, en þá maðurinn deyr, er hún frí við
lögmálið, svo að hún er ei hórkona, þótt hún
verði annars manns. 4. Svo eruð og þér,
bræður mínir, dauðir lögmálinu fyrir líkamann
Krists, að þér yrðuð annars, hans sem frá

daudum er upprisinn, til þess vér skyldum gudi ávøxt færa; 5. því þá vér vorum í holdinu, verkudu syndsamlegar tilhneigingar þær, sem (þektust) af løgmálinu, í vorum limum, til ad færa ávøxt daudanum. 6. En nú erum vér, sem daudir, lausir frá løgmálinu, vid hvert vér vorum bundnir, svo ad vér þjónum í nýúngu andans, en ekki í fyrnsku bókstafsins. 7. Hvad viljum vér þá segja? Er løgmálid synd? Fjærri sé því, heldur þekta eg ekki syndina, nema af løgmálinu; því ad um girndina hefdi eg ekki vitad, nema løgmálid hefdi sagt: þú skalt ekki girnast. 8. En syndin tók sér tilefni af bodordinu og ól upp í mér alla girnd; því ad án løgmáls er synd daud. 9. Eg lifdi um nokkurn tíma án løgmáls, en þegar bodordid kom, endurlifnadi syndin; 10. en eg dó, og komst eg ad raun um, ad bodordid, (gefid) til lífs, vard til dauda; 11. því ad syndin, sem tók tilefni af bodordinu, dró mig á tálar og deyddi med því sama (bodordi). 12. Løgmálid er ad vísu heilagt, og bodordid heilagt og réttvíst og gott.

13. Er þá hid góda (bodord) ordid mér daudi? Fjærri sé því, heldur syndin; svo ad

opinbert yrdi, ad hún væri synd, þar ed hún fyrir hid góda øllir mér dauda, svo ad syndin yrdi yfirmáta syndug fyrir bodordid.

14. Vér vitum því, ad løgmálid er andlegt, en eg er holdlegur, seldur undir syndina; 15. því ad þad, sem eg adhefst, veit eg ekki, því ad þad, sem eg vil, gjøri eg ekki, en þad, sem eg hata, gjøri eg; 16. en ef eg gjøri þad, sem eg ekki vil, þá samsinni eg løgmálinu, ad þad sé gott. 17. Svo adhefst eg þad þá ekki, heldur sú synd, sem býr í mér; 18. því eg veit, ad ekki býr gott í mér, þad er, í minu holdi; því ad vilja er til reidu hjá mér, en ad framkvæma þad góda finn eg ekki, 19. því þad góda, sem eg vil, gjøri eg ekki, en þad vonda, sem eg vil ekki, þad gjøri eg. 20. En ef eg gjøri þad eg vil ekki, þá er eg ekki framar sá, sem adhefst þad, heldur syndin, sem í mér býr. 21. Svo finn eg þá løgmálid, þegar eg vil gjøra hid góda, af því þad vonda er til reidu hjá mér; 22. því ad mig lystir til guds løgmáls eptir enum innra manni, 23. en eg sé annad løgmál í minum limum, sem strídir í móti løgmáli mins hugskots, og hertekur mig undir løgmál syndarinnar, hvert ed er í min-

um limum. 24. Eg vesæl manneskja, hver
mun frelsa mig frá líkama þessa dauda? 25.
Eg þakka gudi fyrir Jesúm Krist vorn drott-
inn. Svo þjóna eg þá ad sönnu, sami (mad-
urinn), med hugskotinu lögmáli guds, en med
holdinu lögmáli syndarinnar.

## 8. Kapituli.

Fordæmingin nær ekki til kristinna, ef andinn Krists og ekki holdid stjórnar þeim. Sá sami andi gjörir þá vissa um barna-réttinn, veitir þeim gledi í mótgángi, hughreystir þá med guds elsku, frá hverri einginn hlutur fær þá skilid.

1. Svo er nú einginn fyrirdæmíng yfir þeim,
sem eru í Kristó Jesú, hverjir ei gánga eptir
holdinu, heldur eptir andanum; 2. því ad lög-
málid lífgunar andans í Kristó hefir frelsad
mig frá lögmáli syndarinnar og daudans; 3.
því hvad lögmálinu var ómögulegt, af því þad
vard vanmáttugt vegna holdsins, þad gjördi
gud, þegar hann, med ad senda sinn son í lík-
ingu syndugs holds og til synda fórnar, for-
dæmdi (straffadi) syndina á holdinu, 4. svo
ad réttlæti lögmálsins uppfyltist í oss, sem ekki
gaungum eptir holdinu, heldur eptir andanum;

5. Því ad þeir, sem eru eptir holdinu, hugsa
um þad, sem holdsins er, en hinir, sem eru
eptir andanum, þad sem andlegt er; 6. því
holdsins sinna er daudi, en andans sinna er líf
og fridur; 7. vegna þess ad sinna holdsins er
fjandskapur í gegn gudi, því ad hvorki skipast
hún undir guds lögmál, né getur þad. 8. En
þeir ed í holdinu eru, geta ekki gudi þóknazt.
9. En þér erud ekki í holdinu, heldur í and-
anum, svo framt andi guds býr í ydur; en ef
nokkur ekki hefir anda Krists, sá er ekki hans.
10. En ef Kristur er í ydur, þá er ad sönnu
líkaminu daudur vegna syndarinnar, en andinn
er líf fyrir réttlætis sakir; 11. en ef andi
hans, sem uppvakti Jesúm frá daudum, býr í
ydur, þá mun hann, sem uppvakti Krist frá
daudum, lífandi gjöra einninn ydar daudlegu
líkami fyrir þann hans anda, sem býr í ydur.
12. Þar fyrir, brædur, erum ver ekki skuldu-
nautar vid holdid, til ad lifa eptir holdinu; 13.
því ad ef þér lifid eptir holdinu, munud þér
deya, en ef þér deydid fyrir andann líkamans
gjördir, munud þér lifa.

14. Því, svo margir sem leidast af guds
anda, þeir eru guds börn; 15. því ad þér

hafid ekki medtekid þrældóms anda aptur til
hrædslu, heldur hafid þér medtekid sona útváln-
ingar anda, í hverjum vér köllum Abba, fadir.
16. Sá sami andi ber vitnisburd vorum anda,
ad vér erum guds börn; 17. en ef börn, þá
og svo erfingjar, já, erfingjar guds, en samarf-
ar Krists, ef vér lídum med honum, ad vér
verdum einninn med honum vegsamlegir gjörd-
ir. 18. Því ad eg reikna, ad mótlætingar nú-
veranda tíma séu ekki verdar þeirrar dýrdar,
sem vid oss mun opinber verda; 19. því ad
eptirlaungun skepnunnar bídur eptir opinberun
guds barna 20. (því ad skepnan er undirorpin
hégómanum, ekki viljug, heldur fyrir hans sakir,
sem hana hefir undirlagt), 21. í von um, ad
og svo skepnan sjálf muni frínd verda frá ve-
sælum þrældómi til dýrdarlegs frelsis guds
barna. 22. Því vér vitum, ad öll skepnan til
samans stynur og ber fædingar harmkvæli alt
til þessa; 23. og ekki einúngis hún, heldur og
þeir, sem hafa andans frumvort, og svo vér
sjálfir stynjum med oss, bídandi eptir sona út-
valningunni, endurlausn vors líkama. 24. Því
ad í voninni erum vér frelsadir, en von, sem
sést, er ekki von: því ad hvad einn sér, hvern-

inn skyldi hann undir eins vænta þess? 25.
En ef vér væntum þess, sem vér ekki sjáum,
þá bidum vér þess med þolinmædi. 26. En
sömuleidis andinn kemur og svo vorum óstyrk-
leika til hjálpar, því hvad vér skulum um bidja,
svo sem ber, vitum vér ekki, þá geingur sami
andi í milli fyrir oss med ordlausum and-
vörpunum; 27. en hann, sem rannsakar hjört-
un, veit, hver er andans sinna, því hann geing-
ur i milli eptir guds vilja fyrir heilaga.

28. En vér vitum, ad þeim, sem gud elska,
þénar alt til góds, þeim, sem eptir fyrirætlun
kalladir eru; 29. því ad hverja hann fyrir fram
þekti, hefir hann og fyrir fram tilætlad, ad þeir
skyldu verda samlikir mynd síns sonar, svo ad
hann sé frumburdur milli margra brædra. 30.
En hverja hann fyrir fram tilætladi, þá hefir
hann og kallad, en hverja hann kalladi, þá hefir
hann og réttlætt, en hverja hann réttlætti, þá
hefir hann einninn vegsamlega gjört. 31.
Hvad skulum vér til þessa segja? Ef gud er
med oss, hver megnar þá móti oss? 32. Hann,
sem ekki þyrmdi sínum eigin syni, heldur gaf
hann út fyrir oss alla, því skyldi hann ekki og
svo gefa oss alt med honum? 33. Hver vill

ásaka guds útvalda? Gud er sá, sem réttlætir.
34. Hver er, sem fordæmir? Kristur er sá, sem
dáinn er, já, miklu meir, sem líka er uppris-
inn, hver og er á hægri hönd gudi, hver ed
einninn er medalgángari fyrir oss. 35. Hver
mun skilja oss víd kærleikann til Krists? Þján-
ing eda þreinging, eda ofsókn, eda húngur, eda
nekt, eda háski, eda sverd? 36. Svo sem skrif-
ad er: þín vegna verdum vér deyddir allan
daginn, vér reiknadir sem slátrunarfé. 37. En í
öllu þessu meir en sigrum vér fyrir adstod
hans, sem elskadi oss. 38. Því eg er þess
fullviss, ad hvorki daudi né líf, hvorki einglar
né höfdingjadæmi né vold, hvorki hid nærver-
anda né eptirkomanda, 39. hvorki hæd né dýpt
eda nokkur önnur skepna mun geta skilid oss
vid guds kærleika, sem er í Kristó Jesú vorum
drottni.

## 9. Kapituli.

Guds kallan af nád, upplýst med dæmum.

1. Eg segi sannleika í Kristó og lýg ekki
(mín samvizka vitnar med mér í heilögum anda),
2. ad mér er ángur mikid og óaflátanleg kvöl
í hjarta mínu; 3. því ad eg æskti sjálfur ad

vera útrekinn frá Kristó fyrir brædur mína, ættmenn mína eptir holdinu, 4. hverjir ed eru Israelsmenn, hverjum tilheyrir sona-útvalningin, dýrdin og sáttmálarnir og løgmáls-gjøfin og helgihaldid og fyrirheitin, 5. hverra fedurnir eru, og þeir, af hverjum Kristur er kominn, ad því leyti sem þad er eptir holdinu, hver ed er yfir øllum, gud (sé) blessadur um aldir, amen.

6. Ekki þvílíkt, ad guds ord hafi brugdizt, því ad ekki eru allir af Israel komnir Israelsmenn, 7. og ekki af því þeir eru sædi Abrahams, allir hans børn, heldur (segir ritningin): í Isaak skal þér sædi kallast, 8. þad er: ekki þau holdsins børn eru guds børn, heldur reiknast fyrirheitisins børn fyrir sædi; 9. því ad ord fyrirheitisins er þetta: um þenna tíma mun eg aptur koma, og þá skal Sara son eiga; 10. og ekki alleinasta (vid hana), heldur og, þegar Rebekka var þúngud af þeim eina Isaak fødur vorum, 11. því ad enn nú voru ekki (tvíburarnir) fæddir, né høfdu gjørt neitt gott edur ilt (svo ad fyrirætlan guds eptir útvalningu stadføst væri, ekki vegna verkanna, heldur (eptir vilja) hans, sem kalladi), 12. þá var

sagt vid hana: sá eldri skal þjóna þeim yngra.
13. Svo sem skrifad er: Jakob elskadi eg, en
Esaú hatadi eg. 14. Hvad skulum vér þá
segja? Er óréttvisi hjá gudi? Pad sé fjærri,
15. þvi ad hann segir vid Mósen: eg mun
miskuna þeim eg miskuna, eg mun aumkast yf-
ir þann, er eg aumkast. 16. Par fyrir er þad
hvorki komid undir kjørum þess, sem vill, né
hins, sem hleypur, heldur guds, sem miskunar;
17. þvi ritníngin segir til Faraó: til þess
sama uppreisti eg þig, ad eg sýndi mína makt
á þér, og svo ad mitt nafn kunngjørt yrdi um
alla jørdina. 18. Svo miskunar hann þá þeim
hann vill, en forherdir þann hann vill. 19.
Pú munt þá vilja segja: hvad getur hann þá
gefid til saka? Pví ad hver fær hans vilja i
móti stadid? 20. En ó madur, hver ertú, ad
vilja hafa svor vid gud? Skyldi leirsmídid segja
vid þann, sem bjó þad til: þvi gjordir þú mig
svo? 21. Eda hefir ekki leirsmidurinn vald,
ad gjora af sama smídisefni eitt ker til heid-
urs, en annad til vanheidurs? 22. En ef gud,
þegar hann vildi audsýna reidina og kunngjora
sína makt, umbar med miklu lánglundargedi ker
reidinnar, undirbúin til fordjørfunar, 23. og

svo til ad kunngjora ríkdóm dýrdar sinnar á kerum miskunarinnar, hver ed hann hefir ádur búid til dýrdar? 24. hverja hann hefir og kallad, þad er oss, ekki einasta af Gydingum, heldur og af heidingjum, 25. svo sem hann og segir hjá Hósea: Eg mun kalla þad, sem ekki var mitt fólk, mitt fólk, og þá, sem ekki var unnusta, mína unnustu, 26. og þad mun ske i þeim stad, hvar til þeirra var sagt: þér erud ekki mitt fólk, þar skulu þeir kalladir verda synir guds lifanda. 27. En Esajas hrópar yfir Israel: þótt talan Israels sona væri sem sjáfar sandur, þá skulu leifar einar (fáeinir) frelsadir verda; 28. því ad sá er, sem fullkomnar ord (hlutinn) og fljótt sker úr med réttvísi; þad ord (þann hlut), er fljótt tekur af, mun drottinn gjora á jordunni; 29. og svo sem Esajas sagdi fyrrum: nema drottinn Sebaot hefdi eptirlátid oss sædi, værum vér ordnir eins og Sódóma, og Gommorra værum vér likir ordnir. 30. Hvad skulum vér þá segja? Ad heidingjarnir, sem ekki sóktu eptir réttlætinu, hafa nád réttlætinu, en réttlætinu, sem fæst med trúnni. 31. En Israel, sem sókti eptir logmáli réttlætis, komst ekki ad logmáli réttlætisins.

32. Hvar fyrir? Því ad (hann sókti eptir því), ekki med trúnni, heldur svo sem med verkum lögmálsins, því ad þeir hafa rekid sig á þann ásteytingar-steininn, 33. svo sem skrifad er: sjá, eg set í Sion ásteytingar-stein og hrösunar hellu, og sérhver, sem á hann trúir, mun ekki til skammar verda.

## 10. Kapituli.

Gydingar leita forgefins eptir réttlæti af lögmálinu, því þad veitist í Jesú fyrir trúna. Þessi nád er Gydingum forgefins fram bodin.

1. Brædur, ósk míns hjarta og bæn til guds er fyrir Israel um frelsi; 2. því eg ber þeim vitni, ad þeir hafa vandlæting guds vegna, en ekki med skynsemd, 3. því ad, þar ed þeir þekkja ekki guds réttlæti, en leitast vid ad stadfesta sitt eigid réttlæti, þá hafa þeir ekki undirkastad sig guds réttlæti. 4. Því ad endir lögmálsins er Kristur, til réttlætis sérhverjum, sem trúir. 5. Því ad Móses skrifar um þad réttlæti, sem er af lögmálinu, ad sá madur, sem gjörir þess hluti, muni lifa þar af. 6. En þad réttlæti, sem er af trúnni, segir svo: þú skalt ekki segja í hjarta þínu: hver mun uppstiga í himininn,

það er: til að sækja Krist? 7. Eða hver mun
niðurstiga í undirdjúpið, það er: til að sækja
Krist frá þeim dauðu? 8. En hvað segir það?
Nálægt er þér boðorðið í munni þínum og í
hjarta þínu. Þetta er trúarinnar orð, hvert
vér prédikum; 9. því að ef þú viðurkennir
með munni þínum, að Jesús er drottinn, og
trúir hjarta þínu, að guð hafi uppvakið hann
frá dauðum, muntu hólpinn verða, 10. því að
með hjartanu verður trúað, til réttlætis, en
með munninum viðurkent til hjálpræðis; 11.
því að ritningin segir: hver, sem trúir á hann,
mun ekki til skammar verða. 12. Því að eing-
inn greinarmunur er Gyðings eða hins Gríska;
því að sá sami er allra drottinn, ríkur (náðar)
við alla þá, sem hann ákalla; 13. því að hver
sem ákallar nafnið drottins, mun hólpinn verða.
14. Hverninn skulu þeir þá ákalla þann, á
hvern þeir ekki trúðu? En hverninn skulu þeir
trúa á þann, af hverjum þeir ekki hafa heyrt?
En hverninn skulu þeir heyra án prédikara? 15.
En hverninn skulu þeir prédika, nema þeir séu
sendir? Svo sem skrifað er: hversu fallegir eru
fætur þeirra, sem friðinn boða, þeirra, sem boða
hið góða. 16. En þeir hlýddu ekki allir guð-

spjallinu, því að Esaias segir: hver trúði vorri
prédikun? 17. Svo kemur þá trúin af heyrn-
inni, en heyrnin fyrir guðs orð. 18. En eg
spyr: hafa þeir ekki heyrt? Jú, vissulega er um
alla jörð útgeinginn hljómur þeirra, og til endi-
marka heimsbygðarinnar þeirra orð. 19. En
eg spyr: hefir Israel ekki skilið það? Fyrst
segir Móses: eg mun láta yður metast við ó-
þjóð, og æsa yður til reiði við skynlausa þjóð.
20. En Esaias þorir líka að segja: eg er fund-
inn af þeim, sem ekki leituðu mín, og augljós
orðinn þeim, sem ekki spurðu að mér. 21. En
um Israel segir hann: allan daginn útbreiði
eg hendur mínar til fólks, sem er óhlýðið og
þverúðarfult.

## 11. Kapituli.

Gyðingarnir eru ekki útskúfaðir; þeir, sem náðina þiggja, eru útvaldir, hinir forhertir. Þeirra forherðing gaf tilefni til heiðingjanna umvendunar, við hverja Gyðingar mættu örfast til að fylgja þeirra dæmi. Postulinn dáist að guðs visdómi.

1. Eg spyr þá: hefir guð útskúfað sjálfs
síns fólki? Fjærri sé því; því að einnig eg er
Israels maður, af sæði Abrahams, ættkvísl

Benjamins. 2. Ekki hefir gud útskúfad fólki
sínu, hvert hann fyrir fram þekti (ad vera sitt);
eda vitid þér ekki, hvad ritningin segir um Eli-
as, hverninn hann gekk framm fyrir gud á móti
Israel, segjandi: 3. drottinn, spámenn þína hafa
þeir í hel slegid og ölturum þínum um vent, og
eg er einsamall eptir látinn, og sitja þeir um líf
mitt. 4. En hvad segir honum gudlegt and-
svar? Eg hefi eptirskilid mér sjálfum sjø þús-
undir manna, hverjir ekki hafa beygt sín kné
fyrir Baal. 5. Svoleidis eru þá einninn á
nærverandi tíma nokkrar leifar ordnar eptir út-
valningu nádarinnar. 6. En ef þad er af nád,
þá er þad ekki framar af verkum, annars væri
nádin þá ekki framar nád; en ef þad er af verk-
unum, þá er þad ekki framar nád, ellegar verk-
id verdur þá ekki verk framar. 7. Hvad þá?
Þad, sem Israel leitar eptir, hlotnadist hon-
um ekki, en útvalningunni hlotnadist þad, hinir
adrir urdu forhertir. 8. Svo sem skrifad er:
gud gaf þeim deyfdar anda, augu ekki til ad
sjá og eyrn til ekki ad heyra alt til þessa dags
í dag er; 9. og David segir: verdi bord þeirra
ad snøru og ad gildru og ad falli, og þeim ad

endurgjaldi! 10. Formyrkvist augu þeirra, að þeir sjái ekki, og beyg ætíð þeirra hrygg.

11. Eg spyr þess vegna: ráku þeir sig á, til þess að þeir skyldu falla? Fjærri sé því, heldur hefir af falli þeirra stadid heill heidingjum, til þess að þeir (Gydingar) mettust vid þá. 12. En ef fall þeirra er ríkdómur heimsins, og skadi þeirra ríkdómur heidingjanna, hve miklu framar þeirra fylling? 13. Því að vid ydur, heidingja, tala eg; að því leyti sem eg er heidinna manna postuli, vil eg mitt embætti heidra, 14. ef eg gæti hvatt mitt hold (mína ættmenn) til metnadar og frelsad nokkra af þeim; 15. því ef útskúfan þeirra er forlíkan heimsins (vid gud), hvad mun þá medtekning þeirra verda, nema líf af dauda? 16. En ef frumgródinn er heilagur, þá og svo deigid; og ef rótin er heilög, þá og svo kvistirnir. 17. En þótt sumir af kvistunum séu af brotnir, en þú, sem varst villi-vidsmjörsvidur, ert gródursettur í þeirra stad og ert ordinn hluttakari í olíutrésins rót og fitu, 18. þá stær þig ekki yfir kvistunum; en ef þú stærir þig, þá ber þú ekki rótina, heldur rótin þig. 19. Þú vilt máské segja: kvistirnir eru af brotnir, svo eg yrdi innrættur? 20. Að

vísu; fyrir vantrúar sakir eru þeir af brotnir,
en vegna trúarinnar stendur þú, upphef þig
ekki, heldur óttast. 21. Því ad hafi gud ekki
þyrmt enum náttúrlegu kvistum, þá mun hann
eingan veginn þyrma þér. 22. Sjá þar fyrir
gódgirni og strángleika guds: strángleika vid
þá, sem fallnir eru, en gódgirni vid þig, ef þú
vidhelzt í gódgirninni, annars verdur þú og
einninn af höggvinn. 23. En hinir (föllnu)
munu líka, ef þeir ekki áfram halda í vantrúnni,
innrætast, því ad máttugur er gud aptur ad
innræta þá; 24. því ad ef þú ert af höggvinn
því olíutré, sem af náttúrunni var villividur,
og í móti náttúrunni ert innrættur gódu olíu-
tré, hve miklu framar munu þessir náttúrlegu
kvistir innrætast sínu eigin olíutré? 25. Því ad
eg vil ekki, brædur, ad ydur sé ókunnur þessi
leyndardómur, svo ad þér varizt sérþótta, ad
forherdíng er sked nokkurn part í Israel, alt
til þess tíma ad fylling heidingjanna er inn-
komin; 26. og svo mun allur Israel frelsad-
ur verda, eins og skrifad er: frá Sion mun
koma sá, sem frelsar, og mun útrýma ógudlegu
athæfi frá Jakob. 27. Og þetta er hjá mér
sattmálinn vid þá, þegár eg hefi burt tekid þeirra

syndir. 28. Eptir nádarbodskapnum eru þeir
ad sönnu óvinir (guds) fyrir ydar sakir, en
eptir útvalningunni elskadir fyrir fedranna sak-
ir; 29. því ad nádargjafir guds og köllun eru
þannig, ad hann kann ekki þeirra ad idrast;
30. því ad eins og þér (heidingjar) fordum
vorud gudi óhlýdugir, en hafid nú miskun odl-
azt vegna þeirra (Gydinga) vantrúar, 31. svo
eru þeir nú einnig óhlýdnir ordnir ydur til
miskunar, svo ad þeir einnig miskun odlist; 32.
því ad gud hefir alla innilukt undir óhlýdnina,
til þess ad hann öllum miskunadi.

33. O þá dýpt ríkdóms, speki og þekkingar
guds! Hversu óútgrundanlegir eru dómar hans
og ósporrækir vegir hans! 34. Því ad hver hef-
ir þekt sinni drottins? eda hver hefir rádgjafi
hans verid? 35. Hver hefir fyrri gefid honum
og muni eiga laun ad honum? 36. Því ad af
honum og fyrir hann og til hans eru allir hlutir.
Honum sé dýrd um aldir, amen.

## 12. Kapituli.

Postulinn áminnir þá trúudu til heilags framferdis: ad hver einn, svo sem limur á Krists líkama, hegdi sér réttilega, einkum í audsýningu kærleiksverkanna.

1. Svo áminni eg ydur, brædur, fyrir miskunsemdir guds, ad þér framleggid ydar líkami svo sem offur, lifandi, heilagt, gudi þakknæmt, (hvert ed er) ydar skynsamleg gudsdýrkan, 2. og lagid ydur ei eptir öld þessari, heldur takid háttaskipti med endurnýúngu ydar sinnis, ad þér megid reyna, hver sé vilji guds, hvad gott er og (gudi) velþóknanlegt og fullkomid; 3. því ad eptir þeirri nád, sem mér er gefin, segi eg sérhverjum, sem á medal ydar er, ad hugsa ekki hærra, en hugsa ber, heldur hugsa svo, ad hann hugsi hyggilega, eptir því sem gud hefir sérhverjum útbýtt mælir trúarinnar. 4. Því ad svo sem vér höfum á einum líkama marga limi, en limirnir allir hafa ekki sama verk, 5. svo erum vér og margir einn líkami í Kristi, en hver fyrir sig annars limur; 6. en höfum margvíslegar nádargáfur, eptir þeirri gáfu sem oss er gefin, 7. hvert heldur spádóm eptir reglu trúarinnar, eda embætti, erum vér hver annars limir í embættinu, eda kennandi, í kenn-

inginni, 8. eda áminnandi, í áminningunni; sá útbýtandi, í hreinskilninni; sá fyrirrádandi, í kostgæfninni; sá miskunnandi, í hýrleikanum. 9. Elskan sé flærdarlaus; hatid hid vonda, en haldid fast vid þad góda. 10. Verid í bródurlegum kærleika innilega elskandi hver annan; hver verdi fyrri til, virding ad veita ödrum; 11. í idninni ólatir, í andanum glóandi, drottni þjónandi, 12. í voninni gladir, í þjáningunni þolinmódir, í bæninni stadfastir. 13. Takid þátt í naudþurftum heilagra, kostgæfid gestrísnina, 14. blessid þá, er ofsækja ydur, blessid, en bölvid ekki; 15. fagnid med fagnendum og grátid med grátendum; 16. verid samhuga innbyrdis, hugsid eigi hátt, heldur haldid ydur vid þad lága; verid eigi sérvitrir. 17. Gjaldid eingum ilt fyrir ilt; stundid þad, sem fyrir allra manna sjónum er sómasamlegt; 18. ef mögulegt er, þá hafid, svo mikid sem þér kunnid, frid vid alla menn; 19. hefnid ydar ekki sjálfir, elskanlegir, heldur gefid rúm reidinni; því ad skrifad er: mín er hefndin, eg vil endurgjalda, segir drottinn. 20. Þar fyrir, ef óvin þinn húngrar, þá gef honum ad eta, ef hann þyrstir, þá gef honum ad drekka, því þegar þú gjörir þetta, þá

safnar þú glóðum elds yfir höfuð honum. 21.
Lát ei yfirvinna þig af því vonda, heldur yfir-
vinn þú það vonda með því góða.

## 13. Kapituli.

Þeir trúuðu eiga að vera yfirvaldinu hlýðnir, auðsýna öllum kærleika, afleggja verk myrkranna.

1. Hver maður sé yfirboðnum valdstéttum undirgefinn; því að ekki er valdstétt, nema frá guði, og þær stéttir, sem eru, þær eru af guði tilskikkaðar; 2. svo að hver sem setur sig í móti valdstéttinni, hann stendur í móti guðs skikkun, en þeir, sem í móti standa, munu fá þeirra dóm (straff); 3. því að valdsmennirnir eru eigi ótti góðra verka, heldur vondra. En ef þú vilt eigi óttast valdstéttina, þá gjör hvað gott er, og muntu lofstír af henni hafa, 4. því að hún er guðs þénari þér til góðs; en ef þú gjörir ilt, máttu óttast, því hún ber sverðið ekki forgefins, því að hún er guðs þénari, hegnari til straffs, þeim sem ilt aðhefst. 5. Þess vegna er nauðsynlegt, undirgefinn að vera, ei alleina straffsins vegna, heldur og fyrir samvizkunnar sakir. 6. Þar fyrir gjaldið þér og skatt, því að þeir eru guðs þjónar, er þessa sama eiga

sífelt ad gæta. 17. Látid því øllum í té, hvad skylt er, þeim skattinn, sem skatturinn, tollinn, sem tollurinn, óttann, sem óttinn, heidur, sem heidurinn tilheyrir.

8. Verid eingum um neitt skýldugir, nema þad þér elskid hver annan; því ad hver, sem elskar annan, hefir løgmálid uppfylt; 9. því þetta, þú skalt ei hór drýgja, þú skalt ekki mann vega, þú skalt ekki stela, þú skalt ekki ljúgvitni bera, þú skalt ekki girnast, og sé nokkurt annad bodord, þá er þad í þessari grein innibundid, í þessari nefnilega: elska skaltú náúnga þinn, sem sjálfan þig. 10. Elskan gjørir ekki náúnganum mein; því er elskan løgmálsins uppfylling.

11. Og þad því heldur, sem vér vitum tímann, ad oss er mál upp ad rísa af svefni, því ad nú er hjálprædid oss nær, en þegar vér tókum trú. 12. Nóttin er umlidin, en dagurinn er kominn, leggjum af verk myrkursins og íklædumst herklædum ljóssins. 13. Látum oss framgánga, eins og á degi, sómasamlega, ekki í ófáti eda ofdrykkju, ekki í saurlífnadi né munadarlífi, ekki í þrættum né øfundsýki, 14. held-

ur iklædizt drottni Jesú Kristi; hafid og holdsins umsorgun ekki til ad æsa girndir.

## 14. Kapituli.

Sá styrkari vægi til vid hinn veikari, og þessi fordæmi ekki hinn; sérhver leiti dýrdar guds, hverjum vér eigum allir reikning ad standa. Einginn hneyksli sinn bródur eda gjöri neitt med efablendni.

1. Takid ad ydur þann, sem breyskur er í trúnni, án dóma um hans meiningar. 2. Þessi trúir, alls megi neyta, en hinn, sem breyskur er, etur einasta maturtir. 3. Sá, sem etur, forsmái ekki þann, sem ekki etur, og hver, sem ekki etur, dæmi ekki þann, sem etur; því ad gud hefir tekid hann ad sér. 4. Hver ertú, sem annarlegan þjón dæmir? Sinum eigin herra stendur hann eda fellur; en standa mun hann, því máttugur er gud ad láta hann standa.

5. Þessi tekur dag fram yfir dag, en hinn dæmir eins um alla daga. Sérhver veri í sinni meiningu fullviss. 6. Sá, sem af deginum heldur, heldur af honum vegna drottins, og sá, sem ekki gjörir sér daganna, gjörir hann ekki vegna drottins. Sá, sem etur (alla fædu), etur drottni, því ad hann gjörir gudi

þakkir; sá sem ekki etur, hann etur ekki, drottni
til dýrdar, og gjörir gudi þakkir. 7. Því ad
einginn af oss lifir sjálfum sér, og einginn deyr
sjálfum sér; 8. því ad ef vér lifum, lifum vér
drottni, ef vér deyum, deyum vér drottni; þar
fyrir, hvert vér lifum eda deyum, þá erum vér
drottins; 9. því ad til þess er Kristur bædi
dáinn og upp aptur risinn og endurlifnadur, ad
hann skyldi drottna bædi yfir daudum og lif-
endum. 10. En þú, hvad dæmir þú þinn bród-
ur? Ellegar og þú, hvad forsmáir þú þinn bród-
ur? Því ad allir munum vér látnir mæta fyrir
dómstóli Krists. 11. Því ad skrifad er: svo
sannarlega sem eg lifi, segir drottinn, fyrir
mér skulu öll kné sig beygja og allar túngur
skulu vidurkenna gud. 12. Þar fyrir mun
sérhver af oss fyrir sjálfan sig gudi reiknings-
skap gjöra.

13. Þar fyrir látum oss ekki framar dæma
hver annan, en dæmid heldur það, ad einginn
setji nokkra ásteytíngu edur hneyksli fyrir sinn
bródur. 14. Eg veit það, og em þess fullviss
í drottni Jesú, ad ekkert er almennilegt í sjálfu
sér, nema þeim sem reiknar eitthvad almenni-
legt, honum er það almennilegt. 15. En ef

þinn bródir sturlast fyrir fædunnar sakir, þá geingur þú ekki framar eptir kærleikanum; tortýn honum ekki med fædslu þinni, fyrir hvern Kristur er dáinn. 16. Látid ydar góda ekki komast í ilt ræmi, 17. því ad guds ríki er ekki matur og drykkur, heldur réttlæti og fridur og fögnudur í heilögum anda; 18. því ad hver sem þjónar Kristi í þessu, hann er gudi kær og af mönnum virtur. 19. Látum oss þá stunda þad, sem til fridarins þénar og sameiginlegrar uppbyggíngar! 20. Nidurbrjót ekki fyrir fædslunnar sakir verkid guds! Allt er ad sönnu hreint, en er þó ílt þeim manni, sem etur vegna (gefinnar) ásteytíngar; 21. þad er gott ad eta hvorki kjöt, né drekka vín, né (gjöra) nokkud þad, er þinn bródir steytir sig á eda hneykslast af eda veikist vid.

22. Þú hefir trúna, haf hana hjá sjálfum þér fyrir gudi. Sæll er sá, sem ei fordæmir sjálfan sig fyrir þad, sem hann heldur rétt vera; 23. en sá sem er efablandinn og etur þó, hann er sakfallinn, því hann neytir ekki eptir trú sinni; en alt þad, sem ekki er eptir trú, er synd.

## 15. Kapituli.

Sérhver á ad lifa sinum náúnga til þóknunar ad Krists dæmi; Páll, sem heidinna postuli, leyfir sér ad áminna Rómverja; segist vilja heimsækja þá þeim til uppbyggingar; á medan skuli þeir bidja fyrir honum.

1. En vér, sem styrkvir erum, eigum ad
umbera breyskleika þeirra óstyrku og ekki ad
þóknast sjálfum oss; 2. fyrir því þóknist sér-
hver af oss náúnganum i því, sem gott er til
uppbyggingar; 3. því ad einninn Kristur þókn-
adist ekki sjálfum sér, heldur svo sem skrifad er:
lastyrdi þeirra, sem lastmæla þér, koma nidur á mér.
4. Því ad, hvad helzt sem ádur er skrifad, þad er
ádur skrifad oss til lærdóms, svo ad vér fyrir þol-
inmædina og huggun ritninganna hefdum von-
ina. 5. En gud þolinmædinnar og huggunarinn-
ar gefi ydur, samlyndum ad vera innbyrdis ept-
ir Kristó Jesú, 6. svo ad þér samhuga med
einum munni dýrkid gud og fodur drottins vors
Jesú Krists. 7. Þar fyrir takid hver annan
ad ydur, svo sem Kristur hefir tekid oss ad sér,
til dýrdar gudi. 8. En eg segi Jesúm Krist
hafa verid þjónustumann umskurnarinnar, fyr-
ir guds sannleika sakir, til ad stadfesta fyrir-
heitin til fedranna; 9. en ad heidingjar skyldu

dýrka guð fyrir miskunnina, svo sem skrifað er:
fyrir það skal eg vegsama þig meðal heiðingj-
anna og þínu nafni lof syngja. 10. Og aptur
segir ritningin: fagnið, þér heiðingjar, með hans
fólki; og aptur: 11. lofið drottinn, allir heið-
ingjar, og prísum hann, allir lýðir; 12. og
enn aptur segir Esajas: vera mun rótarkvistur
Jessai, sá sem upp rís til að stjórna heiðingj-
um, á hann munu heiðingjar vona.

13. En guð vonarinnar fylli yður öllum fagn-
aði og friði í því að trúa, að þér hafið gnóg-
lega von fyrir krapt heilags anda.

14. En fullviss er eg, bræður mínir, og svo
sjálfur um yður, að þér eruð sjálfir fullir góð-
girni, uppfyltir af allri þekkingu og megnugir
að áminna hver annan. 15. En samt hefi eg
djarflega skrifað yður, bræður mínir, sumstaðar
svo sem þar að auki minnandi yður á, eptir þeirri
náð, sem mér er af guði gefin, 16. að eg væri þjón
Jesú Krists til heiðingjanna, svo sem handtérandi
guðs náðarboðskap, til þess að offur heiðingjanna
yrði þóknanlegt og helgað af heilögum anda;
17. þar fyrir hefi eg hrósun í Kristó Jesú í
því, sem guðs er; 18. því að ekki mundi eg
dirfast að tala nokkuð það, er Kristur hafi ei

verkad fyrir mig, ad koma heidingjum til hlýdni
19. med ordi og verki fyrir krapt tákna og
stórmerkja, fyrir krapt guds anda, svo ad eg
frá Jerúsalem og alt um kring inn til Illyrik-
um hefi kunngjört Krists nádarbodskap, 20. en
svoleidis, ad eg matti pad minn heidur, ad boda
nádarbodskapinn par, hvar Kristur ekki var (ád-
ur) nefndur, svo ad ekki bygdi eg ofan á ann-
arlegan grundvoll; 21. heldur svo sem skrifad er:
peir, hverjum ekkert var um hann sagt, skulu
sjá, og peir, ed ekki hafa heyrt, skulu skilja.
22. Par fyrir hefi eg og optlega hindrazt
frá, ad koma til ydar; 23. en nú, af pví eg
hefi eigi leingur rúm i pessum londum, en hefi
haft laungun ad koma til ydar i morg ár, 24.
pá, pegar eg ferdast til Spánar, vona eg, á
ferd minni ad sjá ydur og verda af ydur á veg
leiddur pángad, eptir pad eg fyrst ad nokkru
leyti hefi fullsvalad mér hjá ydur; 25. en nú
fer eg til Jerúsalem peim heilogu til pénustu;
26. pví ad Masedonin og Akkaju hefir pókn-
azt ad leggja saman nokkra gjof til handa fá-
tækum af peim heilogu i Jerúsalem. 27. Peim
hefir pad póknazt, lika voru peir hinna skuldu-
nautar, pví fyrst heidingjarnir eru ordnir hlut-

takandi andlegra (gæda) frá þeim, þá eru þeir og skyldugir ad þjóna þeim í líkamlegum (efnum). 28. En þegar eg hefi þad fullgjort og innsiglad þeim þenna ávort, mun eg fara um hjá ydur til Spánar. 29. En eg veit, ad þegar eg kem til ydar, mun eg koma med fullri blessunn Krists nádarbodskapar.

30. En eg beidi ydur, brædur, fyrir drottinn vorn Jesúm Krist og fyrir kærleika andans, ad þér viljid med mér strída í bænum til guds fyrir mér, 31. ad eg frelsadur verdi frá þeim vantrúudu í Júdea, og mitt erindi til Jerúsalem verdi af þeim heilogu vel upp tekid, 32. svo ad eg med fognudi mætti, ad vilja guds, til ydar koma og endurnæra mig ásamt med ydur. 33. En gud fridarins veri med ollum ydur, amen.

## 16. Kapituli.

Páll bidur Febe virtar og sendir kvedju sína morgum nafngreindum kristnum og heila sofnudinum; varar vid villumennum; ber kvedju frá ýmsum; endar bréfid med ósk fyrir sofnudinum og lofgjord til guds.

1. Eg fel ydur á hendur Febe, systur vora, hver ed er þjónustukvinna safnadarins í Kenkreis, 2. ad þér medtakid hana í drottni, svo

sem heilögum hæfir, og lidsinnid henni, í hverj-
um helzt hlut sem hún ydar vid þarf, því hún
hefir margra adstod verid, og líka mín. 3.
Heilsid Priskillu og Akvilas, mínum verkanaut-
um í drottni 4. (hver ed fyrir mitt líf hafa
sínum hálsi vogad), hverjum eg ekki einn má
þakkir gjalda, heldur og allir safnadir heidingj-
anna; 5. heilsid einninn þeim safnadi, sem er
í þeirra húsi; heilsid Epenetus, mínum elsku-
lega, hver ed er frumgródi Akkajn Kristi til
handa; 6. heilsid María, sem mikid hefir er-
vidad fyrir oss; 7. heilsid Andrónikus og Júni-
as, ættmonnum mínum og sambandingjum, hverj-
ir nafnkendir eru medal postulanna, og ádur en
eg urdu Krists menn; 8. heilsid Ampleas,
mínum elskulega í drottni; 9. heilsid Urbanus,
vorum verkanaut í Kristó, og Stakkys, mín-
um elskulega; 10. heilsid Apelles, sem er reynd-
ur gódur kristinn; 11. heilsid fólki Aristobúli;
heilsid Heródion, frænda mínum; heilsid þeim
af fólki Narkissi, sem eru drottins; 12. heils-
id Trýfenu og Trýfósu, sem hafa ervidad í
drottni; heilsid Persis, hinni elskulegu, hver
ed mikid hefir ervidad í drottni; 13. heilsid
Rúfus, einum útvalda í drottni, og módur hans

og minni; 14. heilsid Asynkrítus, Flegon, Hermas, Patróbas, Hermes og brædrunum, sem hjá þeim eru; 15. heilsid Filólógus og Júlías, Nereus og systur hans, og Olympu og öllum heilögum, sem med þeim eru. 16. Heilsizt innbyrdis med heilögum kossi; ydur heilsa Krists safnadir.

17. En eg áminni ydur, brædur, ad þér varid ydur á þeim, er valda sundurþykkju og hneyksli á móti þeim lærdómi, sem ydur hefir verid kendur, og ad þér sneidid ydur hjá þeim; 18. því ad þess háttar menn þjóna ekki drottni vorum Jesú Kristi, heldur sínum maga, og med blídmælum og fagurgala tæla þeir hjörtu meinlausra. 19. Af því ydar hlýdni er alkunnug ordin, þá gledst eg af ydur, en eg vil, ad þér séud vitrir til ens góda, en einfaldir til ens illa. 20. En gud fridarins mun sundur troda Satan undir ydar fætur. Nádin drottins Jesú Krists sé med ydur, amen.

21. Ydur heilsa: Tímóteus minn samþjón, Lúkíus og Jason og Sósipater, ættmenn minir. 22. Eg Tertius, sem bréfid hefi skrifad, heilsa ydur í drottni. 23. Ydur heilsar Ga-

jus, húsbóndi minn og heila safnadarins. Ydur heilsar Erastus, gjaldkeri borgarinnar, og Kvartus bródir.
24. Nádin drottins vors Jesú Krists sé med ydur öllum, amen.

25. En honum, sem máttugur er ydur ad styrkja eptir minu evangelió og Jesú Krists prédikun, eptir auglýsingu þess leyndardóms, sem um eilífdartima hefir í þögn legid,
26. en var opinberadur fyrir spámannlegar ritníngar, og nú eptir skipun eilífs guds til hlýdni trúarinnar medal allra heidíngja kunngjordur:
27. einum gudi sé, fyrir Jesúm Krist, dýrd um aldir, amen.

---

# S. Páls fyrri pistill
til
# Korintumanna.

---

## 1. Kapituli.

Páll óskar þeim kristnu i Korintu guds nádar; þakkar gudi fyrir, ad Krists lærdómur hafi fest rætur hjá þeim, og vonar, ad þekking hans og hlýdni vid hann muni fara vaxandi; lastar ósamlyndi þeirra; varar þá vid, ad láta sig af heimsins vitringum fleka frá Krists einfalda lærdómi, sem heiminum ad sønnu þyki heimskulegur, en innihaldi þó gudlegan visdóm og krapt; gud hafi ena litilmótlegu útvalid, svo menn verdi alt nád guds ad þakka.

1. Páll, kalladur, ad guds vilja, til ad vera postuli Jesú Krists, og bródir Sóstenes, 2. óskar nádar og fridar af gudi, vorum fødur, og drottni Jesú Kristi, guds søfnudi i Korintuborg, ydur, sem fyrir Jesúm Krist erud helgadir,

kalladir og heilagir, 3. ásamt öllum þeim, hvar
helzt sem þeir eru, sem ákalla nafn Jesú Krists,
vors og þeirra drottins.
4. Eg þakka gudi mínum jafnan ydar vegna
fyrir þá guds nád, sem ydur er gefin fyrir
Jesúm Krist; 5. því ad þér erud fyrir hann í
öllu audgadir í alls konar lærdómi og þekkingu,
6. med því lærdómur Krists er ordinn hjá yd-
ur rótfestur, 7. og þad svo, ad þér ekki erud
varhluta af nokkurri nádargjöf, og væntid opin-
berunar drottins vors Jesú Krists, 8. er og
mun styrkja ydur alt til enda, svo ad þér séud
óstraffanlegir á degi drottins vors Jesú Krists.
9. Trúr er sá gud, sem hefir kallad ydur til
samfélags síns sonar, drottins vors Jesú Krists.
10. Eg áminni ydur, brædur, í nafni drott-
ins Jesú Krists, ad þér séud allir á einu máli,
og ekki séu flokkadrættir ydar á milli, heldur
séud samlyndir og samdóma; 11. því mér er
sagt af heimilismönnum Klóe, brædur mínir,
ad deilur séu ydar á milli. 12. Eg meina
þetta, ad einn af ydur segir: eg er Páls; ann-
ar: eg er Apollós; þridji: eg er Kefasar;
fjórdi: eg er sjálfs Krists. 13. Er þá búid
ad skipta Kristi í sundur? Mun Páll hafa

verid krossfestur ydar vegna? Eda erud þér
skírdir í Páls nafni? 14. Gudi sé lof, ad eg
eingan ydar hefi skírt, nema Krispus og Kajus,
15. svo ad einginn geti sagt, ad eg hafi skírt
í minn nafni. 16. Eg skírdi líka Stefáns heim-
ilismenn; fleiri veit eg ekki til ad eg hafi skírt;
17. því ekki sendi Kristur mig til ad skíra, heldur
til ad kenna, ekki med ordspeki, svo ad lærdóm-
urinn um hinn krossfesta misti ekki krapt sinn.
18. Lærdómurinn um hinn krossfesta er þeim
heimska, er sælunnar missa, en oss, sem hólpn-
ir erum, gudlegur kraptur; 19. því skrifad er:
eg vil ad eingu gjøra spekinganna speki og ó-
nýta viturleik hinna vitru. 20. Hvar stendur
nú spekingurinn? hvar hinn loglærdi? hvar
þessarar aldar vitringar? Hefir gud ekki gjørt
speki þessa heims ad heimsku? 21. Því þar ed
heimurinn med sinni guds-speki ekki þekti gud
af spekinni, þá þóknadist gudi ad gjøra þá med
einfaldlegri kenningu hólpna, er henni vildu
trúa. 22. Med því Gydingar krefja tákna og
Grískir leita ad speki, en vér bodum Krist þann
hinn krossfesta; 23. svo er Gydingum vor kenn-
ing til ásteytingar, en heidingjum sýnist hún
vera heimska. 24. Þeim þar á mót, sem kall-

adir eru, bædi Gydingum og Grikkjum, prédik-
um vér Krist, krapt guds og speki; 25. því
það fávíslega guds er monnum vitrara, og það
veika guds monnum kroptugra.

26. Litid til ydar kollunar, brædur minir,
margir ydar eru ekki, eptir manna áliti, spek-
ingar, ekki margir voldugir, ekki margir stór-
ættadir; heldur hefir gud útvalid þá fávísu
heimsins, 27. svo hinum vitru gjordist kinn-
rodi, og þá ena litilmótlegu hefir gud útvalid
sér, svo ad þeim voldugu gjordist kinnrodi; 28.
þá ena ógofugu í heiminum og fyrirlitnu hefir
gud útvalid, og þá, sem ekkert þókti i varid, til
þess ad gjora ekkert úr þeim, sem nokkud þókti
i varid, 29. svo ad eingum skuli hrósa sér fyr-
ir gudi. 30. Honum er það ad þakka, ad þér
erud komnir í samfélag vid Jesúm Krist, sem
oss er ordinn speki frá gudi til réttlætis, helg-
unar og endurlausnar; 31. því skrifad er: sá
sem hrósar sér, hann hrósi sér af gudi.

## 2. Kapituli.

Páll forsvarar kristnibod sitt; segist málsnildarlaust hafa kent krossins lærdóm, svo hans kraptur tilskrifist lærdóminum einum, sem innihaldi þvilíkan visdóm, sem

Heimsins vitringum hafi verid of hár, nema þeir upplýstust af lærdóminum sjálfum.

1. Og þegar eg kom til ydar, brædur, og bodadi ydur vitnisburdinn guds, kom eg med einga frammúrskarandi ordsnilld edur speki; 2. því eg ásetti mér ad láta ekki á því bera, ad eg vissi annad en lærdóminn um Jesúm Krist og hann krossfestan. 3. Med litillæti og ótta og mikilli hrædslu var eg med ydur. 4. Minn lærdómur og kenning var inni falin, ekki í fortølum spaklegrar málsnildar, heldur í auglýsingu anda og kraptar, 5. svo ydar trú væri ekki bygd á mannlegri speki, heldur á guds krapti.

6. Vér tølum ad sønnu speki medal þeirra fullkomnu, en þó ekki speki þessarar aldar, edur þessarar aldar høfdingja, úr hverjum litid mun verda, 7. heldur kennum vér speki guds leyndarráds, er ádur var hulin, hverja gud hafdi frá eilífd fyrirhugad oss til dýrdar. 8. Af þessari speki vissi einginn þessarar aldar høfdingja, því ef þeir hefdu þekt hana, hefdu þeir ekki krossfest drottinn dýrdarinnar, 9. heldur, eins og skrifad stendur: auga hefir ekki séd, ekki eyra heyrt og í einkis huga komid, hvad gud hefir þeim fyrirbúid, sem hann elska. 10.

En oss hefir guð opinberað hana fyrir sinn anda, því andinn rannsakar alt, og guðs leyndar-ráð. 11. Hver veit, hvað í manninum býr, nema mannsins andi, sem í honum er; svo veit einginn, hvað í guði býr, nema guðs andi. 12. Vér höfum ekki meðtekið heimsins anda, heldur þann anda, sem frá guði er, svo vér þekkjum þá náð, sem hann hefir oss veitta. 13. Þetta kennum vér, ekki með orðum, sem mannleg speki hefir oss kent, heldur með orðum, er andinn hefir méðdeilt oss, og útlistum það andlega með andlegum orðum fyrir andlega sinnuðum. 14. En holdlega sinnaður skilur ekki það andlega, það er heimska fyrir honum, og hann getur ekki skilið það, því það hlýtur andlega að dæmast. 15. En hinn andlega sinnaði dæmir um alt, en verður af eingum dæmdur; 16. „því hver hefir þekt drottins sinni, að hann geti frætt hann"? En vér höfum Krists sinni.

## 3. Kapituli.

Postulinn sýnir, að Korintumenn hafi einga orsök til að stæra sig af, hvað vel kristnir þeir séu. Flokkadráttur þeirra á milli lýsir því, og að þeir byggja um of

upp á manna lærdóm, sem þó eru ekki annad en guds þjónar: því ad Kristur er grundvöllurinn, sem hver kennari á ad byggja ofan á, sem hann hefir vit til; en ekki er sama, hvernig ofan á er bygt, og hættulegt, ad reida sig á annara manna vit, ad menn ekki spilli guds musteri.

1. Sannlega gat eg ekki talad vid ydur,
brædur minir, svo sem andlega, heldur svo sem
holdlega, svo sem born í Krists trúar þekkingu.
2. Eg gaf ydur mjólk, en ekki mat, því þér
þoldud hann ekki; já, þér þolid hann ekki enn,
því enn þá erud þér holdlegir; 3. metningur,
deilur og tvidrægni eru á medal ydar. Erud
þér þá ekki holdlegir og hegdid ydur eptir al-
mennings sid? 4. Þegar einn segir: eg er Páls;
en annar: eg er Apollós, erud þér þá ekki
holdlegir? 5. Því hvad er Páll, hvad er
Apolló, annad en þjónar, sem hafa leidt ydur
til kristni, hver eptir því sem drottinn hefir
veitt hverjum fyrir sig? 6. Eg plantadi, Apolló
vökvadi, en gud hefir gefid frjófgunina; 7. svo
ad ekki er sá mikill, sem gródursetur edur vökv-
ar, heldur gud, sem frjófgunina gefur. 8. Sá,
sem plantar, og sá, sem vökvar, eru eitt, og
hver þeirra mun fá þau laun, sem hann vinn-
ur til. 9. Vér erum guds þjónar, þér erud

guds akur, guds hús. 10. Sem skynsamur
byggingarmeistari hefi eg grundvollinn lagt,
eptir þeirri náð, sem mér er af gudi gefin, en
annar hefir bygt ofan á; hver einn hafi gát á,
hverninn hann gjørir það. 11. Einginn getur
annan grundvoll lagt en þann, sem lagður er,
sem er Jesús Kristur. 12. Byggi menn ofan
á þenna grundvoll gull, silfur, dýrmæta steina,
tré, hey, hálm, 13. þá mun verda opinbert,
hvílíkt hvers eins verk er, tíðin mun gjøra það
augljóst, eldurinn mun opinbera það, hann mun
prófa, hvílíkt hvers eins verk er. 14. Ef það
stendur, sem madur hefir ofan á bygt, mun
hann fá laun; 15. en brenni það upp, bíður
hann þar af skada, sjálfur mun hann komast af,
en þó líka sem úr eldi. 16. Vitið þér ekki, að
þér erud guds musteri, og að guds andi býr í
ydur? 17. Hver sem skemmir guds musteri,
þann mun gud straffa, því að guds musteri er
heilagt, og þetta musteri erud þér. 18. Eing-
inn dragi sig sjálfan á tálar; ef nokkur á medal
ydar þykist vera vitringur á þessari old, hann
verdi fávís, svo hann verdi vís; 19. því speki
þessa heims er heimska hjá gudi; því svo stend-
ur skrifað: hann grípur þá vitru í þeirra slægd;

20. og á ødrum stad: drottinn þekkir hugsanir
hinna vitru, ad þær eru hégómlegar. 21.
Einginn stæri sig því af mønnum, 22. því alt
er ydvart, hvort heldur þad er Páll edur A-
polló, edur Kefas, edur heimur, edur líf, edur
dandi, þad yfirstandandi edur tilkomandi. 23.
Alt er ydvart; þér erud Krists, en Kristur er
guds.

## 4. Kapituli.

Kennarar eru guds rádsmenn, sem eiga honum reikning ad standa, en ekki hverjum, sem lastar þá. Páll straffar þá, sem vilja rýra hans postula-embætti og taka sjálfhælna kennara fram yfir hann; áminnir, ad breyta eptir sér og fordast hroka.

1. Hver einn álíti oss, sem Krists þjóna
og umbodsmenn guds leyndardóma. 2. En þad
krefst af sérhverjum umbodsmanni, ad hann sé
trúr. 3. Þad er mér fyrir minstu, hvern dóm
þér edur adrir leggja á mig; eg dæmi mig ekki
sjálfur. 4. Einkis íls er eg mér ad sønnu med-
vitandi; þó vil eg ekki þar fyrir segja mig sýkn-
saka; drottinn er sá, sem dæmir mig. 5. Dæm-
id því ekki fyri tímann, fyrri en drottinn kem-
ur, sem í ljós mun leida þad í myrkrum var
hulid, og opinberar gjøra hjartnanna hugsanir,

og þá mun sérhver fá sín laun af gudi. 6.
Þetta heimfæri eg ydar vegna upp á mig og
Apolló, ad þér af okkur getid lært ad hugsa
ekki hærra, en skrifad er, ad einginn stæri sig af
nokkrum manni gegn ødrum.

7. Hver hefir gefid þér yfirburdi yfir adra?
Edur hvad hefir þú, þad þú ekki hafir þegid?
En ef ad þú hefir þegid þad, því hrósar þú
þér þá, eins og þú hefdir þad ekki þegid? 8.
Þér erud þá þegar mettir ordnir, þér erud
ordnir audugir, þér rikid án mín. Eg vildi,
ad svo væri, því þá gæti eg rikt med ydur. 9.
Mér sýnist, sem gud láti oss postulana vera
audvirdilegasta allra manna, svo sem ætlada til
danda, því vér erum ordnir skodunarspil heim-
inum, einglum og mønnum. 10. Vér høldumst
heimskir vegna Krists, en þér vel fródir í Krists
(trú), vér veikir, þér styrkvir, þér erud virtir,
vér vanvirtir. 11. Alt til þessarar stundar
lidum vér húngur, þorsta, klædleysi og høgg,
og høfum eingan samastad. 12. Vér vinnum
med vorum eigin høndum; þá oss er óskad ils,
óskum vér góds; þá vér erum ofsóktir, umber-
um vér þad. 13. Þá vér erum lastadir, á-
minnum vér. Vér erum ordnir eins og sorp

veraldar og afhrak allra alt til þessa tíma. 14.
Þetta skrifa eg ekki til ad gjora ydur kinnroda,
heldur áminni eg ydur, svo sem elskuleg born;
15. þvi þótt þér hafid ótal lærimeistara i
kristilegri trú, þá hafid þér samt ekki marga
fedur, þvi eg hefi getid ydur til kristilegrar
trúar med minni kenningu. 16. Eg bid ydur
því: breytid eptir mér. 17. Þess vegna sendi
eg til ydar Tímóteum, minn elskulegan son og
trúan i drottins þjónustu; hann mun segja ydur, hvernig eg rek Krists erindi allstadar, þar
sem eg kenni kristni. 18. En nokkrir eru
ordnir hródugir yfir því, ad eg aldrei muni
koma til ydar; 19. en eg mun brádum koma
til ydar, ef drottinn vill, og þá mun eg reyna,
ekki ord sjálfbyrginganna, heldur krapt; 20.
því guds ríki er ekki fólgid i ordum, heldur
krapti. 21. Hvad viljid þér? A eg ad koma
til ydar med vendi, edur med kærleika og i hógværum anda?

## 5. Kapituli.

Postulinn varar vid lausleti og frillulifnadi.

1. Alræmt er, ad lauslæti sé hjá ydur
drottnandi, og þvilikt lauslæti, ad ekki eru dæmi

til slíks medal heidinna, ad nokkur skal halda
vid fødur síns eiginkonu. 2. Og þó erud þér
upphrokadir, og látid ydur ekki miklu heldur
vera ant um þad, ad sá, sem þetta verk hefir
drýgt, rekist burt frá ydur. 3. Eg fyrir mitt
leyti, þótt eg sé fráverandi ad líkamanum til,
samt nálægur í huga, 4. hefi í nafni drottins
vors Jesú Krists og eptir þeim myndugleika,
sem hann hefir mér gefid, svo sem nálægur úr-
skurdad (ad ykkur samankølludum ásamt mínum
anda), 5. ad gefa þann, er þvílíkt hefir drýgt,
í Satans vald til deydingar holdinu, svo sálin
mætti hólpin verda á degi drottins vors Jesú
Krists. 6. Ekki er ydar stærilæti fallegt. Vit-
id þér ekki, ad lítid súrdeig getur sýrt alt deig-
id? 7. Takid burt hid gamla súrdeigid, svo ad
þér framvegis getid verid nýtt deig, eins og
þér nú erud ósýrdir; því vort páskalamb er og
vor vegna slátrad, nefnilega Kristur. 8. Hold-
um því hátíd, ekki med hinu gamla súrdeiginu,
edur med súrdeigi vonzkunnar og prettvísinn-
ar, heldur med ósýrdu braudi hreinskilninnar
og sannleikans. 9. Eg skrifadi ydur í bréfi mínu,
ad þér skyldud ekki hafa afskipti af frillulífis-
mønnum; 10. en eg meinti aldúngis ekki til

frillulífismanna út um heiminn, edur til á-
sælinna, ránsmanna, edur skurdgoda-dýrkara
þar, þvi þá yrdud þér ad fara út úr heimin-
um. 11. En nú skrifa eg ydur, ad þér skulud
ekki samlaga ydur þeim bródur, sem er frillu-
lífismadur, edur ásælinn, edur skurdgoda-
dýrkari, edur ordhákur, edur drykkjumadur, ed-
ur ránsmadur; med þvilíkum skulud þér ekki
hafa mötuneyti. 12. Þvi hvad kemur þad mér
vid, ad dæma um þá, sem fyrir utan söfnudinn
eru? Þvi dæmid þér ekki þá, sem í söfnudin-
um eru? En hina, sem fyrir utan hann eru,
mun gud dæma. Rekid þann vonda burt frá
ydur.

## 6. Kapituli.

Lastar, ad klögumál kristinna á milli séu borin undir heidna dómendur, og yfir höfud, ad lestir skuli vid gángast medal kristinna. Straffar þá, sem taka lauslæti í forsvar.

1. Hver ydar getur feingid þad af sér, ef
hann hefur mál ödrum á móti, ad láta þad
koma undir dóm heidinna, en ekki heldur undir
dóm heilagra? 2. Edur vitid þér ekki, ad þeir
heilögu munu heiminn dæma? En ef heimur-

inn verdur af ydur dæmdur, erud þér þá ó-
verdugir ad dæma í minstu málum? 3. Vitid
þér ekki, ad vér munum einglana dæma, því
þá ekki þad tímanlega? 4. Ef ad þér hafid mál
um þad tímanlega, þá setjid þér þá til dómara,
sem í fyrirlitníngu eru í söfnudinum. 5. Þetta
segi eg ydur til blygdunar. Er þá ekki einn
einasti svo vitur á medal ydar, ad hann geti
skorid úr málum milli brædra sinna, 6. heldur
geingur bródir í rétt á móti bródur og þad
fyrir dómstóli vantrúadra? 7. Yfir höfud ad
tala er þad ydur til smánar, ad þér hafid laga-
deilur hver vid annan. 8. Því lídid þér ekki
heldur órétt, og því látid þér ekki heldur á-
sælast ydur? En þér gjörid sjálfir órétt og
ásælizt adra, og þad ydar brædur. 9. Vitid þér
ekki, ad óréttvísir munu ekki guds ríki erfa?
Dragid ydur ekki sjálfa á tálar; hvorki frillu-
lífismenn, né skurdgoda-dýrkarar, né hórdóms-
menn, né mannbleydur, edur þeir, sem leggjast
med karlmönnum, 10. né þjófar, né ásælnir,
né drykkjumenn, né ordhákar, né ránsmenn,
munu guds ríki erfa. 11. Þvílíkir voru nökkr-
ir af ydur ádur, en nú erud þér þvegnir,

helgadir og réttlættir fyrir Jesúm Krist og
guds vors anda.
12. Alt er mér leyfilegt, en alt er samt
ekki þénanlegt. Alt er mér leyfilegt, en eg má
ekki láta nokkurn hlut fá vald yfir mér. 13.
Fædan er fyrir magann, og maginn fyrir fæd-
una, en gud mun gjøra enda á, bædi henni og
honum. 14. En líkaminn er ekki (gefinn) til
frillulífis, heldur drottni til þjónustu, og drott-
inn er fyrir líkamann; því gud, sem uppvakti
drottinn, mun og uppvekja oss fyrir krapt sinn.
15. Vitid þér ekki, ad ydar líkamir eru Krists
limir? Skyldi eg taka Krists limi og gjøra
þá ad limum skækunnar? Fjærri sé því. 16.
Edur vitid þér ekki, ad sá, sem samlagar sig
skækunni, er einn líkami med henni? Því þau
tvø munu verda einn líkami, segir ritníngin. 17.
En sá, sem samlagar sig drottni, er einn andi
med honum. 18. Fordizt frillulífnad; sérhver
ønnur synd, sem madurinn drýgir, er líkaman-
um óvidkomandi: en sá, sem saurlífi drýgir,
syndgar á móti sínum eigin líkama. 19.
Edur vitid þér ekki, ad ydar líkami er musteri
þess heilaga anda, sem í ydur býr, hvern þér
hafid frá gudi, og ad þér erud ekki ydar eigin

herrar; 20. því fyrir verd erud þér keyptir; vegsamid því gud med ydar líkama.

## 7. Kapituli.

Hvernig hjón skuli hegda sér hvort vid annad. Rádur meyum og ekkjum ad lifa ógiptum. Bannar hjónaskilnad. Hver lifi í því standi, sem hann er kalladur. Orsakir, hvar fyrir ógipt stand sé betra.

1. Hvad þad áhrærir, er þér skrifudud mér um, þá er þad gott, ad vera ekki vid konu kendur; 2. en fyrir frillulífis sakir, þá haldi hver vid sína eiginkonu, og hver kona vid sinn eiginmann. 3. Madurinn gæti sinnar skyldu vid konuna, og sömuleidis konan vid manninn. 4. Konan hefir ekki vald yfir sínum eigin líkama, heldur madurinn; sömuleidis hefir madurinn ekki vald yfir sínum líkama, heldur konan. 5. Hvorugt haldi sig frá ødru, nema þad skyldi vera eptir samkomulagi um tíma, svo þér getid stundad ydar bænahald; en takid sídan saman aptur, svo ad Satan ekki freisti ydar vegna ydar bindindisleysis. 6. Þetta segi eg af vorkunsemi, en býd þad ekki; 7. því eg vildi, ad allir væru eins og eg, en hver hefir sína gáfu af gudi, einn þessa, annar hina.

8. Ogiptum og ekkjum segi eg, ad þeim er
betra, ad vera eins og eg er; 9. en vanti þær
bindindi, þá giptist þær; því betra er ad gipt-
ast, en brenna (af losta).

10. Þeim giptu skipa eg, þó ekki eg, heldur
drottinn, ad konan skuli ekki skilja vid mann
sinn; 11. en ef hún er skilin vid hann, þá sé
hún ógipt, ellegar taki aptur saman vid mann-
inn; ekki heldur skilji madurinn vid konuna. 12.
Hinum ødrum býd eg, ekki drottinn, ad ef nokk-
ur bródir á vantrúada konu, og hún vill búa
saman vid hann, þá skilji hann sig ekki vid hana;
13. og ef kona nokkur á vantrúadan mann, og
hann vill búa saman vid hana, þá skilji hún
ekki vid hann. 14. Sá vantrúadi madur helg-
ast af konunni, og hin vantrúada kona helgast
af manninum, annars væru børn ydar vanhei-
løg, en nú eru þau heiløg. 15. En ef ad hinn
vantrúadi vill skilja vid konuna, þá gjøri hann
þad; því, þegar svo á stendur, þá er einginn
bródir eda systir þrælbundin, en gud hefir kall-
ad oss til fridar. 16. Hvad veiztú, kona, nema
þú getir gjørt manninn hólpinn? Edur hvad
veiztú, madur, nema þú getir hólpna gjørt kon-
una? Þad veiztu ekki. 17. Sérhver veri í því

ástandi, sem drottinn hefir úthlutad honum, sér-
hver eins og hann var, þá gud kalladi hann;
svo býd eg í øllum søfnudum.
18. Ef hann var
umskorinn, þegar hann var kalladur, þá dragi
hann ekki yfirhúdina yfir aptur; ef hann þá
var óumskorinn, láti hann sig ekki umskera.
19.
Umskurnin er ekkert, og yfirhúdin ekkert, held-
ur vardveizla guds bodorda.
20. Sérhver veri
í þeirri stétt, sem hann var í, þegar hann var
kalladur.
21. Hafir þú verid þræll', þá þú
varst kalladur, láttu þig einu gilda; en ef þú
getur frjáls ordid, þá vel þad heldur.
22.
Sá, sem var þræll, þá hann var kalladur, er
drottins frelsingi; sá, sem þá var frjáls, er
Krists þræll.
23. Þér erud dýru verdi keypt-
ir, verid ekki manna þrælar.
24. Gódir bræd-
ur, sérhver þjóni gudi í þeirri stétt, sem hann
er í kalladur.
25. En um meyar hefi eg ekk-
ert bodord af drottni, en segi mína meiningu,
svo sem sá, er þá miskun hefir ødlazt af gudi,
ad vera trúr.
26. Þad er þá mín meining, ad
þad sé manninum þénanlegt vegna yfirstandandi
neydar, ad vera ógiptur;
27. sértú vid konu
bundinn, þá leita ekki skilnadar, en sért þú konu-
laus, þá leita ekki kvonfángs.
28. En þótt þú

giptist, syndgar þú ekki, og þó að mey giptist, syndgar hún ekki; en þvílíkir munu í líkamlega þreingingu komast, en eg vil hlífa ydur vid henni. 29. Því þad segi eg ydur, brædur, ad skamt muni þess ad bída, ad þeir, sem konur hafa, verdi sem þeir einga hefdu; 30. þeir, sem gráta, eins og þeir, sem ekki gráta; þeir, sem gledjast, eins og þeir, sem af eingu hafa ad gledjast; þeir, sem kaupa, eins og þeir, sem ekkert eiga; 31. þeir, sem njóta heimsins gæda, eins og þeir, sem ekki hafa þeim ad fagna; því fegurd veraldar munu hverfa. 32. En eg óska, ad þér séud áhyggjulausir. Hinn ókvænti hyggur ad drottins vilja, hvernig hann megi drottni þóknast; 33. en hinn, sem kvæntur er, ber áhyggju fyrir því veraldlega, hvernig hann megi konunni þóknast. 34. Þad er og mismunur á konu og ógiptri stúlku: sú hin ógipta hugsar um þad, sem drottni vidkemur, ad hún sé heilög bædi á sálu og líkama; en sú gipta hugsar um þad veraldlega, hvernig hún geti manninum þóknazt. 35. Þetta segi eg ydur sjálfum til góds, en ekki til ad leggja fyrir ydur fótakefli, heldur svo ad þér í sidsemi, stödugleika og hindrunarlaust getid tilheyrt drottni.

36. En ef einhver þykist hafa vansa af því, ad mey hans ekki giptist í tíma, og hjá því verdi ekki komizt, þá gjöri hann, sem honum líkar, hann syndgar ekki; giptist þau. 37. En sá, sem stendur stödugur í sínum ásetníngi, og eingin naudsyn þreingir til, heldur er sjálfrádur, ad gjöra þad hann vill, og hefir ásett sér ad geyma mey sína, hann gjörir vel. 38. Þar fyrir gjörir sá vel, sem giptir hana; en sá, sem ekki giptir hana, gjörir enn betur. 39. Konan er bundin, medan ektamadur hennar lifir; en þegar hann er dáinn, er henni frjálst, ad giptast hverjum hún vill, einúngis ad hann sé kristinn. 40. En betur er sú farin, sem ekki giptir sig, eptir minni meiníngu, og þykist eg líka hafa guds anda.

## 8. Kapituli.

Einginn láti þekkíngu sína verda ödrum til ásteytíngar. Skurdgod eru ad sönnu ekkert, en þó má ekki eta skurdgoda fórnir, svo hinn veiktrúadi ekki hneykslist.

1. Hvad þad kjöt áhrærir, sem skurdgodum er fórnfært, vitum vér, ad allir höfum vér þekkíngu (þekkíngin gjörir mann stærilátan, en kærleikurinn uppbyggir; 2. svo ef nokkur þykist mik-

ill af þekkingu sinni, hann þekkir ekkert, eins og þekkja ber; 3. en sá, sem elskar guð, hann þekkir guð). 4. Hvað áhrærir nautn þess, sem skurðgoðum hefir fórnfært verið, þá vitum vér, að skurðgoð er ekkert, og einginn guð til, utan sá eini. 5. Því jafnvel þó guðir séu kallaðir, svo vel á himni sem á jørðu (eins og sagt er: margir eru guðir og margir drottnar), 6. þá høfum vér ekki nema einn guð føðurinn, frá hverjum alt er, og vér honum (til dýrðar), og einn drottinn Jesúm Krist, fyrir hvern alt er, vér einnig. 7. En allir hafa ekki þessa þekkingu, heldur eta sumir það enn nú, af skurðgoða trú, sem skurðgoða fórn, og saurgast svo þeirra samvizka, sem veik er. 8. Fæðan mælir ekki fram með oss hjá guði, því vér erum hvorki betri, þótt vér etum, né verri, þótt vér ekki etum. 9. En gætið þess, að yðar frjálsræði í þessu verði ekki hinum fáfróðari ásteytingarefni; 10. því sæi einhver breyskur þig, sem upplýstur ert, sitja til borðs í skurðgoða hofi, mundi ekki samvizka þess, sem veikur er, stælast svo, að hann æti skurðgoða fórnir? 11. Þannig spillir þú með þinni upplýsingu velferð þins breyska bróðurs, fyrir hvern Kristur

er dáinn. 12. Þegar þér þannig syngdid móti
ydar brædrum og meidid þeirra reikandi sam-
vizku, þá syndgid þér á móti Kristi. 13. Þess
vegna, ef eg med nautninni hneyksla minn bród-
ur, skal eg aldrei ad eilifu kjøt eta, svo eg ekki
hneyksli hann.

## 9. Kapituli.

Postulinn sýnir, ad hann hafi rétt til, ad lifa upp á kostnad safnadanna; en eins i þessu, sem fleiru, takmarki hann frelsi sitt, til þess ad geta áunnid sem flesta. Hvetur til, ad menn, ad hans dæmi, skuli med stridi og bindindi gjøra sig verduga þeirra launa, er sannkristnum þar fyrir eru heitin.

1. Er eg ekki frjáls madur? Er eg ekki
postuli? Hefi eg ekki séd Jesúm Krist drott-
inn vorn? Erud þér ekki ávortur míns ervid-
is i drottins þjónustu? 2. Þó eg sé ekki annara,
þá er eg samt vissulega ydar postuli; þvi ad
þér erud innsigli míns postula-embættis i drott-
ins þjónustu; 3. þetta er mitt forsvar gegn
þeim, sem hnidra mér. 4. Hofum vér ekki rétt
til, ad eta og drekka? 5. Er oss ekki leyfilegt,
ad hafa med oss kristna konu, eins og hinum
postulunum, brædrum drottins, og Kefasi? 6.

Skyldum vid Barnabas einir ekki hafa leyfi til,
ad vera fríir frá vinnu? 7. Hver fer nokkru
sinni í stríd upp á eigin kostnad? Hver plant-
ar víngard, og neytir ekki af hans ávexti? Ed-
ur hver vaktar hjørd, og neytir ekki af mjólk
hjardarinnar? 8. Tek eg hér dæmi af háttum
manna? Segir ekki løgmálid hid sama? 9.
Því í Mósis løgmáli stendur skrifad: mýldu
ekki nautid, sem þreskir. Mun gud bera um-
hyggju fyrir nautunum? 10. Vissulega segir
hann þad vor vegna; því vor vegna er þad
ritad, ad sá sem plægir, á ad plægja í von-
inni, og sá sem þreskir, verda hluttakandi þess,
sem hann vonar. 11. Ef vér høfum sád nid-
ur hjá ydur því andlega, er þad þá of mikid,
þó vér uppskerum hjá ydur þad líkamlega? 12.
Ef adrir hafa þetta vald yfir ydur, hversu
framar þá ekki vér? En vér høfum ekki hag-
nýtt oss þad, heldur umberum vér alt, svo ad
vér gjørum lærdómi Krists einga hindrun. 13.
Vitid þér ekki, ad þeir, sem ad fórnfæring-
unum þjóna, eta af fórninni, og þeir, sem alt-
arinu þjóna, taka hlut med því? 14. Eins hefir
og drottinn tilskipad, ad þeir, sem nádarlærdóm-
inn boda, skuli lifa af því. 15. En eg hefi ekki

nýtt mér neitt af þessu. Eg skrifa þetta ekki heldur til þess, ad svo skuli vera gjørt vid mig, því mér er betra ad deya, en ad nokkur ónýti þetta hrós. 16. Þó ad eg bodi nádarlærdóminn, er þad ekkert hrós fyrir mig, því eg á ad gjøra þad. Vei mér, ef eg gjøri þad ekki. 17. Ef eg gjøri þad fúslega, fæ eg laun; en gjøri eg þad med naudúng, er mér þó þetta embætti á hendur falid. 18. Hver eru þá mín laun? Ad eg skuli flytja nádarbodskap Krists kauplaust og nýta mér ekki þad leyfi, sem bodan nádarlærdómsins gefur mér. 19. Því þó ad eg sé eingum manni undirgefinn, hefi eg samt gjørt mig sjálfan ad hvers manns þjóni, svo eg áynni þess fleiri. 20. A medal Gydinga hefi eg verid Gydingur, svo eg áynni Gydinga; hjá þeim, sem undir løgmálinu eru, hefi eg verid eins og undir løgmálinu, þó eg sé ekki undir því, til þess eg áynni þá, sem undir løgmálinu eru. 21. Hjá þeim løgmálslausu, sem løgmálslaus (ekki samt løgmálslaus fyrir gudi, heldur løgbundinn Kristi), svo eg áynni þá løgmálslausu. 22. Medal hinna óstyrku hegdadi eg mér sem óstyrkur, svo eg áynni þá. Eg hefi verid øllum alt, ad eg med øllu móti gæti frelsad nokkra. 23. Þetta

gjöri eg vegna náðarboðskaparins, svo eg verði
hluttakandi í hans' gæðum.

24. Þér vitið, að þeir, sem á skeiðvellinum
hlaupa, hlaupa að sönnu allir, en ekki fær samt
nema einn hnossið. Hlaupið þannig, að þér
öðlizt það. 25. En hver, sem fer í kappleik,
leggur hart á sig; þeir, til að vinna forgeingi-
lega kórónu, en vér, óforgeingilega. 26. Þess
vegna hleyp eg ekki svo sem upp á óvissu, berst
ekki sem sá, er í vindinn slær; 27. heldur tem
eg minn líkama og þjái hann, svo að eg, sem
kenni öðrum, verði ekki sjálfur rækur.

## 10. Kapituli.

Ströffunarlærdómar guðs yfir Gyðingum eiga að þéna öðrum til aðvörunar. Kristnum sæmir ekki, að sitja að blótveizlum; eiga jafnvel að halda sér frá leyfilegum hlutum, t. a. m. leifum skurðgoða fórna, til þess að hneyksla ekki aðra.

1. Eg vil ekki dylja fyrir yður, bræður, að
feður vorir voru allir undir skýinu, og að þeir
allir fóru yfir um hafið, 2. voru til fylgdar
við Móses, allir skírðir í skýinu og hafinu,
3. neyttu allir þeirrar sömu andlegu fæðu, og
drukku allir sama andlega drykk; 4. því þeir

drukku af þeirri andlegu hellu, sem þeim fylgdi;
en þessi hella var Kristur. 5. Samt voru
fæstir af þeim gudi þóknanlegir; þess vegna
féllu þeir í eydimørkinni.. 6. Þetta er sked
oss til vidvørunar, svo ad vér girnumst ekki hid
vonda, eins og þeir girntust. 7. Verid ekki
skurdgoda-dýrkarar, eins og nokkrir af þeim
voru; því skrifad er: þeir settust nidur ad eta
og drekka, og stódu upp til leika. 8. Hórizt
ekki, eins og nokkrir þeirra; þar fyrir dóu 23
þúsundir á einum degi. 9. Freistid ekki held-
ur Krists, eins og sumir af þeim gjørdu, og
fyrirfórust af høggormabiti. 10. Møglid ekki,
eins og nokkrir þeirra møgludu, hverjum og
fordjarfarinn fyrirfór. 11. Alt þetta kom yfir
þá þeim til bendíngar, og er ritad oss til vid-
vørunar, yfir hverja endir aldanna er kominn.
12. Sá, sem þykist standa, gæti ad sér, ad hann
ekki falli. 13. Þér hafid ekki reynt nema mann-
lega freistni; en gud er trúr, er ekki mun láta ydur
rata í freistni fram yfir megn, heldur gjøra þann
endir þar á, ad þér getid stadizt hana.

14. Fordizt þar fyrir skurdgodadýrkun, mín-
ir elskanlegir. 15. Eg tala til ydar, svo sem
hygginna manna; rannsakid þér ord mín. 16.

Sá blessunar-kaleikur, hvern vér blessum, er hann ekki hluttekning Krists blóðs? Og brauðið, sem vér brjótum, er það ekki hluttekning Krists líkama? 17. Fyrst það er eitt brauð, svo erum vér allir einn líkami; því vér erum allir hluttakandi í þessu eina brauði. 18. Lítið til þeirra, sem Gyðingar eru eptir holdinu; koma þeir, sem fórnirnar eta, ekki í samfélag við altarið? 19. Hvað segi eg? að skurðgoð sé nokkuð? eður það, sem því er offrað, nokkuð? 20. En því sem heiðingjarnir fórnfæra, því fórnfæra þeir samt djöflum, en ekki guði; en eg vil ekki, að þér hafið samnautu með djöflunum. 21. Ekki getið þér undir eins verið hans borðgestir og þeirra. 22. Eður skulum vér reita drottinn til reiði? Munum vér vera máttugri, en hann?

23. Alt er leyfilegt; en alt gagnar samt ekki. Alt er leyfilegt; en alt gagnar samt ekki til uppbyggingar. 24. Einginn leiti síns gagns, heldur annara. 25. Etið alt það, sem á torginu selst, og spyrjið ekkert um það, fyrir samvizkunnar sakir; 26. því drottni tilheyrir jörðin, og alt, sem á henni er. 27. Ef einhver, sem ekki er kristinn, býður yður, og þér viljið fara,

þá etid alt, sem fyrir ydur verdur sett, og
rannsakid þad ekki, fyrir samvizkunnar sakir.
28. En ef einhver segir til ydar: þetta eru
skurdgodafórnir, þá etid ekki, fyrir þess manns
sakir, sem advaradi ydur, og samvizkunnar
vegna. 29. Eg segi, samvizkunnar vegna, ekki
ydar eigin, heldur hins; því hvar fyrir skal
mitt frelsi dæmast eptir annars manns sam-
vizku? 30. Ef eg neyti fædunnar med þakk-
læti, því er mér hallmælt fyrir þad, er eg gjøri
gudi þakkir fyrir? 31. Hvort heldur þér et-
id, edur drekkid, edur hvad helzt þér gjørid,
gjørid þad alt gudi til dýrdar. 32. Gefid eing-
um, hvorki Gydingi né Grikkja, né guds sofn-
udi, nokkra orsøk til ásteytingar, 33. líka sem
eg leitast vid, ad þóknast øllum i øllu, og leita
ekki míns hagnadar, heldur margra, svo ad þeir
hólpnir verdi. Kap. 11, 1. Breytid eptir mér,
eins og eg breyti eptir Kristi.

## 11. Kapituli.

Lastar, ad menn viki frá vidtekinni venju vid útvortis gudsdýrkun. Áminnir, ad sýna bródurlegan kærleika vid kvoldmáltídina og fordast manngreinar-álit og alla ósæmilega hegdun, svo menn gjøri sig ekki straffs seka.

2. Þad er hrósvert, brædur, ad þér

minnist mín í öllu, og haldið þær reglugjörðir,
sem eg hefi tilsett. 3. En vitið það, að Krist-
ur er hvers karlmanns höfuð, en karlmaðurinn
konunnar höfuð, en guð Krists höfuð. 4. Hver
sá karlmaður, sem biður eður spáir með höf-
uðfati á höfði, óvirðir sitt höfuð. 5. En hver
kona þar á móti, sem biður eður spáir með beru
höfði, óvirðir höfuð sitt, því það er, eins og
höfuðhár hennar væri burt rakað. 6. Ef konan
vill ekki hylja sig, þá láti hún afraka sitt höf-
uðhár; en ef það er konu vansi, að klippast
eður rakast, þá hylji hún höfuð sitt. 7. Karl-
maðurinn á ekki að hylja höfuðið, því hann er
ímynd og geisli guðs dýrðar, en konan er þar
á mót geisli mannsins dýrðar. 8. Maðurinn er
ekki af konunni, heldur konan af manninum; 9. ekki
er heldur maðurinn skapaður vegna konunn-
ar, heldur konan vegna mannsins. 10. Þess
vegna ber konunni að bera lotningarmerki á höfði
sér, sakir einglanna. 11. Samt er hvorki mað-
urinn án konunnar, né konan án mannsins, ept-
ir drottins tilætlun. 12. Því eins og konan
er af manninum, svo er og maðurinn af kon-
unni; en alt er af guði. 13. Hugsið eptir
með sjálfum yður, hvort það sómir konu,

ad biðja til guðs berhöfðaðri? 14. Eður segir ekki yðar eigin náttúra yður, að karlmanni er það til vanvirðu, að láta hár sitt vaxa, 15. en aptur á mót konu sæmd, að láta hár sitt vaxa, því henni er hárið gefið í skýlustað? 16. En vilji nokkur þrátta hérum, þá viti hann, að vér höfum ekki slíka venju, og ekki heldur guðs söfnuðir.

17. Undir eins og eg get þessa, vil eg ekki hrósa því, að þér komið saman, ekki til ens betra, heldur til ens verra. 18. Fyrst heyri eg, að þegar þér komið saman í söfnuðinum, sé sundurlyndi yðar á milli, og að nokkru leyti trúi eg því. 19. Flokkadrættir verða að vera yðar á milli, svo að þeir þekkist úr, sem góðir eru. 20. Þegar þér komið til samans, er það ekki til að halda drottins kvöldmáltíð; 21. því hver tekur sína fæðu fyrir fram fyrir sig, þegar til borðhaldsins kemur, svo einn er svángur, en annar mettur. 22. Hafið þér ekki heimili, hvar þér getið etið og drukkið? Eður fyrirlítið þér guðs söfnuð og forsmáið þá, sem fátækir eru? Hvað á eg að segja yður? Á eg að hrósa yður? Fyrir þetta hrósa eg yður ekki. 23. Eg hefi meðtekið af drottni, það sem eg hefi kent yður, að drottinn Jesús, á þeirri nótt

sem hann var svikinn, tók braudid, gjørdi þakk-
ir, braut það og sagdi: 24. þetta er minn
líkami, sem fyrir ydur verdur brotinn; gjørid
það í mína minningu. 25. Sømuleidis og svo
kaleikinn eptir kvøldmáltídina, segjandi: þessi
kaleikur er nýr sáttmáli í mínu blódi; gjørid
þetta, svo opt sem þér drekkid, í mína minn-
ingu. 26. Svo opt sem þér etid þetta braud,
og drekkid af þessum kaleik, minnist á dauda
drottins, þángad til hann kemur. 27. Hver
þar fyrir, sem etur þetta braud og drekkur af
kaleik drottins óverduglega, sá verdur sekur vid
drottins líkama og blód. 28. Sérhver prófi
sig þar fyrir sjálfan, og eti sídan af braudinu
og drekki af kaleiknum; 29. því sá sem óverd-
uglega etur og drekkur, hann etur og drekkur
sér til dómsáfellis, þar ed hann ekki gjørir
greinarmun á herrans líkama. 30. Þar fyr-
ir eru svo margir á medal ydar veikir, van-
máttugir, og margir dánir. 31. En ef vér
prófum oss sjálfa, þá værum vér ekki dæmdir.
32. En þegar drottinn straffar, þá er það til
betrunar, svo vér ekki skulum fordæmast med
heiminum. 33. Þar fyrir, brædur mínir, þeg-
ar þér komid saman til máltídar, þá bídid hver

eptir ødrum. 34. Ef nokkurn húngrar, eti
hann heima, svo ad þér ekki komid saman ydur
til fordæmingar. Hitt annad mun eg tilsetja,
þegar eg kem.

## 12. Kapituli.

Heilagur andi útbýtir sínum gáfum, hverjum eptir sinni vild, en sérhver brúki þær til sameiginlegs gagns.

1. Eg vil ekki láta ydur, brædur mínir, vera
ókunnugt um þad, hverjir andans gjafir hafi.
2. Þér vitid, ad þá þér vorud heidíngjar, geing-
ud þér til mállausra skurdgoda, eptir því
sem þér leiddir vorud. 3. Þar fyrir skulud
þér þad vita, ad eingi sá, sem talar af guds
anda, formælir Jesú, og ad eingi getur Jes-
úm kallad drottinn, nema heilagur andi sé med
honum. 4. Mismunur er á nádargáfum, en
sami er drottinn; 5. mismunur er á embættum,
en sami er drottinn; 6. mismunur er á fram-
kvæmdum, en gud er þó hinn sami, er verkar
alt í øllum. 7. En sérhverjum er gefid ad
sýna andans gjøf ødrum til gagns; 8. því ad
þessum er af andanum gefid ad mæla af vis-
dómi; en ødrum djúpsær þekking, af þeim sama
anda; 9. en ødrum trú, af sama anda; ødrum
lækuisgáfa, af þeim sama anda; 10. ødrum

framkvæmdir kraptaverka; ødrum spádóms gáfa;
ødrum greind á ad dæma um andans gáfur;
ødrum margháttadar túngur; 11. ødrum út-
legging túnguanna. En alt þetta verkar einn
og hinn sami andi, sem gefur hverjum einum
eptir sinni vild; 12. því eins og líkaminn er
ekki nema einn, þó hann hafi marga limu, en
allir limir þess eina líkama, sem eru margir,
eru einn líkami: 13. eins er Kristur; því ad
vér erum allir med einum anda skírdir til ad
vera einn líkami, hvort sem vér erum Gyding-
ar, edur Grikkir, þrælar edur frjálsir menn,
og allir erum vér drykkjadir, svo vér séum einn
andi; 14. því ad líkaminn er ekki einn limur,
heldur margir. 15. Þó fóturinn segdi: fyrst
eg er ekki hønd, er eg ekki partur líkamans;
mundi hann ekki vera þad eins fyrir þad? 16.
Og þó eyrad segdi: fyrst eg er ekki auga, er
eg ekki partur líkamans; mundi þad ekki þar
fyrir vera líkamans limur? 17. Ef allur líkam-
inn væri auga, hvar væri þá heyrnin? Ef hann
allur væri eyra, hvar væri þá ilmanin? 18.
En nú hefir gud sett limina á líkamanum,
hvern einn, þar sem honum leizt. 19. Ef all-
ir limirnir væru einn limur, hvar væri þá lík-

aminn? 20. En nú eru limirnir margir, en
líkaminn einn. 21. Augad má því ekki segja
til handarinnar: eg þarf þín ekki vid; edur
höfudid vid fæturna: eg þarf ykkar ekki vid;
22. heldur eru miklu fremur þeir limir naud-
synlegastir, sem audvirdilegastir sýnast; 23. og
þeim limum líkamans sýnum vér mestan sóma,
sem vér höldum óálitlegasta, og þeir, sem ljót-
astir eru, prýdast mest, 24. en þeir, sem fall-
egir eru, hafa þess ekki þörf; heldur hefir gud
þannig hagad líkamans samteingingu, ad sá,
sem midur er, sé mest verdur, 25. svo ekki verdi
ágreiníngur milli líkamans lima, heldur ad hver
limurinn beri umhyggju fyrir ödrum. 26.
Þar af er þad, ad hvort sem einn limurinn
lídur, lída allir limirnir med honum, edur ein-
um vel vegnar, þá samgledjast allir hinir lim-
irnir. 27. En þér erud Krists líkami og lim-
ir, hver fyrir sig. 28. Og suma setti gud í
söfnudinum, fyrst postula, þar næst spámenn,
svo kennara, þar næst þá, sem hafa gáfu til ad
lækna, adstoda, stjórna og ad tala margháttudum
túngum. 29. Eru allir postular? allir spá-
menn? allir lærifedur? Er öllum gefid ad gjöra
kraptaverk? Hafa allir læknisgáfu? 30. Tala

allir túngum, edur geta allir útlagt þær? 31. Sækizt eptir þeim beztu gáfum, og enn fremur vil eg vísa ydur þann bezta veg.

## 13. Kapituli.

Ef kærleikann vantar, gagna ekki hinar gáfurnar. Elskunnar eiginlegleikar. Allar adrar gáfur þverra loksins; elskan ein er varanleg.

1. Þó ad eg talad gæti bædi eingla og manna túngum, en hefdi ekki kærleikann, þá væri eg eins og hljómandi málmur og hvellandi bjalla; 2. og þó eg hefdi spádómsgáfu, vissi alla leyndardóma og hefdi alls háttar kunnáttu, hefdi trú svo mikla, ad eg gæti fjöll flutt, en hefdi ekki kærleikann, þá væri eg einkis verdur. 3. Og þó eg bitadi nidur allar eigur mínar og léti jafnvel brenna mig, en hefdi ekki kærleikann, væri þad mér til einkis gagns.

4. Kærleikurinn er umburdarlyndur, gódviljadur, ekki öfundsjúkur, ekki raupsamur, 5. ekki hrokafullur, gjörir ekkert ósæmilegt, er ekki sérplæginn, ekki fljótur til reidi, tilreiknar ekki ilt, 6. gledur sig ekki af óréttvísi, en elskar rádvendni, 7. er þagmælskur, trúir öllu, vonar alt, umber alt.

8. Kærleikurinn fellur aldrei úr gildi, en hvort heldur þad eru spádómsgáfur, þá munu þær þverra, edur túngur, þá mun þeim linna, edur kunnátta, þá mun hún þrjóta. 9. Því þekking vor er ófullkomin, og spádómsgáfa eins; 10. en þegar þad fullkomna kemur, þá þverrar þad ófullkomna. 11. Þegar eg var barn, taladi eg sem barn, var lyndur eins og barn og hugsadi sem barn; en þegar eg vard fullordinn, aflagdi eg bernskuna. 12. Nú sjáum vér gegnum gler í þoku, en á sídan berlega; nú þekkjum vér ad nokkru leyti, en þá mun eg sjálfur þekkja, eins og eg er sjálfur þektur. 13. Þetta þrent, trúin, vonin og kærleikurinn, er varanlegt, en af þessu er kærleikurinn mestur.

## 14. Kapituli.

Ad tala túngum, þegar einginn útleggur, gagnar ekkert; en ad tala af spámannlegri andagipt, er uppbyggilegra. Konur tala ekki opinberlega í söfnudinum. Allt framfari þar sómasamlega og med reglu.

1. Stundid eptir kærleikanum; sækizt eptir ennum andlegu gáfunum, en allra helzt, eptir spámannlegri andagipt. 2. Sá, sem talar túngum, talar ekki vid menn, heldur vid gud; því einginn skilur hann, hann talar í anda hulda

lærdóma. 3. En sá, sem talar af spámann-
legri andagipt, talar mønnum til uppbygging-
ar, áminningar og huggunar. 4. Sá, sem tal-
ar túngu, uppbyggir sjálfan sig; en sá, sem tal-
ar af spámannlegri andagipt, uppbyggir søfn-
udinn. 5. Eg vildi, ad þér allir gætud túng-
um talad, en þó heldur, ad þér tølnud af spá-
mannlegri andagipt, því þad er meira vert,
en ad tala túngum, nema hann undir eins út-
leggi, svo ad søfnudurinn hafi þar af uppbygg-
íngu. 6. Hvad mundi eg gagna ydur, bræd-
ur, þó eg kæmi til ydar og taladi túngum, nema
eg undir eins taladi til ydar fyrir opinberun
eda þekkíngu edur spámannlega andagipt edur
lærdóm? 7. Því er eins varid og daudum hlut-
um, er hljód hafa, hvort heldur þad er hljód-
pípa, edur harpa, ef hún gefur ekki adgreining
hljódunum, hverninn getur madur þá vitad, hvad
þad er, sem leikid er á pípuna edur hørpuna?
8. Sømuleidis, ef lúdurinn gæfi óskilmerkilegt
hljód, hver mundi þá búa sig til bardaga? 9.
Þannig og þér; nema ydar mál sé skiljanlegt,
hver veit þá, hvad þér talid? Þér talid út í vedr-
id. 10. Til dæmis eru svo og svo margar túng-
ur til í heiminum, en eingin, sem er meining-

arlaus. 11. Ef eg skil ekki meiningu málsins,
er eg fyrir þeim, er talar, sem útlendingur, og
hann eins fyrir mér. 12. Sömuleidis og þér;
þar ed þér sækizt eptir andans gáfum, þá kapp-
kostid ad vera sem fullkomnastir, söfnudinum til
uppbyggingar. 13. Sá sem þar fyrir túngu
talar, bidji, ad hann geti þad útlagt. 14. Ef
eg bid á framandi túngu, bidur ad sönnu minn
andi, en meining mín verdur ávartarlaus. Hvern-
ig á þad þá ad vera? 15. Eg vil bidja i anda,
en bidja undir eins, svo skiljist; eg vil sýngja i
anda, en sýngja, svo þad skiljist; 16. því þó
þú lofir gud í anda, hvernig á hinn ólærdi ad
segja amen til þinnar lofgjördar, þar ed hann
veit ekki, hvad þú segir? 17. Látum svo vera,
ad lofgjörd þín sé falleg, en annar hefir ekki
uppbyggingu þar af. 18. Gudi mínum sé lof,
ad eg tala betur túngum, en þér allir; 19. en
heldur vil eg i söfnudinum tala fimm ord svo
skiljanleg, ad eg geti ödrum kent, heldur en tíu
þúsund á framandi túngu. 20. Brædur, ver-
id ekki börn í skilníngi, heldur eins og börn i
hrekkvísi, en í skilníngi fullordnir. 21. Í lög-
málinu stendur skrifad: í framandi túngum og
med útlendum vörum vil eg tala til þessa fólks,

en samt mun það ekki hlýða mér, segir drottinn. 22. Framandi túngur eru því teikn, ekki þeim trúudu, heldur vantrúudu; en hin spámannlega andagipt ekki þeim vantrúudu, heldur þeim trúudu. 23. Ef að allur søfnuðurinn væri saman kominn og allir tøludu túngum, og einhver vantrúaður, eður sá, sem ekki skildi túngurnar, kæmi þar inn, mundi hann ekki segja, að þér værud galdir? 24. En ef allir tala með spámannlegri andagipt, og einhver vantrúaður eður vankunnandi kemur inn, finnur hann leiðréttingar og straffanir í øllu, sem þér segið; 25. það sem í hjarta hans er hulið, verður opinbert, svo að hann mun falla fram á sína ásjónu og tilbiðja guð, og meðkenna, að guð sé sannarlega með yður. 26. Hvað flýtur hér af, bræður? Að þegar þér í søfnuðinum saman komið, og sérhver yðar hefir sálm fram að færa, eður einhvern lærdóm, eður eitthvað í framandi túngu, eður upplýsingu eður útleggingu, þá veri það alt til uppbyggingar. 27. Ef nokkur talar túngu, þá séu það tveir, mest þrír, og það til skiptis, en einn leggi út. 28. En ef eingi er, sem getur útlagt, þá þegi sá í søfnuðinum (sem á framandi túngu talar), en tali

vid sjálfan sig og gud. 29. En tveir edur þrír spámenn mega tala, en adrir dæmi um. 30. En ef nokkur, sem situr, fær opinberun, þá þegi sá fyrri. 31. Allir getid þér, hver eptir annan, talad spámannlegri andagipt, svo ad allir læri og allir huggist, 32. því spámanna andar eru spámønnum undirgefnir, 33. med því gud er ekki óeirdar, heldur fridarins gud. Eins og vid geingst í øllum søfnudum kristinna manna, 34. ber ydrum konum ad þegja í søfnudunum, því þeim er ekki leyft ad tala, heldur ad hlýda, eins og líka løgmálid býdur. 35. En ef þær vilja frædast í einhverju, spyrji þær menn sína heima, því konum sæmir þad ekki, ad tala í søfnudinum. 36. Edur hefir guds lærdómur frá ydur út geingid? eda erud þér þeir einustu, er hann er kominn til? 37. Ef nokkur þykist spámadur vera, eda gæddur andans gáfu, þá viti hann, ad þad, sem eg hér skrifa ydur, er drottins bod. 38. Ef nokkur vill ekki vid þetta kannast, rádi hann því. 39. Kappkostid því, brædur, ad ødlast spámannlega andagipt; ekki skulud þér heldur banna ad tala túngum; en alt framfari fallega og med reglu.

## 15. Kapituli.

Páll vitnar um Krists upprisu. Hrekur þá, sem neita
henni. Kennir, hverninn þeir dauðu muni upprisa.
Huggar þar með þá trúuðu.

1. Eg vil aptur minna yður, bræður, á náð-
arboðskap þann, er eg áður hefi boðað yður
og þér veittuð meðtöku, 2. við hvern þér hafið
og svo haldið stöðuglega, og sem mun yður
einninn hólpna gjøra, ef þér geymið hans, eins
og eg kendi yður hann, nema svo sé, að þér
hafið ófyrirsynju trúna tekið. 3. Eg kendi yð-
ur fyrst og fremst þann lærdóm, sem eg hefi
meðtekið: að Kristur væri dáinn vegna vorra
synda eptir ritningunum, 4. og grafinn og upp-
risinn á þriðja degi eptir ritningunum 5. og
sé sjeður af Kefasi, og þar eptir af þeim tólf.
6. Þar eptir var hann sjeður í einu af meir
en fimm hundruð bræðrum, er flestir lifa alt
til þessa dags, en sumir eru dánir. 7. Þar
eptir birtist hann Jakobi, síðan øllum postul-
unum. 8. Síðast allra opinberaðist hann og
svo mér, svo sem ótímabærum burði; 9. því eg
er siztur postulanna, og ekki verður að kallast
postuli, því að eg hefi ofsókt guðs søfnuð; 10.
en af náð guðs er eg, það eg er, og náð hans

vid mig hefir ekki verid til forgefins, heldur hefi eg unnid meira en allir hinir, þó ekki eg, heldur guds nád, sem med mér er. 11. Þad sé nú eg, edur þeir, þá kennum vér þannig, og þannig høfum vér trúad.

12. En ef þad er kent, ad Kristur sé upp risinn, hverninn geta þá nokkrir af ydur sagt, ad daudra upprisa sé ekki til? 13. En ef daudra upprisa er ekki møguleg, þá er Kristur heldur ekki upp risinn; 14. en ef Kristur er ekki upp risinn, þá er vor kenning ónýt, og trú ydar líka ónýt. 15. Vér finnumst þá og ljúgvottar guds, þar ed vér høfum vitnad um gud, ad hann hafi upp vakid Krist frá dauda, er hann hefir ekki upp vakid, ef daudir ekki upp rísa; 16. því ef daudir ekki upp rísa, þá er Kristur ekki upp risinn; 17. en ef Kristur er ekki upp risinn, þá er ydar trú ónýt, 18. þér erud þá enn nú í ydar syndum, og þeir kristnu, sem dánir eru, fortapadir. 19. Ef vér einúngis í þessu lifi settum vora von til Krists, þá værum vér hinir vesælustu allra manna. 20. En nú er Kristur upp risinn frá daudum, frumgródi allra þeirra, sem dánir eru: 21. því þar ed daudinn kom fyrir einn mann, kom og upprisa daudra fyr-

ir einn mann. 22. Því ad líka sem allir deyja
í Adam, svo munu og allir lifgast í Kristi,
23. sérhver í sinni rød; Kristur er frumgróde-
inn, þar næst munu þeir, sem Kristi tilheyra,
upp rísa í hans tilkomu. 24. Þar eptir kem-
ur endirinn, þá hann mun selja gudi og fødur
ríkid í hendur, þá hann búinn er ad afmá alt
veldi, herradæmi og makt; 25. því ad honum
ber ad ríkja, þar til hann hefir lagt alla óvini
undir sína fætur. 26. Sá sídasti óvinur, sem
afmáist, er daudinn; 27. því alt hefir hann undir
hans fætur lagt. En þegar hann segir ad alt
sé honum undirgefid, þá er þad audsætt, ad sá
er þar frá undan skilinn, er alt lagdi í hans
vald. 28. En þegar hann er búinn ad leggja
alt undir hans veldi, þá leggur sjálfur sonur-
inn sig undir þess veldi, er ádur hafdi lagt alt
undir hans vald, svo ad gud sé alt í øllu. 29.
En hvad gjøra þeir, er láta skírast fyrir hina
daudu, ef daudir øldúngis ekki upp rísa? og því
láta þeir skíra sig fyrir þá? 30. Og því er-
um vér í sífeldum háska? 31. Daglega er eg
í daudans hættu; þad vitna eg hátídlega vid
lofstír þann, sem eg af ydur hefi í þjónustu
vors drottins Jesú Krists. 32. Hvert gagn

hefdi eg af því, ad eg hefi vid óargadýr (ad
eg kvedi svo ad ordi) barizt í Efesus, ef ad
daudir ekki upp rísa? 33. Látum oss eta og
drekka, því á morgun deyum vér. 34. Látid
ekki villa ydur; vont samfélag spillir gódum
sidum. Vaknid fyrir alvoru og syndgid ekki;
sumir þekkja ekki gud. Eg segi þetta ydur til
blygdunar.

35. En má ske einhver segi: hvernig geta
daudir upp risid? Med hvílíkum líkama munu
þeir fram koma? 36. Þú heimskingi, þad, sem
þú sáir, lifnar ekki aptur, nema þad deyi; 37.
og þad, sem þú sáir, er ekki sá líkami, er þad
sídar verdur, heldur einbert frækorn, til dæm-
is: hveitis, edur einhvers annars; 38. en gud
gefur því líkama, eptir sem hann vill, og sér-
hverju frækorni sinn eiginlegan líkama. 39. Ekki
er alt hold sama hold; heldur er annad mann-
anna, annad hold dýranna, annad fiskanna, ann-
ad fuglanna. 40. Til eru bædi himneskir lík-
amir og jardneskir líkamir, en ønnur er fegurd
þeirra himnesku, ønnur þeirra jardnesku. 41.
Ødruvísi er birta sólarinnar, ødruvísi túngls-
ins, og enn ødruvísi stjarnanna (því stjarna er
stjørnu bjartari). 42. Þannig er og varid

upprisu hinna dauðu. Hér er niður sáð forgeingilegum líkama, en upp rís óforgeingilegur; 43. hér er niður sáð óásjálegum líkama, en upp rís vegsamlegur; 44. það er niður sáð veikum, en upp rís máttugur; náttúrlegum líkama verður niður sáð, en upp rís andlegur líkami. Til er náttúrlegur líkami. 45. Svo stendur og skrifað: hinn fyrsti maður Adam varð að lifandi sálu, hinn síðari Adam að lífgandi anda. 46. Ekki kom hinn andlegi fyrst, heldur hinn náttúrlegi, þar eptir hinn andlegi. 47. Hinn fyrri maður varð mold af jörðu, hinn síðari maður er drottinn af himni. 48. Eins og sá jarðneski var, þannig eru þeir jarðnesku, og eins og sá himneski var, þannig og þeir himnesku; 49. og eins og vér höfum borið líking þess jarðneska, eins munum vér og bera líking þess himneska. 50. Hér með vil eg sagt hafa, bræður, að hold og blóð getur ekki öðlazt guðs ríki, né hið forgeingilega óforgeingilegleikann. 51. Sjá, eg segi yður leyndardóm: vér munum ekki allir sofna, en allir umbreytast í vetfángi, í einu augnabliki, 52. við hinn síðasta lúðurs þyt (því lúðurinn mun gella, og hinir dauðu upp rísa óforgeingilegir, en vér umbreytast);

53. Þvi þad forgeingilega verdur ad íklædast ó-
forgeingilegleikanum, og hid daudlega ódaud-
legleikanum.
54. En þegar hid forgeingilega íklædist ófor-
geingilegleikanum, og hid daudlega ódaudlegleik-
anum, þá rætist þad, sem skrifad er: daudinn
er uppsvelgdur í sigur. 55. Daudi, hvar er þinn
broddur? Myrkra heimur, hvar er þinn sig-
ur? 56. En broddur daudans er syndin, en
afl syndarinnar er løgmálid. 57. Gudi séu
þakkir, sem oss hefir sigurinn gefid fyri vorn
drottinn Jesúm Krist! 58. Brædur mínir
elskanlegir, verid þess vegna stødugir, óbifan-
legir, ætíd ávaxtarsamir í verki drottins, med því
þér vitid, ad ydar ervidi í drottins (þjónustu)
ekki muni verda forgefins.

## 16. Kapituli.

Nidurlag bréfsins.

1. Hvad vid víkur ydar olmususafni handa
enum kristnu, þá hegdid ydur þar í, eins og eg
hefi bodid søfnudinum í Galatalandi. 2. Hver yd-
ar leggi afsídis heima hjá sér á fyrsta degi vik-
unnar, og geymi í einum sjód, eptir sem útveg-
ur hans hefir heppnazt, svo ad safnid þurfi ekki

þá fyrst ad sje, þegar eg kem. 3. En þegar
eg kem, mun eg senda þá, sem þjer álitid hæfa,
med gáfu ydar til Jerúsalems og skrifa med
þeim; 4. og ef eg finn þad ómaksvert, ad eg
sjálfur fari, þá læt eg þá fara med mjer. 5.
Eg mun koma til ydar, þegar eg fer um Ma-
sedonia (því um hana fer eg), og dvel kann sje
hjá ydur, 6. jafnvel verd kyrr vetrarlángt; þjer
getid þá leidbeint mjer, hvert sem eg fer. 7. Nú
vil eg ekki koma vid hjá ydur, en eg vona, ef
gud lofar, ad dvelja nokkra stund hjá ydur. 8.
Alt til hvítasunnu verd eg kyrr í Efesus, 9.
því mjer hefir þar mikid og kröptugt tækifæri
gefizt, þó mótstödumennirnir sjeu margir.

10. Ef Tímóteus skyldi koma til ydar, þá
sjáid svo til, ad hann geti óttalaus hjá ydur
verid, því ad hann vinnur ad drottins verki,
eins og eg. 11. Einginn forsmái hann, greid-
id heldur ferd hans med fridi, svo ad hann
komist til mín, því eg vænti hans med brædr-
unum. 12. Bródur Appolló hefi eg mikillega
bedid, ad hann fylgdist med brædrunum til yd-
ar, en hann vill ómögulega fara nú strax, en
mun koma, þegar hann fær hentugleika þar til.
13. Vakid, haldid fast vid trúna, sýnid ydur

karlmannlega og krøptuglega, 14. andsýnid kær-
leika í øllu.

15. Enn þá verd eg ad bidja ydur eins,
brædur: þér vitid, ad Stefáns heimilsfólk var
frumgródi Akkeu og hefir helgad sig þjónustu
kristinna; 16. sýnid þvílíkum undirgefni, og øll-
um þeim, sem eru tilhjálpandi og vinna þar ad-
17. Eg gledst vid Stefáns, Fortúnati og Akkai-
si nærveru; þeir hafa bætt mér ydar søknud;
þeir hafa bædi gladt mig og ydur. 18. Hafid
mætur á slíkum mønnum.

19. Ydur heilsa søfnudirnir í Asíu. Akvilas
og Priskilla bidja mikillega ad heilsa ydur í
drottni, ásamt søfnudi þeim, sem saman kemur
í þeirra húsi. 20. Allir brædurnir heilsa yd-
ur. Berid þessa kvedju, hver til annars, med
heiløgum kossi.

21. Kvedjan er skrifud med minni eigin hendi.
22. Ef nokkur er sá, sem ekki elskar drottinn
Jesúm Krist, sá sé bølvadur. Drottinn kemur.
23. Nádin drottins vors Jesú Krists sé med
ydur. 24. Minn kærleiki sé med ydur øllum í
Jesú Kristi, amen.

---

# S. Páls sídari pistill
til
# Korintumanna.

## 1. Kapituli.

Huggun og þolinmædi Páls i alls konar mótgángi. Tilgreinir, hvers vegna hann hafi ekki komid til Korintu.

1. Páll, ad guds vilja postuli Jesú Krists,
og bródir Timóteus, heilsa søfnudi guds i
Korintuborg og øllum kristnum i Akkeu. 2.
Náð sé med ydur og fridur af gudi vorum
fødur og drottni Jesú Kristi.

3. Lofadur veri gud og fadir drottins vors
Jesú Krists, miskunsemdanna fadir og gud allrar
huggunar, 4. sem huggar oss svo i øllum vor-
um þjáningum, ad vér getum aptur huggad
adra i alls slags þjáningu med sømu huggun,
er gud huggadi oss med; 5. þvi eins og vér

høfum fyrir mørgum þjáningum ordid vegna Krists, svo hefir hann og fyrir Krist yfirgnæfanlega veitt oss hugganir; 6. því hvort heldur vér lidum þjáningar, þá er þad ydur til huggunar og sáluhjálpar, edur vér ødlumst huggun, er þad ydur til huggunar, sem mun sýna sig kroptuga til þolinmædi í sømu þjáningum, sem vér lidum. 7. Og þessi vor von um ydur er stadfost, þar ed vér vitum, ad eins og þér erud hluttakandi ordnir í þjáningunum, eins munud þér verda þad í huggunni. 8. Því vér viljum ekki dylja fyrir ydur, brædur, ad þjáníngar þær, sem vér urdum fyrir í Asíu, voru yfirmáta þúngar, og þýngri, en vér gætum þær borid, svo vér ørvæntum jafnvel um líf vort. 9. Já, oss sýndist med sjálfum oss, ad vér þegar hefdum feingid vorn daudadóm, svo vér ekkert traust settum til sjálfra vor, heldur til guds, sem upp vekur dauda. 10. Hann frelsadi oss frá þessari miklu daudans hættu, og frelsar, 11. og honum treystum vér til þess, ad hann eins hér eptir muni frelsa oss, ef þér og svo styrkid þar til med ydar bænum fyrir oss, svo ad sú nád, sem oss veitist fyrir margra

bænir, vegsamist vor vegna af mørgum med
þakkargjørd.
12. Sá er vitnisburdur vorrar samvizku, er
vér hrósum, ad vér høfum hegdad oss falslaust
í heiminum og med gudi velþóknanlegum grand-
varlegleika, ekki fyrir adstod holdlegrar speki,
heldur guds nádar, allra helzt hjá ydur; 13.
Því ekki skrifa eg ydur annad en þad, sem þér
lesid og líka þekkid, og eg vona þér munid reyna
oss svo til endaloka, 14. eins og þér búnir er-
ud ad þekkja oss ad nokkru leyti, ad vér mun-
um verda ydur til sóma, eins og þér oss, á
degi drottins Jesú.
15. Í þessu trausti ásetta eg mér fyrri ad
koma til ydar, svo ad þér í annad sinn hefd-
ud føgnud, 16. og ad fara hjá ydur til Make-
doníu, og koma aptur þadan til ydar, og fá yd-
ar fylgd til Gydingalands. 17. Sýnda eg nokk-
urt lauslyndi í því, ad eg ásetti mér þetta?
Edur sýndi þessi ásetningur minn holdlegt rád-
lag, svo mitt já væri tómt já, og nei tómt
nei? 18. Sá sannordi gud sé mitt vitni, ad
lærdómur vor hjá ydur var ekki já og nei!
19. Guds sonur Jesús Kristur, sem vér kend-
um ydur, nefnilega eg, Sylvanus og Tímóteus,

var ekki já og nei, heldur var alt i honum já;
20. því svo morg sem guðs fyrirheit eru, þá
eru þau í honum af oss sønnuð að vera já og
amen, guði til dýrðar. 21. En sá, sem held-
ur oss ásamt yður fast við Krist og hefir smurt
oss, 22. er guð, sá eð og hefir sett sitt merki
á oss og gefið pant andans í vor hjørtu. 23.
En eg kalla guð mér til vitnis um það, að
eg af hlífð við yður ekki hefi komið til Kor-
intuborgar. 24. Ekki þess vegna, að vér vilj-
um drottna yfir yðar trú, heldur hjálpa til yð-
ar gleði; því þér standið støðugir í trúnni.

## 2. Kapituli.

Sama efni. Biður að inn taka þann aptur í søfnuð-
inn, sem hafði bætt ráð sitt. Þakkar guði, sem bless-
ar hans embætti.

1. Með sjálfum mér hefi eg ásett að koma
ekki aptur með sorg til yðar; 2. því ef eg
hryggi yður, hver gleður mig þá, nema sá, er
eg áður hafði hrygt? 3. Þetta skrifa eg yður
til þess, að þegar eg kem, hafi eg ekki hrygð af
þeim, er eiga að gleðja mig. Eg hefi það
traust til yðar allra, að yður øllum sé það til
gleði, sem mér er til gleði. 4. Með mikilli

sorg og hjartans ángri og mørgum tárum skrif-
adi eg ydur, ekki til þess ad hryggja ydur,
heldur til þess þér þar af sæud þá miklu elsku,
er eg hefi til ydar.

5. Ef nokkur er sá, sem hefir hrygdar ollad,
þá hefir hann ekki hrygt mig, heldur ad nokkru
leyti ydur alla, eg vil ekki segja annad þýngra.
6. Látid honum duga þá stroffun, sem á hann
er løgd af mørgum, 7. svo þér ættud nú þvi
heldur ad fyrirgefa honum og hugga hann, svo
ad of mikil sorg ekki gjøri út af vid hann. 8.
Eg bid ydur ad sýna honum elsku; 9. því til
þess skrifadi eg ydur, ad eg feingi ad vita,
hverninn þér reyndust, hvort þér erud hlýdnir
í øllu. 10. En ef þér fyrirgefid þessum, þá
eg í sama máta; því ad og svo eg, ef eg hefi
fyrirgefid nokkud, þá hefi eg fyrirgefid þad yd-
ar vegna fyrir Krists augliti, 11. svo vér ekki
verdum sigradir af Satan, því oss eru ekki ó-
kunn hans vélabrøgd.

12. Þegar vér komum til Tróas til ad kenna
nádarlærdóm Krists, þá, þótt gott tækifæri gæf-
ist oss þar til, hafdi eg ekki ró í mér til þess,
af því eg hitti ekki bródur minn Titum; 13.
kvaddi þá því, og fór til Masedoníu. 14. Þakk-

ir sén gudi, sem ávalt gefur oss sigur í Krists
erindi og lætur hans þekkingar ilm allstadar af
oss útbreidast. 15. Vér erum fyrir gudi Krists
ilmur, bædi fyrir ena hólpnu og fortöpudu;
16. þessum, banvænn eimur til dauda, hinum,
lifgandi ilmur til lifs; en hver er þar til hæf-
ur? 17. Ekki meingum vér guds lærdóm, sem
margir gjöra, heldur kennum vér fyrir augsýn
guds ómeingadan Krists lærdóm, svo sem frá
gudi kominn.

## 3. Kapituli.

Páll talar um vegsemd kristnibodara-embættisins, og um þá djörfúng, er því fylgi.

1. Munum vér aptur vera farnir ad hæla
oss sjálfum? edur munum vér þess vid þurfa,
eins og sumir, ad fá hólsbréf til ydar edur frá
ydur til annara? 2. Þér erud vort bréf, skrif-
ad í vor hjörtu, lesid og alkunnugt öllum
mönnum; 3. því alkunnugt er, ad þér er-
ud Krists bréf af oss ritad, ekki med bleki,
heldur lifanda guds anda, ekki á steinspjöld,
heldur hjartans holdspjöld. 4. Þetta traust
höfum vér til guds vegna Krists. 5. Ekki svo,
ad vér af sjálfum oss hæfir séum ad hugleida
nokkud svo sem af sjálfum oss, heldur er vor

hæfilegleiki frá gudi; 6. hann hefir gjört oss hæfa til ad vera þjóna þess nýa sáttmála, ekki bókstafsins, heldur andans; því bókstafurinn deydir, en andinn lífgar. 7. En ef þjónusta, sem á steina var kløppud, var svo dýrdleg, ad Israelssynir ekki þoldu ad horfa á Mósis andlit fyrir bjartleiks sakir, er þó átti ad þverra; 8. hversu miklu dýrdlegri mun þá verda þjónusta andans? 9. Ef þjónusta þess, sem fordæmir, var svona dýrdleg, þá mun þjónusta þess, sem réttlætinguna bodar, miklu dýrdlegri vera, 10. svo ad hid dýrdlega er ad þessu leyti ekki dýrdlegt í samanburdi vid hins yfirgnæfandi dýrd. 11. Ef þad, sem afmást átti, var dýrdlegt, hversu miklu framar þá þad, sem varanlegt er. 12. Med því vér høfum þessa von, svo tølum vér alldjarflega, 13. og ekki eins og Móses, er heingdi skýlu fyrir andlit sitt, svo ad Israelssynir skyldu ekki sjá endalok ens forgeingilega. 14. Enda hefir skilningur þeirra sljófskygn verid, því alt til þessa dags vid varir hin sama skýla óburttekin undir gamla sáttmálans lestri, því einúngis med Kristi verdur hún burt tekin. 15. En alt til þessa dags hvilir skýla yfir skilningi þeirra, þegar Móses løg-

mál er lesid; 16. en ef ad þeir snéru sér til
drottins, mundi skýlan burt takast. 17. Drott-
inn er andi, en hvar hans andi er, þar er
frelsi. 18. En vér allir, er skodum, svo sem
í spegli, med beru andliti dýrd drottins, um-
myndumst, svo sem af drottins anda, eptir þess-
ar sømu mynd til meiri og meiri dýrdar.

## 4. Kapituli.

Páll forsvarar sinn kennslumáta. Talar um sínar þraut-
ir og huggun.

1. Med því vér høfum þvílíka þjónustu á
hendi, eptir þeirri nád, sem oss er veitt, þá
letjumst vér ekki, 2. heldur af segjum alla leyni-
lega svívirdingu, brúkum hvorki vélar, né føls-
um guds ord, heldur, líka sem fyrir guds aug-
liti, mælum fram med oss fyrir hvers manns
samvizku, med sannleikans auglýsingu. 3. Ef
nokkrum er vor kenning hulin, þá er þad for-
töpudum, 4. hverra skilning þessarar aldar
høfdingi hefir svo blindad, ad þeir ekki sjá birtu
þess dýrdlega nádarlærdóms Krists, sem er guds
mynd. 5. Ekki prédikum vér oss sjálfa, held-
ur drottinn Jesúm Krist, en oss, ydar þjóna
Krists vegna; 6. því gud, sem baud, ad ljós

skyldi skína úr myrkri, hefir látid ljós skína í
vor hjørtu, svo þekkíng guds dýrdar í Kristi
Jesú skyldi augljós verda.
7. En þenna fjársjód berum vér í leirkerum,
svo ad kraptarins stærd sé guds, en ekki af oss.
8. Í øllu þjøkumst vér, en látum þó ekki hug-
fallast; erum vonlitlir, en ørvilnumst þó ekki;
ofsóktir, en þó ekki hjálparlausir; 9. feldir til
jardar, en tortýnumst þó ekki. 10. Jafnan
berum vér deydíngu Jesú á líkamanum, svo
ad Jesú líf auglýsist á vorum líkama; 11. því
þótt vér lifum, erum vér jafnan til dauda seld-
ir vegna Jesú, svo ad hans líf einnig aug-
ljóst verdi í vorum daudlega líkama. 12. Daud-
inn sýnir því sinn krapt í oss, en lífid á ydur.
13. En med því vér høfum hinn sama anda
trúarinnar, eins og skrifad stendur: „eg trúdi,
þar fyrir taladi eg", þannig einnig trúum vér,
og þar fyrir tølum vér, 14. þar ed vér vit-
um, ad sá, sem upp vakti drottinn Jesúm, muni
fyrir Jesúm upp vekja oss og fram leida ásamt
ydur. 15. Því alt þetta er ydar vegna, svo
ad hin mikla nád, vegna margra þakkargjørd-
ar, yfir gnæfi gudi til dýrdar. 16. Þar fyrir
letjumst vér ekki, því jafnvel þó vor ytri mad-

ur hrørni, endurnýast samt vor innri madur
dag eptir dag; 17. því vor þrevnging, sem
skammvinn er og léttbær, aflar oss yfirgnæfan-
legrar eilífrar dýrdar; 18. oss, sem ekki lítum
til þess sýnilega, heldur ósýnilega; því hid sýni-
lega er tímanlegt, en hid ósýnilega eilíft.

## 5. Kapítuli.

Sama efni. Talar um sinn verdugleika, sem lærdóms-
ins kennara.

1. Því vér vitum, ad jafnvel þó þessi vor
jardneska tjaldbúd verdi nidur brotin, höfum
vér samt hús af gudi, ekki med höndum gjört,
eilíft á himni. 2. Samt andvörpum vér þess
vegna, ad oss lángar til ad fá yfir oss hid
himneska húsid 3. (því klæddir, en ekki nakt-
ir, munum vér þá fundnir verda). 4. En á
medan vér erum í þessari tjaldbúd, stynjum vér
undir byrdi vorri, þar ed vér viljum ekki afklædast,
heldur yfirklædast, svo ad hid daudlega uppsvelgist
af því ódaudlega. 5. En sá gud, sem þetta
hefir oss fyrirbúid, hefir og gefid oss sinn anda
til pants hér upp á. 6. Vér erum því jafn-
öruggir, og vitum, ad á medan vér búum í lík-
amanum, erum vér fjarlægir drottni. 7. Vér

lifum í von, en ekki skodun, 8. en erum samt öruggir, jafnvel þó vér heldur viljum fríast vid líkamann og vera hjá drottni; 9. þess vegna kappkostum vér líka, ad þóknast drottni, hvort heldur vér erum íklæddir líkamanum, edur utan hans; 10. því allir hljótum vér ad birtast fyrir Krists dómstóli, svo hver einn fái laun eptir sinni breytni í líkamanum, hvort sem hún hefir verid góð edur vond.

11. Med því vér nú þekkjum ótta drottins, leitumst vér vid ad ávinna menn. Gudi erum vér augljósir, 12. en eg vona, ad eg og sé þektur ordinu af ydar samvizkum; því ekki erum vér aptur farnir ad mæla fram med oss vid ydur, heldur gefum vér ydur tilefni til ad stæra ydur af oss, svo ad þér hafid þad þér getid svarad þeim, sem stæra sig af því útvortis, en ekki hjartalaginu. 13. Því hvort sem vér stærum oss, gjörum vér þad guds vegna, edur vér erum hóglátir, er þad ydar vegna. 14. Kærleiki Krists þvingar oss, 15. med því vér ályktum svo, ad fyrst hann einn er dáinn fyrir alla, svo séu þeir allir dánir; og hann dó fyrir alla, til þess ad þeir, á medan þeir lifa, ekki framar lifi sér, heldur þeim

sem fyrir þá er dáinn og upp risinn. 16. Þar
fyrir metum vér nú héðan í frá engan eptir hold-
inu, því þótt vér jafnvel mettum Krist eptir
holdinu áður, þá gjörum vér það ekki framar.
17. Því hver, sem er í Kristó, hann er orð-
inn ný skepna; það gamla er afmáð: sjá, alt
er orðið nýtt, 18. og það er alt af guði, er
forlíkaði oss fyrir Jesúm Krist við sjálfan sig
og gefið hefir oss það embætti, að kunngjöra
þessa forlíkun, 19. nefnilega það, að guð hafi
forlíkað heiminn við sjálfan sig, og tilreikni ekki
mönnum þeirra afbrot, og hafi sett oss til að kunn-
gjöra þessa forlíkun. 20. Vér erum því Krists
erindsrekar; guð líka, sem áminnir fyrir vorn
munn. Vér biðjum því vegna Krists: látið
yður forlíka við guð; 21. því hann, sem
aldrei þekti synd, gjörði guð að syndafórn vor
vegna, svo að vér fyrir hann réttlættir yrðum.

## 6. Kapituli.

Sama efni. Varar Korintumenn við, að hafa mök við vantrúaða.

1. En svo sem meðverkandi áminnum vér
hér um, 2. að þér ekki skulið meðtaka guðs náð
til einkis. (Ritningin segir: á hagkvæmri tíð

af Rúbens ættkvísl voru tólf þúsundir innsigl-
adar; af Gads ættkvísl voru tólf þúsundir inn-
sigladar; 6. af Assers ættkvísl voru tólf þús-
undir innsigladar; af Neftalims ættkvísl voru
tólf þúsundir innsigladar; af Manasses ættkvísl
voru tólf þúsundir innsigladar; 7. af Simeons
ættkvísl voru tólf þúsundir innsigladar; af Leví
ættkvísl voru tólf þúsundir innsigladar; af Isa-
skars ættkvísl voru tólf þúsundir innsigladar;
8. af Sebúlons ættkvísl voru tólf þúsundir inn-
sigladar; af Jóseps ættkvísl voru tólf þúsund-
ir innsigladar; af Benjamins ættkvísl voru tólf
þúsundir innsigladar.

9. Eptir þetta leit eg til og sá mikinn fjølda
manna, svo ad eigi vard tølu á komid, af alls
kyns fólki, kynkvíslum, þjódum og túngumál-
um; þeir stódu frammi fyrir hásætinn og frammi
fyrir lambinu, skrýddir hvitum skikkjum, med
pálmavidar-greinir i høndum sér. 10. Þeir
kølludu upp hárri roddu, segjandi: hjálprædid
tilheyrir vorum gudi, sem i hásætinu situr, og
lambinu. 11. Og allir einglar, sem stódu um-
hverfis hásætid og oldúngana og þau fjøgur
dýrin, féllu þá fram á ásjónur sinar fyrir há-
sætinu, og tilbádu gud, svo mælandi: 12.

Amen: lof og dýrd, vizka og þakkargjörd, heidur og vald og kraptur sé gudi vorum um aldir alda, amen. 13. Einn af öldúngunum taladi til mín og sagdi: þessir sem skrýddir eru hvítum skikkjum, hverjir eru þeir, og hvadan eru þeir komnir? 14. Eg svaradi honum: Herra minn, þú veizt þad. Þá sagdi hann vid mig: þetta eru þeir, sem komnir eru úr hörmúnginni miklu, og hafa þvegid sínar skikkjur, og hvítfágad þær í blódi lambsins. 15. Þess vegna eru þeir frammi fyrir hásæti guds, og þjóna honum dag og nótt í hans musteri; og sá, sem í hásætinu situr, mun tjalda yfir þeim. 16. Þá mun hvorki húngra né þyrsta framar, og ekki mun sólarhiti eda nokkurr bruni á þá falla. 17. Því lambid, sem er fyrir midju hásætinu, mun gæta þeirra og vísa þeim á lifandi vatnslindir, og gud mun þerra hvert tár af þeirra augum.

## 8. Kapituli.

Lambid opnar 7. innsiglid. Einglar med sjö básúnum: sá 1. 2. 3. og 4. eingill básúnar.

1. En þegar lambid opnadi sjöunda innsiglid, vard þögn á himni hér um bil hálfa stund.

2. Þá sá eg sjø eingla, sem stódu frammi
fyrir gudi; þeim voru feingnar sjø básúnur.
3. Þá kom annar eingill og stadnæmdist vid
altarid, hann hélt á gullegu reykelsiskeri;
honum var feingid mikid af reykelsi, til þess
ad brenna því á því gullega altari, sem var
frammi fyrir hásætinu, medan allir heilagir
væru ad bidjast fyrir; 4. og undir bænum heil-
agra sté reykurinn af reykelsinu úr hendi eing-
ilsins fram fyrir gud. 5. Sídan tók eingill-
inn reykelsiskerid, fylti þad med eldi af altar-
inu, og varpadi því ofan á jørdina; urdu þá
gnýhljód og þrumur og eldingar og landskjálfti.
6. Þeir sjø einglar, sem héldu á þeim sjø bá-
súnum, bjuggu sig þá til ad blása.

7. Þegar sá fyrsti básúnadi, vard hagl og
eldur blódi blandad, og dundi ofan á jørdina;
þá brann þridjúngur jardarinnar og þridjúng-
ur trjánna og alt grængresi. 8. Þegar ann-
ar eingillinn básúnadi, féll ofan í sjóinn líka sem
stórt fjall, logandi af eldi, og þá vard þridj-
úngur sjávarins ad blódi; 9. dó þá þridjúng-
ur lifandi skepna í sjónum, og þridjúngur skip-
anna fórst. 10. Þegar þridji eingillinn bá-
súnadi, féll af himni stór stjarna, logandi sem

blys, og datt yfir þridjúng áuna og yfir uppsprettur vatnanna. 11. Þessi stjarna hét Remma; þá vard þridjúngur vatnanna rammur, og margir menn dóu af því, ad vötnin voru beisk ordin. 12. Þegar fjórdi eingillinn básúnadi, vard lostinn þridjúngur sólarinnar og túnglsins og stiarnanna, svo ad þau formyrkvudust um þridjúng, og dagurinn misti þridjúng sinnar birtu, og nóttin sömuleidis. 13. Sídan sá eg og heyrdi einn örn fljúga um midhimininn, hann kalladi hárri röddu: vei, vei, vei þeim, sem á jördu búa, vegna lúdurþyts hinna þriggja eingla, sem hér eptir munu básúna.

## 9. Kapituli.

Sá 5. og 6. eingill básúnar.

1. Þegar sá fimti eingill básúnadi, sá eg stjörnu falla af himni ofan á jördina; henni var feinginn lykill ad brunni afgrunnsins. 2. Hún lauk upp brunni afgrunnsins, og þá lagdi reyk upp af brunninum, eins og af stórum eldsofni, og sólin og loptid vard formyrkvad af reyknum úr brunninum. 3. Eingisprettur fóru úr reyknum ofan á jördina, þær vóru eins

magnadar og jardar-höggormar. 4. Þeim var bannad ad granda grasi jardarinnar og öllum grænum jurtum og trjám, nema þeim mönnum, sem ekki höfdu innsigli guds á ennum sínum. 5. Þeim var svo bodid, ad þær dræpi þá ekki, heldur kveldi þá í fimm mánudi; þessi kvöl var eins og þegar höggormur stíngur mann. 6. Á þeim tímum munu menn leita daudans, en ekki finna hann; þeir munu æskja sér ad deya, en daudinn mun forđast þá. 7. Eingisspetturnar voru svipadar hestum, búnum til bardaga; á höfdum þeirra voru eins og gull-kórónur, og ásjónur þeirra voru eins og á mönnum. 8. Þær höfdu hár eins og kvennmanns hár, og tennur eins og ljóns tennur; 9. brynjur þeirra voru eins og járnbrynjur, og vængja-þyturinn eins og vagnagnýr, þá margir hestar hlaupa fram til bardaga. 10. Þær höfdu hala, líka höggormasporđum, og brodda í. Þær höfdu vald til ad granda mönnum med hölunum í fimm mánudi. 11. Eingill afgrunnsins er konúngur yfir þeim; hann heitir á Hebresku Abaddón, en á Grísku Apollyón (eydileggjari). 12. Sú fyrsta plága

var nú umlidin, en tvær adrar koma hér á eptir.

13. Þegar sjötti eingillinn básúnadi, heyrdi eg eina rødd fara frá fjórum hyrníngum þess gulllega altaris, sem frammi var fyrir gudi;
14. hún sagdi vid sjötta eingilinn, sem hélt á básúnunni: leys þá fjóra eingla, sem fjötradir eru hjá því mikla fljóti Evfrat. 15. Sídan voru þeir fjórir einglar leystir, og stódu þeir vidbúnir á hverri stundu, á hverjum degi, mánudí og ári, til ad drepa þridjúng mannanna.
16. Tala riddaralidsins voru tvennar tíuþúsundir tíuþúsunda, þessa tølu fékk eg ad vita.
17. Líka sá eg hestana í vitruninni, og þá, sem þeim ridu, þeir høfdu eldraudar, svartbláar og bleikgular brynjur, høfud hestanna voru eins og ljóna høfud, og af munnum þeirra gekk eldur, reykur og brennisteinn. 18. Af þessum þremur plágum, eldi, reyk og brennisteini, sem út gekk af munnum þeirra, drapst þridjúngur mannanna. 19. Því magn hestanna var í munni þeirra og tøglum, því tøglin voru lík høggormum, og voru med høfdum; med þeim grønduðu þeir. 20. Þeir menn, sem ekki fyrirfórust í þessum plágum, létu samt ekki af

háttalagi sinn, heldur tilbádu afgudi og líkn-
eskjur úr gulli, silfri, eiri, steini og tré, sem
hvorki geta séd, heyrt, né geingid. 21. Ekki
létu þeir heldur af manndrápum, goldrum, saur-
lifnadi, eda þjófnadi.

## 10. Kapituli.

Þær sjø þrumuraddir. Eidur eingilsins. Bækl-
ingurinn.

1. Sídan sá eg annan eingil sterkan stíga
af himni ofan, hann var klæddur skýi; yfir høfdi
honum var regnbogi, andlít hans var eins og
sólin, og fætur hans, sem eldstólpar. 2. Hann
hélt á opnum bæklingi í hendinni, og setti
hægra fótinn á sjóinn, en hinn vinstra á jørd-
ina. 3. Hann kalladi hárri roddu, eins og þá
ljón øskrar, og þegar hann hafdi kallad, toludu
þær sjø reidarþrumur sínar raddir. 4. En þá
þær sjø þrumur høfdu talad, ætladi eg ad fara
ad skrifa; þá heyrdi eg rodd af himni, sem
sagdi: innsigla þú þad, sem þær sjø reidar-
þrumur hafa talad, og skrifa þad ekki. 5. Sá
eingill, sem eg sá standa á sjónum og jørdunni,
hóf þá upp sína hægri hond til himins, 6. og
sór vid þann, sem lifir ad eilífu, sem skóp him-

ininn, og þad sem í honum er, jørdina, og
þad sem á henni er, og sjóinn, og þad sem í
honum er: ad einginn frestur mundi leingur
gefinn verda; 7. heldur, þá sá sjoundi eingill
básúnadi, skyldi framkvæmast guds leynda ráð,
sem hann hafdi birt spámønnunum, sínum þjón-
um. 8. Roddin, sem eg heyrdi af himni, tal-
adi þá til mín aptur og sagdi: far og tak
þann opna bækling, er eingillinn heldur á, sem
stendur á sjónum og jørdunni. 9. Eg fór til
eingilsins og bad hann fá mér bæklínginn;
hann sagdi vid mig: tak og et hann, hann mun
verda beiskur í maga þínum, en í munni þér
sætur, sem hunáng. 10. Eg tók þá vid bækl-
ingnum af einglinum, og át hann, og var hann
sætur í munni mínum, sem hunáng, en þá eg
hafdi etid hann, fékk eg magaverki. 11. Þá
sagdi hann vid mig: þér ber aptur ad spá í
gegn þjódum, lýdum, túngumálum og mørgum
konúngum.

## 11. Kapítuli.

Mæling musterisins. Þeir tveir vottar. Sá 7. eingill básúnar.

1. Mér var feinginn reyrleggur, líkur staf,

með þessum ummælum: statt upp og mæl musteri guðs og altarið, og þá sem biðjast þar fyrir. 2. En forðyrinu fyrir utan musterið skaltu sleppa og ekki mæla það, af því það er ætlað heiðingjum, og þeir munu fóttroða borgina helgu í fjørutýgi og tvo mánuði.

3. En mína tvo votta vil eg láta spá í eitt þúsund tvø hundruð og sextýgi daga, klædda sorgarbúningi. 4. Þetta eru þær tvær viðsmjørsviðar greinir og þeir tveir ljósastjakar, sem standa frammi fyrir drottni jarðarinnar. 5. Vilji nokkur þeim granda, skal eldur gánga framm úr munni þeirra og eyða óvinum þeirra, og þannig skal hver deya, sem þeim vill granda. 6. Þeir hafa vald til að loka himninum, svo ekki komi regn um spádómsdaga þeirra; þeir hafa og vald til að snúa vøtnunum í blóð og slá jørðina með alls konar plágum, svo opt sem þeir vilja. 7. Þegar þeir hafa aflokið sínum vitnisburði, mun dýrið, sem upp stígur úr afgrunninu, herja á þá, hafa sigur og drepa þá. 8. Hræ þeirra munu liggja á stræti borgarinnar ennar miklu, sem í andlegum skilníngi kallast Sódóma og Egyptaland, hvar eð og þeirra drottinn er krossfestur. 9. Menn af ýmsum

þjóðum, ættkvíslum, túngumálum og fólki munu
sjá þeirra hræ í hálfan fjórða dag, og ekki
leyfa, að lík þeirra verði lögð í legstað. 10.
Innbúar jarðarinar munu gleðja sig yfir þeim
og vera kátir og senda hver öðrum gjafir, þar
eð þessir tveir spámenn kvöldu innbúendur
jarðarinnar. 11. En að liðnum þeim hálfum
fjórða degi, fór lífsandi frá guði í þá, þeir
risu þá á fætur, og mikill ótti féll yfir þá, sem
þá sáu. 12. Þeir heyrðu þá rödd mikla af
himni, sem sagði við þá: komið hingað upp.
Þeir fóru þá upp til himins í skýi, svo óvinir
þeirra horfðu á. 13. Á þeirri stundu varð
svo mikil hræring, að tíundi partur borgar-
innar hrundi, og í þeim jarðskjálfta dóu sjö
þúsundir manna; þeir, sem eptir voru, urðu
óttaslegnir og lofuðu himnanna guð. 14. Sú
önnur plága var nú umliðin, en sú þriðja
kemur bráðum.

15. Þegar sá sjöundi eingill básúnaði, komu
upp miklar raddir á himni, svo segjandi: vor
drottinn og hans smurði hefir feingið vald yfir
heiminum og mun ríkja að eilífu. 16. Þeir
tuttugu og fjórir öldúngar, sem sátu á sínum
stólum frammi fyrir guði, féllu þá fram á sín-

ar ásjónur, tilbádu gud og sogdu: 17. vér
þokkum þér, drottinn gud alvaldi, þú sem ert
og varst, fyrir þad ad þú hefir tekid þitt mikla
veldi, og rikir. 18. Heidingjarnir illskudust, en
þin hegning kom, og sá timi, þá þeir framlidnu
skulu dæmdir verda, og þinir þjónar og spá-
menn og heilagir og þeir, sem óttast þig, skulu
fá sitt endurgjald, smáir og stórir, en þeir
fyrirfarast, sem eydileggja jordina. 19. Þá
opnadist guds musteri á himni, og sáttmálsork
drottins birtist i hans musteri; urdu þá eld-
ingar, hvellir, reidarþrumur, jardskjálfti og
mikid hagl.

## 12. Kapituli.

### Kvinnan og drekinn.

1. Þá birtist mikid teikn á himni; þad var
kona, sem hafdi um sig sólarbaug, túngl var
undir fótum hennar, en á hofdi hennar kóróna
med tólf stjornum i. 2. Hún var þúngud,
og þjádist af mikilli jódsótt, og hljódadi. 3.
Þá sást annad teikn á himni, þad var stór
dreki eldraudur, hann hafdi sjø hofud og tiu
horn, og á hofdunum sjø hofudbond. 4. Hann
dró med spordinum þridjúng himinsins stjarna

og kastadi þeim á jørdina; drekinn stadnæmdist
hjá konunni, sem ad því var komin ad fæda,
og ætladi ad gleypa barnid, þá hún hefdi fædt.
5. Hún fæddi sveinbarn, sem ríkja skyldi yfir
øllum þjódum med járnsprota; barnid var
skyndilega flutt burt fram fyrir gud og hans
hásæti; 6. en konan flúdi á eydimørk, hvar gud
hafdi tilbúid henni samastad, og þar skyldi hún
haldast vid í tólf hundrud og sextýgi daga. 7.
Eptir þad hófst stríd á himni: Mikael og hans
einglar stríddu á drekann, en drekinn og hans
einglar stríddu á móti; 8. hann hafdi midur
og hélzt ekki framar vid á himni; 9. og var
þeim mikla dreka, þeim gamla høggormi, sem
kallast djøfull og Satan, honum, sem afvega
leidir alla menn, kastad ofan á jørdina, og hans
einglum med honum. 10. Þá heyrdi eg mikla
rødd af himni, svo segjandi: nú tilheyrir sig-
urinn, krapturinn og ríkid vorum gudi, og veld-
id hans smurda, því áklagari vorra brædra,
sem áklagar þá fyrir gudi vorum nótt og dag,
er nidur kastadur. 11. Þeir hafa sigrad hann
fyrir blód lambsins og fyrir ord vitnisburdar
síns; þeir hafa hætt lífi sínu fram í daudann.
12. Verid þess vegna gladir, þér himnar, og

þér sem á himnum búid. Vei sé jørdunni og
sjónum, þvi ad djøfullinn er ofan til ydar far-
inn í miklum mód, þvi hann veit, ad hann
hefir nauman tima. 13. En sem drekinn sá,
ad búid var ad varpa honum ofan á jørdina,
ofsókti hann konuna, sem fædt hafdi sveinbarn-
id. 14. Þá voru konunni gefnir tveir stórir
arnarvængir, til ad fljúga á þann stad i eydi-
mørkinni, sem henni var ætladur, hvar hún átti
ad vera í fjarlægd vid høggorminn um eina
tíd, (tvær) tídir og hálfa tíd. 15. Høggorm-
urinn spjó vatni út úr sér á eptir konunni, eins
og vatnsflódi, svo ad hún hrifist burt af straumn-
um; 16. en jørdin kom konunni til hjálpar, og
opnadi sinn munn og svalg vatnsflódid, sem
drekinn hafdi útspúid. 17. Þá reiddist drek-
inn vid konuna, og fór burt til ad herja á
hina af afkomendum hennar, sem vardveittu
guds bodord og høfdu Jesú vitnisburd. 18.
Sídan stadnæmdist eg vid sjáfarstrøndina.

## 13. Kapituli.

Þau tvø dýr.

1. Eg sá dýr stiga upp af hafinu, þad
hafdi tíu horn og sjø høfud; á hornunum voru

tíu kórónur, og á höfdunum voru gudlöstunar-
ord. 2. Þetta dýr, sem eg sá, var líkt par-
dusdýri, fæturnir voru eins og bjarnarfætur,
munnurinn eins og á ljóni; drekinn gaf því
sitt vald, sitt hásæti og mikil yfirrád. 3. Eitt
af höfdum þess var sært, eins og med daud-
legu sári, en þetta banasár vard heilt, og allir
menn fylgdu dýrinu med undrun, 4. og til-
bádu drekann, fyrir þad ad hann hafdi veitt
dýrinu yfirrádin, líka tilbádu þeir dýrid, segj-
andi: hver kann ad jafnast vid dýrid, og hver
getur stridt vid þad? 5. Því var veittur munn-
ur til ad tala stóryrdi og gudlastanir, og lofad
ad fara því fram í fjörutíu og tvo mánudi.
6. Þad upp lauk þá sínum munni til ad tala
löstunaryrdi gegn gudi, lastadi hans nafn og
hans tjaldbúd, og þá sem á himni búa. 7.
Því var lofad ad herja á heilaga og sigra þá;
því var gefid vald yfir alls kyns kynkvísl,
fólki, túngumáli og þjód. 8. Allir innbúar
jardarinnar munu tilbidja þad, hverra nöfn
ekki eru skrifud í lífsbók lambsins, þess slátr-
ada alt í frá sköpun heimsins. 9. Hver sem
eyru hefir, hann heyri. 10. Hver sem herleid-
ir, hann skal herleiddur verda; hver, sem med

sverdi drepur, skal med sverdi drepinn verda. Hér reynir á þolgædi og trú heilagra.

11. Eg sá annad dýr stiga upp af jørdunni, þad hafdi tvø horn, lík lambshornum, mál þess var eins og drekamál. 12. Þad fer øllu því sama fram, sem hid fyrra dýrid, í augsýn þess, og lætur jørdina, og alla sem á henni búa, tilbidja fyrra dýrid, hvers banvæna sár hafdi verid læknad. 13. Þad gjørir stór tákn og lætur eld falla til jardar af himni í augsýn manna. 14. Þad afvegaleidir þá, sem á jørdunni búa, med þeim táknum, sem því er lofad ad gjøra í augsýn dýrsins, og býdur innbúum jardarinnar ad gjøra líkneski eptir því dýrinu, sem feingid hafdi sár af sverdinu, en lifdi þó. 15. Því var lofad ad gefa líf líkneskju dýrsins, svo líkneskjan taladi, og lét drepa alla þá, sem ekki vildu tilbidja líkneski dýrsins. 16. Þad lætur alla, stóra og smáa, ríka og fátæka, frjálsa og ófrjálsa setja einkenni á sína hægri hønd eda á enni sín, 17. svo einginn geti keypt eda selt nokkud, nema sá, sem hefir þetta merki, nafn dýrsins eda tølustafi nafns þess. 18. Hér rídur á speki; sá, sem skilning hefir, útreikni tølustafi dýrsins:

því talan er manns nafn, og talan er sexhundr-
uð sextíu og sex.

## 14. Kapituli.

Lofsaungur þeirra innsigluðu. Það eilífa evangelium.
Strøffunardómur guðs.

1. Síðan sá eg lambið standa á Síonsfjalli,
og með því hundrað og fjørutíu og fjórar þús-
undir, sem høfðu nafn þess og nafn føður þess
skrifað á ennum sínum. 2. Eg heyrði þá rødd
af himni, svo sem nið margra vatnsfalla eða
sem mikinn þrumugný; en røddin, sem eg heyrði,
var eins og (rødd) hørpuslagara, sem slá hørp-
ur sínar. 3. Þeir súngu einhvern nýan saung
frammi fyrir hásætinu og þeim fjórum dýrum
og øldúngunum; en einginn gat numið saung-
inn, nema þær hundrað fjørutíu og fjórar þús-
undir, sem leystar voru frá jørðunni. 4. Þess-
ir eru þeir, sem ekki hafa saurgað sig með kon-
um, því þeir hafa varðveitt sitt skirlífi; þeir
fylgja lambinu, hvert sem það fer, og hafa leyst-
ir verið frá mønnunum, svo sem frumgróði
guðs og lambsins. 5. Í þeirra munni finnst
eingin lygi; þeir eru lýtalausir.
6. Eg sá annan eingil fljúga um miðhim-

ininn, hann hélt á eilífum fagnadarbodskap,
sem hann kunngjørdi innbúum jardarinnar, allri
þjód, kynkvísl, túngumáli og fólki. 7. Hann
sagdi hárri røddu: óttizt gud og vegsamid
hann, því tími hans dóms er fyrir høndum;
tilbidjid þann, sem gjørt hefir himininn og jørd-
ina og sjóinn og uppsprettur vatnanna. 8.
Annar eingill kom á eptir honum, og sagdi:
hún er fallin, hún er fallin, sú mikla Babý-
lon, sem byrlad hefir øllum þjódum vín síns eitr-
ada saurlífnadar. 9. Þar á eptir kom hinn
þridji eingill, sem sagdi hárri røddu: hver sem
tilbidur dýrid og þess líkneskju og lætur merkja
sig á sínu enni eda hønd, 10. hann skal drekka
guds reidivín, hverju helt er óbløndudu á hans
reidibikar, kveljast í eldi og brennisteini í aug-
sýn heilagra eingla og lambsins. 11. Og
kvala-reykur þeirra mun uppstiga eilíflega; þeir,
sem tilbidja dýrid og þess líkneskju og láta merkja
sig med þess fángamarki, skulu einga ró hafa
nótt né dag. 12. Hér reynir á þolgædi hei-
lagra, sem vardveita bodord guds og trúna á
Jesúm. 13. Þá heyrdi eg rødd af himni,
sem sagdi: skrifa þú, sælir eru þeir framlidnu,
sem nú eru í drottni dánir. Já, segir and-

inn, þeir geta hvílt sig eptir sitt erviði, því
þeirra verk fylgja þeim.
14. Síðan sá eg hvítt ský og einhvern sitja
á skýinu, líkan manni; hann hafði gulllega kór-
ónu á höfðinu og bitran ljá í hendi sér. 15.
Þá gekk annar eingill út úr musterinu, hann
kallaði hárri röddu til þess, sem á skýinu sat:
bregtu ljánum og sker upp, því uppskerutíminn
er kominn, og ávortur jarðarinnar orðinn full-
varinn. 16. Sá, sem á skýinu sat, brá þá
ljánum ofan á jörðina, og jörðin varð slegin.
17. Þá gekk annar eingill út úr musterinu á
himnum, hann hélt og á bitrum ljá; 18. en
annar eingill gekk frá altarinu, hann hafði vald
yfir eldinum; hann kallaði hárri röddu til þess,
sem hélt á þeim beitta ljá, og sagði: bregtu
þínum hvassa ljá og afsker berin af vínviði jarð-
arinnar, því vínviðarberin eru orðin fullvarin.
19. Eingillinn brá þá ljá sínum ofan á jörðina
og afskar vínviðar ávört jarðarinnar, og kast-
aði honum í þá stóru vínpressu guðs reiði.
20. Síðan var vínpressan troðin utan borgar,
og gekk blóð út af vínpressunni, svo að tók
upp undir hestabeizlin, og flaut yfir sextán
hundruð renniskeið.

## 15. Kapituli.

Þær sjö seinustu plágur; saungur sigurvegaranna. Þær sjö reidiskálir.

1. Sídan sá eg annad mikid og dásamlegt
teikn á himni, sjö eingla, sem höfdu þær sjö
seinustu plágur, med hverjum guds reidi átti
ad enda. 2. Eg sá eins og glersjó eldi bland-
inn, og þá, sem sigrad höfdu dýrid og þess likn-
eskju og tölu nafns þess, standa vid glersjóinn,
med hörpur guds i höndum sér. 3. Þeir sýngja
saung Mósis þjónustumanns, og saung lambs-
ins, segjandi: mikil og dásamleg eru þín verk,
drottinn gud alvaldi, réttvísir og sannir eru
þínir vegir, þjódanna konúngur! 4. Hver skyldi
ekki óttast þig, drottinn, og vegsama þitt nafn?
því þú einn ert heilagur; allar þjódir munu koma
og falla fram fyrir þér; þínar réttvísu rád-
stafanir eru opinberar ordnar. 5. Eptir þetta
sá eg ad opnadist musteri vitnisburdar tjaldbúd-
arinnar á himni. 6. Þá geingu út úr must-
erinu þeir sjö einglar, sem höfdu þær sjö plág-
ur, þeir voru skrýddir hreinu skínandi líni og
gyrtir um brjóstin med gullegum beltum. 7.
Eitt af þeim fjórum dýrum fékk þeim sjö eingl-
um sjö gulllegar skálar, fullar af reidi guds,

þess er lifir um aldir alda. 8. Þá fyltist must-
erid reykjar af dýrd og almætti guds, og eing-
inn mátti inn gánga í musterid, þar til aflidn-
ar voru þær sjø plágur þeirra sjø eingla.

## 16. Kapituli.

Þeir sjø einglar hella úr þeim sjø skálum.

1. Eg heyrdi mikla raust frá musterinu, sem
taladi til þeirra sjø eingla: farid og hellid úr
þeim sjø skálum guds reidi yfir jørdina. 2.
Þá fór sá fyrsti og helti úr sinni skál yfir jørdina.
Þá komu ljót og íll sár á þá menn, sem høfdu
mark dýrsins og tilbádu þess líkneskju. 3. Sá
annar eingill helti úr sinni skál í sjóinn, og
vard hann ad blódi, eins og daudablódi, svo ad
hver lifandi skepna dó í sjónum. 4. Sá þridji
eingill helti úr sinni skál í fljótin og uppsprett-
ur vatnanna, og urdu þau ad blódi. 5. Eg
heyrdi eingil vatnanna segja: réttvís ertu, þú
sem ert og varst, þú hinn heilagi, ad þú hefir
dæmt þannig; 6. af því þeir hafa úthelt blódi
heilagra og spámannanna, hefir þú gefid þeim
blód ad drekka; þeir eru þess maklegir. 7. Þá
heyrdi eg talad frá altarinu: já, drottinn gud
alvaldi, sannir og réttvísir eru þínir dómar.

8. Sá fjórdi helti úr sinni skál í sólina, honum var gefid vald til ad brenna mennina í eldi.
9. Mennirnir stiknudu þá af miklum hita og lostudu gud, sem hafdi vald yfir þessum plágum, og ekki betrudu þeir sig, svo þeir gæfi honum dýrdina. 10. Sá fimti helti úr sinni skál á hásæti dýrsins; þá formyrkvadist þess ríki, og menn bitu í túngur sínar af ofraun, 11.
og hallmæltu himinsins gudi fyrir sín harmkvæli og sár, en létu þó ekki af athæfi sínu.
12. Sá sjötti helti úr sinni skál í fljótid mikla Evfrat; vatnid í því þornadi þá upp, svo ad vegur greiddist fyrir konúngana úr sólarupp-komu-stad. 13. Sídan sá eg þrjá óhreina anda, eins og pöddur, fara út af munni drekans og af munni dýrsins og af munni falsspámannsins. 14. Þetta eru djöfla andar, sem gjöra teikn, hverjir ed fara til allra konúnga í veröldinni, til ad safna þeim saman til stridsins á hinum mikla degi guds hins alvalda. 15. Sjá, eg kem eins og þjófur; sæll er sá, sem vakir og geymir sín klædi, svo hann gángi ekki nakinn um kring og ad adrir sjái hans blygdun. 16. Andarnir söfnudu þeim saman á þeim stad, sem á Hebresku kallast Har-

magedón. 17. Sá sjøundi helti úr sinni
skál út í loptid; þá gekk raust mikil út af must-
eri himinsins frá hásætinu, sem sagdi: þad er
sked; 18. þá urdu eldíngar og brestir og þrum-
ur, og hræring svo mikil, ad aldrei hefir ord-
id ønnur slík, frá því menn urdu til á jørd-
unni, eins og sú hræring vard. 19. Þá skipt-
ist borgin mikla í þrjá hluti, og borgir heid-
íngjanna hrundu. Þannig mintist gud þeirrar
miklu Babýlonar, ad hann lét hana bergja á
víni sinnar heiptarreidi. 20. Allar eyar hvurfu,
og fjøllin urdu ad eingu; 21. þá féll vættar-
þúngt hagl af himni yfir mennina; en mennirn-
ir hallmæltu gudi fyrir haglpláguna, því ad sú
plága var ákaflega mikil.

## 17. Kapituli.

Sú mikla hórkona Balýlon. Utþýding hórkonunnar og dýrsins.

1. Einn af þeim sjø einglum, sem héldu
á þeim sjø skálum, kom til mín og taladi svo
vid mig: kom híngad, eg skal sýna þér straff
skækjunnar miklu, sem situr á þeim mørgu vøtn-
um, 2. med hverri koníngar jardarinnar hafa
drýgt saurlifnad, og innbúar jardarinnar eru

ordnir drukknir af víni hennar hórunar. 3.
Hann leiddi mig þá í anda á eydimörku, hvar
eg sá konu sitjandi á skarlats-raudu dýri,
sem var fult af gudløstunar-ordum, og hafdi
sjø høfud og tíu horn. 4. Konan var klædd
í purpura og skarlat, og prýdd gulli, gimstein-
um og perlum, og hélt á gullstaupi í hendi
sér, sem fult var af vidurstygd og óhreinleika
hennar saurlifnadar. 5. Á enni hennar voru
skrifud þessi ord: leyndardómur, sú mikla Ba-
býlon, módir hórkvenna og vidurstygda jardar-
innar. 6. Eg sá, ad konan var drukkin af
blódi heilagra og af blódi Jesú votta, og undr-
adist eg stórlega, er eg leit hana.

7. Þá sagdi eingillinn vid mig: hví furdar
þig? Eg skal segja þér leyndardóm konunnar og
dýrsins, sem ber hana og hefir þau sjø høf-
ud og tíu horn. 8. Dýrid, sem þú sást, var,
en er ekki: þad mun sídan upp stíga frá af-
grunninu og tortýnast; þá munu innbúar jard-
arinnar undrast, hverra nøfn ekki hafa verid
skrifud í lífsins bók frá upphafi heimsins, þá
þeir sjá, ad dýrid, sem ádur var, er ekki fram-
ar til, en kemur þó aptur. Hér ridur á hug-
skoti, sem hefir speki. 9. Þau sjø høfud eru

sjø fjøll, sem konan situr á, og sjø konúngar,
10. fimm eru fallnir, einn er enn uppi, ann-
ar er ókominn, en þá hann kemur, mun hann
vara skamma stund. 11. Dýrid, sem var,
en er ekki til framar, er sá áttundi, og sprett-
ur upp af þeim sjø, og mun tortýnast. 12.
Þau tíu horn, sem þú sást, eru tíu konúngar,
sem enn þá ekki hafa tekid vid ríki, heldur
hafa feingid vald, sem konúngar, stundarkorn
med dýrinu. 13. Þessir eru samhuga, og ljá
dýrinu sinn styrk og sitt vald. 14. Þessir
munu strída vid lambid, en lambid mun sigra
þá, því þad er drottinn drottnanna og konúng-
ur konúnganna, og þeir, sem med því eru, hinir
kölludu, útvøldu og trúu. 15. Hann sagdi og
vid mig: vøtnin, sem þú sást, hvar skækan sit-
ur, eru fólk og lýdir, þjódir og túngur. 16.
En þau tíu horn, sem þú sást, og dýrid munu
hata skækjuna, eydileggja hana, gjøra klædlausa,
eta hold hennar og brenna hana sjálfa í eldi.
17. Því gud hefir lagt þeim í brjóst, ad gjøra
dýrsins vilja, vera samráda og ljá því sitt ríki,
þar til guds rádstafanir fullkomnast. 18. En
konan, sem þú sást, er borgin mikla, sem held-
ur ríki yfir konúngum jardarinnar.

## 18. Kapituli.

### Fall borgarinnar Babýlonar.

1. Eptir þetta sá eg annan eingil stíga of-
an af himni, hann hafdi mikid vald; jørdin
ljómadi af hans dýrd. 2. Hann kalladi hárri
roddu, segjandi: hún er fallin, hún er fallin,
sú mikla Babýlon, og ordin ad djøfla heim-
kynni og fángelsi alls konar óhreinna anda og
alls konar óhreinna og vidbjódslegra fugla, 3.
af því hún hefir byrlad øllum þjódum sitt á-
feinga hórunar vín, og konúngar jardarinnar
hafa drýgt saurlifnad med henni, og kaupmenn
jardarinnar eru ríkir ordnir af hennar megna
óhófi. 4. Þá heyrda eg adra rødd af himni, sem
sagdi: farid út af borginni, mitt fólk, svo þér
takid einga hlutdeild í hennar syndum, og hrepp-
id ekki hennar plágur; 5. því hennar syndir ná
alt upp til himins, og gud hefir minnzt henn-
ar ránglætis. 6. Gjaldid henni, eins og hún
hefir goldid ydur, og gjaldid henni tvofaldt ept-
ir hennar verkum; blandid henni tvofaldt í þeim
bikar, sem hún hefir blandad ydur í. 7. Veit-
id henni eins mikla kvol og hørmúngu, eins
og hennar stærilæti og óhóf hefir verid: því hún
segir í sínu hjarta: eg sit sem drottning, og

verd aldrei ekkja, eg sæ aldrei sorg ad sjá. 8.
Fyrir þetta munu hennar plágur koma á ein-
um degi, daudi og sorg og húngur; hún mun
brend verda í eldi, því sá gud, sem hefir dæmt
hana, er máttugur drottinn. 9. Konúngar
jardarinnar, sem hafa drýgt saurlifnad og mun-
adarlifi med henni, munu barma sér og gráta
yfir henni, þegar þeir sjá reykinn af hennar
brennu. 16. Af ótta fyrir hennar kvol munu
þeir standa lángt frá og segja: vei, vei, þú hin
mikla borgin, Babýlon, þú voldnga borg, því
hefndin hefir komid yfir þig á einni stundu.
11. Eins munu kaupmenn jardarinnar gráta
og harma yfir henni, því eínginn kaupir nú
fremur þeirra frama, 12. farma gulls og silf-
urs, gimsteina og perlna, líns og purpura, silk-
is og skarlats; alls konar ilmvid, alls konar
ker af filabeini og hinum dýrasta vidi, af eiri,
járni og marmara; 13. kanelbork, balsam, ilm-
jurtir, smyrsl, reykelsi, vín, vidsmjor, hveiti,
korn, eyki, saudfé, hesta, kerrur, þræla og mans-
menn. 14. Sá gródi, sem þín sála girntist,
hefir brugdizt þér; oll sæld og glys er þér tap-
ad, svo ad þú finnur þad ekki framar. 15.
Solumenn þessara hluta, sem hafa ábatazt á

borginni, munu standa áleingdar, grátandi og
harmandi af ótta fyrir hennar kvøl; 16. og
segja: vei, vei, þú hin mikla borg, sem íklædd-
ist líni og purpura og skarlati og varst prýdd
gulli og gimsteinum og perlum; því í einu vet-
fángi eyddist allur þessi audur. 17. Allir
stýrimenn, siglingamenn og hásetar, og þeir sem
í forum eru, stódu áleingdar, 18. og kølludu,
þá þeir sáu reykinn af hennar brennu, og sogdu:
hvar sást maki til þessarar miklu borgar? 19.
Þeir jusu mold yfir høfud sér, kølludu upp
grátandi og harmandi, og søgdu: vei, vei, þú
hin mikla borg, á hverrar yfirlæti allir þeir
græddu, sem skip høfdu á sjónum; hún er á
einni stundu eydiløgd. 20. Fagna yfir henni,
þú himin, og þér heiløgu, postular og spámenn,
því gud hefir hefnt ydar á henni. 21. Einn
sterkur eingill tók þá upp stein, eins og mik-
inn kvarnarstein, og kastadi í sjóinn, segjandi:
svo voveiflega skal hin mikla borg kollvarpast,
svo ad eingar menjar skulu eptir verda. 22.
Horpusláttur, saunglist, pípuhljómur og lúdra-
gángur skal ekki framar heyrast í þér; eingir í-
þróttamenn skulu framar finnast í þér, einginn
kvarnar-þytur skal framar heyrast í þér. 23.

Ljósabirta skal ekki framar sjást i þér, eingin
raust brúdguma og brúdar skal framar heyr-
ast i þér; því þínir kaupmenn voru høfdíngjar
jardarinnar, og allar þjódir leiddust afvega af
þínum tøfradrykk. 24. Í henni fannst blód
spámanna og heilagra, og allra þeirra, sem á
jørdu hafa drepnir verid.

## 19. Kapituli.

Sigursaungur á himni. Kristur fer i hernad og sigrar.

1. Eptir þetta heyrda eg rødd á himni,
eins og mikinn manngný, sem sagdi: lofid
drottinn; hjálprædid, dýrdin og mátturinn til-
heyrir gudi vorum, 2. því sannir og réttvísir
eru hans dómar; hann hefir hegnt skækjunni
miklu, sem spilti jørdunni med sínum saurlifn-
adi, og hefnt á henni fyrir dráp sinna þjóna.
3. Og aptur søgdu þeir: lofid drottinn; henn-
ar reykur mun upp stíga um aldir alda. 4.
Þeir tuttugu og fjórir øldúngar og þau fjog-
ur dýrin féllu þá fram og tilbádu gud, sem á
hásætinu sat, segjandi: amen, lofid drottinn.
5. Þá gekk rødd út frá hásætinu, sem sagdi:
lofid gud vorn, allir hans þjónar, og þér sem
hann óttizt, smáir og stórir. 6. Þá heyrdi eg

raddir, eins og af miklum mannfjølda og sem
nid margra vatna og sem sterkan þrumu-gný,
þær sogdu: lofid drottinn; þvi drottinn gud,
sá alvaldi, rikir. 7. Gledjumst og fognum og
vegsømum hann, því brúdkaup lambsins er
komid, og þess brúdur hefir búid sig. 8. Henni
var feingid skinandi og hreint lin til ad skrýd-
ast i; línklædid er dygdir heilagra. 9. Og hann
sagdi vid mig: skrifa þú, sælir eru þeir, sem
eru bodnir til brúdkaups lambsins. Sidan
sagdi hann vid mig: þetta eru sannarleg guds
ord. 10. Eg féll þá fram fyrir fætur honum
til ad tilbidja hann, en hann sagdi vid mig:
varastu þetta; eg er samþjón þinn og brædra
þinna, sem hafa vitnisburdinn Jesú, tilbid þú
gud; því vitnisburdur Jesú er andi spá-
dómsins.

11. Sidan sá eg himininn opnast, og sá
hvitan hest; sá, sem á honum sat, kallast sá trúi
og sannordi, hann dæmir og stridir med rétt-
visi. 12. Hans augu voru sem eldslogi, og
á høfdi hans voru margar kórónur; hann hafdi
skrifad nafn, sem einginn þekti, nema sjálfur
hann. 13. Hann var skrýddur skikkju blódlit-
adri, og hans nafn kallast „ord guds.“ 14. Þær

himnesku hersveitir fylgdu honum á hvítum hest-
um, íklæddar hvítu hreinu líni. 15. Af hans
munni gekk tvíeggjad sverd biturt, med hverju
hann slær þjódirnar, og ríkir yfir þeim med
járnsprota; hann tredur vínpressu heiptarreidi
guds hins alvalda. 16. Á skikkjunni og á lend
sinni hefir hann nafn áskrifad: konúngur kon-
únganna og drottinn drottnanna. 17. Þá sá
eg einn eingil, sem stód í sólunni, hann kall-
adi hárri roddu til allra fuglanna, sem flugu í
midhimninum: komid, safnizt saman til þeirrar
miklu veizlu guds, 18. til ad eta hold konúng-
anna, þúshundrads-hofdingjanna og kappanna,
hestanna og riddaranna, og allra, bædi frjálsra
og ófrjálsra, smárra og stórra. 19. Þá sá eg
dýrid og konúnga jardarinnar og þeirra her-
flokka samansafnada til ad heya stríd vid þann,
sem á hestinum sat, og vid hans herlid. 20.
Dýrid vard handtekid, og falsspámadurinn med
því, sem hafdi gjørt tákn í augsýn þess, med
hverjum hann afvega leiddi þá, sem hofdu tekid
vid merki dýrsins og tilbedid þess líkneskju;
þeim var bádum kastad lifandi í elddíkid, sem
logar af brennisteini. 21. Hinir adrir voru
drepnir med sverdinu, sem út gekk af munni

þess, er á hestinum sat, og allir fuglar sodd-
ust af hræum þeirra.

## 20. Kapituli.

Djöfullinn er bundinn. Þúsund ára ríkid. Djöfull-
inn látinn laus um stund og kastad í díkid. Dómurinn.

1. Þá sá eg eingil stíga nidur af himni,
hann hélt á lykli afgrunnsins og stórum fjötri
í hendinni. 2. Hann tók drekann, þann gamla
höggorm, sem er djöfull og Satan, og batt
hann um þúsund ár, 3. kastadi honum í af-
grunnid, læsti aptur og setti innsigli yfir, svo
hann ekki afvega leiddi þjódirnar framar, uns
þúsund ár væru lidin; en ad þeim lidnum á
hann ad leysast um stuttan tíma.

4. Þá sá eg hásæti; þeim, sem á þeim sátu,
var gefid dómsvald. Líka sá eg sálir þeirra,
sem höfdu verid hálshöggnir fyrir vitnisburd
Jesú og ord guds, og þeirra, sem ekki höfdu
tilbedid dýrid eda þess líkneskju og ekki höfdu
þess merki á enninu sér eda hendi. Þeir lifdu
og ríktu med Kristi um þúsund ár. 5. En
adrir daudir lifnudu ekki fyrr, en þau þúsund
ár voru lidin. Þetta er sú fyrri upprisa.
6. Sæll og heilagur er sá, sem hlutdeild tekur

í þeirri fyrri upprisu; yfir þeim hefir sá ann-
ar daudi ekkert vald, heldur munu þeir vera
kennimenn guds og Krists og ríkja med hon-
um þúsund ár.
7. En þegar þau þúsund ár eru lidin, verd-
ur Satan leystur af fángelsinu. 8. Þá mun
hann út gánga til ad afvega leida þjódirnar í
þeim fjórum heims endum, Gog og Magog,
og safna þeim til strids; mergd þeirra er sem
sjáfarsandur. 9. Þeir fóru upp á flatlendid og
umkríngdu herbúdir heilagra og þá elskudu borg.
En þá fór eldur af himni ofan, og eyddi þeim.
10. En djoflinum, sem afvega leiddi þá, var kast-
ad í þad logandi brennisteinsdíki, þar sem dýr-
id var og falsspámadurinn; þar munu þau
kveljast dag og nótt um allar aldir.
11. Þá sá eg mikid hásæti hvitt, og þann,
sem á því sat; en fyrir sjón hans hvarf him-
in og jørd, svo eingar evtirstødvar voru. 12.
Eg sá þá daudu, smáa og stóra, standa frammi
fyrir hásætinu, og bókunum var lokid upp. Þá
var annari bók lokid upp, þad var lífsins bók;
og voru þeir daudu dæmdir eptir þeirra verk-
um, sem skrifud voru í bókunum. 13. Sjórinn
skiladi aptur þeim daudu, sem í honum voru,

og daudinn og hel skiludu aptur þeim daudu,
sem í þeim voru, og hver þeirra var dæmdur
eptir sínum verkum. 14. Daudanum og helju
var kastad í elddíkid; þetta elddíki er sá annar
daudi. 15. Og hver sem ekki fannst skrifadur
í lífsins bók, honum var kastad í elddíkid.

## 21. Kapituli.

Sú himneska Jerúsalem.

1. Eg sá nýan himin og nýa jørd, því sá
fyrri himin og sú fyrri jørd var horfin, og sjór-
inn var ekki framar til. 2. Eg sá borgina
helgu, þá nýu Jerúsalem, stíga nidur af himni
frá gudi, búna sem brúdi, er skartar fyrir manni
sínum. 3. Eg heyrdi mikla rødd af himni
segjandi: þetta er tjaldbúd guds medal mann-
anna, hjá þeim mun hann bústad hafa, og þeir
skulu vera hans fólk, og gud sjálfur mun vera
hjá þeim, og vera þeirra gud. 4. Hann mun
þerra hvert tár af þeirra augum, og daudinn
mun ekki framar til vera; hvorki harmur, né
vein, né mæda mun framar til vera, því þad
fyrra er farid. 5. Sá, sem í hásætinu sat,
sagdi: sjá eg gjøri alt nýtt; hann sagdi vid mig:
skrifadu, ad þessi ord eru trúanleg og sønn. 6.

Enn framar sagdi hann vid mig: þad er sked;
eg em A og O, upphaf og endir. Þeim þyrsta
skal eg ókeypis gefa ad drekka af uppsprettu
lífsins vatns. 7. Sá, sem sigrar, skal ødlast
þetta, og eg skal vera hans gud, og hann skal
vera minn sonur. 8. En þeir ístødulausu og
ótrúu, syndarar og glæpamenn, manndráparar
og frillulífismenn, galdramenn og skurdgoda-
dýrkarar og allir lygarar, þeirra hlutfall skal
vera í því díki, sem logar af eldi og brenni-
steini; þad er sá annar daudi. 9. Þá kom
einn af þeim sjø einglum, sem héldu á þeim
sjø skálum, er fullar voru af þeim sjø sídustu
plágum, og taladi vid mig segjandi: kom hing-
ad, eg skal sýna þér brúdina, sem nú er gipt
lambinu. 10. Hann flutti mig þá í anda upp
á mikid og hátt fjall, og sýndi mér Jerúsalem,
borgina helgu, sem steig nidur af himni frá
gudi; 11. hún hafdi dýrd guds, hennar ljómi
var líkur dýrmætasta steini, sem krystalskær
jaspis. 12. Hún hafdi mikinn og hávan borg-
arvegg, tólf hlid, og vid hlidin tólf eingla med
áskrifudum nofnum hinna tólf Ísraels kyn-
kvísla. 13. Móti austri voru þrjú hlid, móti
nordri þrjú, móti sudri þrjú, móti vestri þrjú.

14. Veggur borgarinnar hafdi tólf undirstødu-
steina, á þeim voru tólf nøfn þeirra tólf postula
lambsins. 15. Sá, sem vid mig taladi, hélt
á gullkvarda, til ad mæla med borgina, hlid
hennar og veggi. 16. Borgin lá í ferhyrning,
jøfn á leingd og breidd. Hann mældi borgina
med kvardanum, tólf þúsund renniskeid, hennar
leingd, breidd og hæd var jøfn. 17. Hann
mældi vegg borgarinnar hundrad fjørutín og
fjórar álnir, eptir manns mælíngu, sem er eing-
ilsins. 18. Veggur hennar var bygdur af jasp-
is, og borgin af tæra gulli, sem skært gler væri.
19. Undirstødusteinar borgarveggsins voru
skreyttir alls konar dýrmætum steini; fyrsti und-
irstødusteinninn var jaspis, annar saffír, þridji
kalsedon, fjórdi smaragd, 20. fimti sardonix,
sjøtti sardínarsteinn, sjøundi krysolít, áttundi
beryll, níundi tópaz, tíundi krysópras, ellefti
hýasint, tólfti ametyst. 21. Þau tólf hlid voru
tólf perlur, og hvort hlid fyrir sig var úr einni
perlu; stræti borgarinnar voru af tæra gulli,
eins og gagnsært gler væri. 22. Ekkert must-
eri sá eg í henni, því gud drottinn hinn al-
valdi og lambid er hennar musteri. 23. Borg-
in þarf ekki heldur sólar vid eda túngls, til ad

lýsa, því dýrd guds uppljómar hana, og lamb-
id er hennar ljós; 24. þjódirnar munu gánga
í hennar ljósi, og konúngar jardarinnar færa
henni sína dýrd og vegsemd. 25. Hlidum henn-
ar verdur ekki lokad um daga, því þar mun
aldrei nótt koma. 26. Dýrd og vegsemd þjód-
anna munu þángad flytjast. 27. Ekkert óhreint,
einginn, sem fremur vidurstygd eda fer med
lygi, mun þángad inn koma, heldur þeir ein-
ir, sem eru skrifadir í lífsbók lambsins.

## 22. Kapituli.

Framhald. Nidurlag bókarinnar.

1. Hann sýndi mér straum lífsvatnsins,
hann var skær sem kristall, og rann frá há-
sæti guds og lambsins. 2. Milli borgar stræt-
anna og straumsins beggja vegna voru lífstrén,
sem báru tólffaldan ávöxt, á sínum mánudi
hvern, en blød vidarins eru til lækníngar þjód-
unum. 3. Eingin bølvan skal framar vera,
og hásæti guds og lambsins skal í henni vera,
og hans þjónar skulu honum þjóna. 4. Þeir
skulu sjá hans auglit, og bera hans nafn á
ennum sér. 5. Nótt skal ekki framar til vera,
og einginn þørf á ljósi eda birtu sólar, því

drottinn guð mun lýsa yfir þeim, og þeir skulu ríkja um aldir alda.

6. Síðan sagði hann við mig: þessi orð eru áreiðanleg og sönn; og drottinn, guð anda spámannanna, sendi sinn eingil til að sýna sinum þjónum það, sem brátt á að ske.
7. Sjá, eg kem snarlega: sæll er sá, sem varðveitir spádómsorð þessarar bókar.
8. Eg, Jóhannes, heyrði og sá þetta, og þá eg hafði heyrt það og séð, féll eg fram fyrir fætur þess eingils, sem sýndi mér þetta, til að tilbiðja hann.
9. En hann sagði við mig: varastu þetta; eg er samþjón þinn og bræðra þinna spámannanna, og þeirra, sem varðveita orð þessarar bókar; tilbið þú guð.
10. Enn sagði hann við mig: innsigla þú ekki spádómsorð þessarar bókar, því tíminn er nálægur.
11. Sá ránglátí haldi áfram að gjöra rángt, sá saurlífi haldi áfram saurlífnaðinum, sá réttláti haldi áfram í réttlætinu, sá heilagi haldi áfram í heilagleikanum.
12. Sjá, eg kem skjótt, og hefi með mér endurgjaldið handa sérhverjum, eptir því sem hans verk verða.
13. Eg em A og O, sá fyrsti og síðasti, upphafið og endirinn.
14. Sælir eru þeir, sem breyta eptir hans boðorð-

um, svo þeir nái ad komast ad lífstrénu og
megi inn gánga um borgarhlidin inn í borgina;
15. hundar (saurlífismenn) og galdramenn,
manndrápsmenn og skurdgodadýrkendur skulu
úti gista, sömuleidis hver, sem elskar og idkar
lygi. 16. Eg, Jesús, sendi minn eingil til
ad votta ydur þetta í söfnudunum; eg em rót
og kynstafur Davíds, morgunstjarnan sú hin
skæra. 17. Andinn og brúdurin segja: kom
þú. Sá sem þetta heyrir, hann segi: kom þú.
Sá sem þyrstur er, hann komi; hver sem vill,
hann taki gefins lífsins vatn. 18. Eg votta
þad fyrir sérhverjum, sem heyrir spádómsord
þessarar bókar, ad leggi nokkur hér vid, mun
gud á hann leggja þær plágur, sem skrifadar
eru í þessari bók. 19. Og taki nokkur af ord-
um þessarar spádómsbókar, þá mun gud af
honum taka hans hlutdeild í lífstrénu og borg-
inni helgu, sem um er skrifad í þessari bók.
20. Sá, sem þetta vottar, segir: já, eg kem
skjótt, amen. Kom, drottinn Jesú. 21. Nádin
drottins vors Jesú Krists veri med ydur öllum.



